# Tímarit

## Þjóðræknisfélags Íslendinga

**III. ÁR.**





WINNIPEG MANITCBA

**1921**



# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

III. ÁRGANGUR

### TILGANGUR FÉLAGSINS ER:

1. Að stuðla að því af fremsta megni, að Íslendingar megi verða sem beztir borgarar í hérlendu þjóðlífi.

2. Að styðja og styrkja íslenzka tungu og bókvísi í Vesturheimi.

3. Að efla samúð og samvinnu milli Íslendinga austan hafs og vestan.

Þetta er sá félagsskapur meðal Íslendinga í Vesturheimi, er aðallega byggir á þjóðernislegum grundvelli, á svipaðan hátt og hin ýmsu þjóðernisfélög hér í álfu, svo sem "The United Scottish", "Sons of England" o. fl.

Hver einasti Íslendingur í þessu landi ætti að standa í félaginu. Ársgjald fyrir fullorðna er $2.00, unglinga innan 18 ára 25 cent.

Markmið félagsins er að vinna að framförum og samheldni meðal Íslendinga hér í álfu, og að hjálpa til þess að unglingum gefist kostur á að læra Íslenzku, eftir því sem ástæður foreldranna kunna að leyfa.

Allar upplýsingar um félagið veitir "Félagsstjórnin" og má skrifa til hennar. Inngangseyrir og ársgjöld sendist til "Fjármálaritara", en áskriftargjaldið að Tímaritinu til "Skjalavarðar".

**Þjóðræknisfélag Íslendinga í Vesturheimi.**

P. O. Box 923, Winnipeg, Man.




Ef kjallaraofninn þinn er í ólagi eða ljósin, þá hringdu í talsíma A 8772 — hvenær sem er — á nóttu eða degi.

# The Repair Shop

**Óskar Sigurðsosn**
eigandi.

**675-7 Sargent Ave.**
WINNIPEG.

Umboð fyrir hinum frægu **Moffatt eldstóm.** — Vér mælum eigi með öðru en því, sem er bezt.

---

Gerir allskonar rafleiðslu, blikksmíði, stóar smíði, bætir það sem bilað er á ofnum og eldfærum.

Til allskonar lýsingar, með hvaða litum sem óskað er, Rauðum, Bláum eða sem Sólarljósið verða

## Edison Mazda Lamparnir

jafnan þeir beztu, og svo endast þeir lengst

**Það er skemst til vor — Kaupið að oss.**

Kostar ekkert meira en annarsstaðar.



THE

"G. J."

GROCETERIA

Það er 30 ára æfingin, sem hefir gert verzlun vora að "eye opener" hér í borginni.

Beztu þakkir fyrir viðskiftin.

GUNNL. JÓHANNSSON,

646 Sargent Ave.

Talsími: B Sherb. 572.

WINNIPEG MANITOBA




Við búum til umbúðakassa af öllum gerðum. Pantanir tafarlaust afgreiddar, hvort heldur er í tylftum eða heilum vagnhleðslum. — Eina íslenzka verksmiðjan í Canada af því tagi. Óskum eftir viðskiftum Íslendinga.

SOFFONÍAS THORKELSSON

eigandi.

1331 Spruce St., Winnipeg

Verkstæðissími: A 2191.

Heimilissími: A 7224

# HEILDSALA.

**Allar Ljúffengustu Skandínaviskar Matvörutegundir**

NORSKT **FLATBRAUÐ, OSTUR, ANSJÓSUR** og **REYKTUR LAX,** Í HEILU LÍKI, EINS OG HEIMA Á ÍSLANDI. OG ÓTAL AÐRAR FISKTEGUNDIR.

**Biðjið kaupmenn yðar um skandínaviskan hátíðamat frá**

## Port Nelson Fish Co., Ltd.

**Heildsölukaupmenn**

**936 SHERBROOKE STREET WINNIPEG, MAN.**

# TÍMARIT

## ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGS ÍSLENDINGA

III. ÁRGANGUR

RITSTJ. RÖGNV. PÉTURSSON.




WINNIPEG, MAN.
GEFIÐ ÚT AF ÞJÓÐRÆKNISFÉLAGI ÍSLENDINGA
1921

# Efnisyfirlit.





# Goðorðsmaðurinn.

(Sbr. Vatnsdælu um landnám Ingimundar gamla.)

Eftir **Stephan G. Stephansson.**

---

I.

Vala að veizlu,
Vilja hans gagnstætt,
Noreg úr til Íslands
Ingimundi spáði —
Hlutur og hugur
Hurfu' 'onum þangað —
Óðal nam á auðu,
Aftur þeim svo náði.

II.

Úr óbygð reis heimili að Hofi
Og hafin var Vatnsdæla saga,
Á endurfund Ingimunds bygð
Örlaga-gullsins, sem hvarf.

Í hornsteinsins-hólfs fyrirrofi
Lá heillaspá komandi daga,
Öðlingnum alda-frægð trygð
Orðstírs, um nafn sitt og starf.

Og vinsældir vorgróður-Freys —
sem vakti með sólþrá um nætur,
Gerðar er glóbjarta hönd
Geislar frá Jötunheim nyrzt.

Dýrleg unz dögunin reis
Svo döggin af fögnuði grætur.
Laufþrungin, gróandi lönd
Lifandi sól hefir kyst.

III.

Mánabjört miðvetrar-kvöld,
Úr myrkviði framskygnra drauma
Gekk þér ei Vala í veg,

Spáandi fyrir þér fjöld
Um forlaga órunna strauma,
Kollgátna-kvíðvænileg?

Hefir ei holtunum í
Þó hoppað um leið þína frammi
Hlutur sá kær, sem þér hvarf —

Beðið og bent þér á ný
Á bólstað í skjólsælu-hvammi:
Tungan með æskunnar arf!

Leið þín varð léttfær og góð
Og landnámsins fegursta saga,
Óðalsmanns unaðar-för,

Þar sem hver lækur varð ljóð,
Að leikvelli áning í haga,
Broskveðja bergmálsins svör!



# Máttur orðsins.

Eftir Kjartan Helgason.

## Ram-íslenzk saga.

Einu sinni kom skip af hafi til Noregs. Það var frá Íslandi. Fyrir skipinu réð maður, er Þorleifur hét. Hann var bóndason norðlenzkur, ættaður úr Svarfaðardal, en hafði alist upp á Reykjum í Miðfirði hjá Miðfjarðar-Skeggja. Þorleifur var skáld gott og margkunnandi, hafði numið margt í fornum fræðum bæði af föður sínum og fóstra.

Þegar Þorleifur kom til Noregs, réð þar ríkjum Hákon Hlaðajarl. Þorleifur lenti skipi sínu í Vík austur. Þar var jarl þá staddur. Þorleifur gekk á land og hitti jarl að máli. Jarl tók honum vel og spurði tíðinda af Íslandi. En svo lauk samtali þeirra, að jarl bað Þorleif að láta sig sitja fyrir öðrum um kaup á þeim vörum, er hann hefði til sölu frá Íslandi. Þorleifur kvað sér aðra kaupanauta hentugri, sagðist og vona, að hann væri sjálfráður um það, hverjum hann seldi vöru sína. Jarli líkaði illa, er Þorleifur svaraði svo; en þó hálfu ver daginn eftir, er hann fréttir, að Þorleifur er kominn í kaupstaðinn og kaupslagar þar um vörur sínar við hvern, sem honum sýndist. Þá varð jarl svo reiður, að hann fór með fjölmenni til skips Þorleifs, lét ryðja skipið og ræna öllu því, er honum þótti fémætt, en brenna síðan skipið til kaldra kola. Félaga Þorleifs, er á skipinu voru, lét jarl taka og hengja. Þorleifur var ekki nær staddur meðan þetta gerðist, en kom að litlu síðar. Honum þótti köld aðkoman, en hann stilti sig vel og hafði fá orð um, kvað vísu: "Hrollir hug minn illa", o. s. frv.

Má heyra á vísunni, að honum er þungt í skapi og hyggur á hefndir. En þar var ekki við lamb að leika, er við Hákon jarl var að eiga, en sjálfur var Þorleifur umkomulaus og allslaus í ókunnu landi. Enda hafði hann engin ráð önnur en að hröklast burt í það sinn; fór suður til Danmerkur og var um tíma við hirð Danakonungs. En þegar leið að jólum næsta vetur, tók hann sér aftur ferð á hendur til Noregs. Hann tók á sig dularbúning, bjó sig stafkarls-gervi, batt á sig skegg og gekk við hækjur; hélt síðan beina leið heim að Hlöðum. Þar var þá veizla. Þorleifur gekk inn í höllina og settist meðal annara stafkarla, gerði þar óskunda og var harðleikinn, til þess að eftir honum væri tekið. Hákon jarl lét þá kalla þenna óróasegg fyrir sig og töluðust þeir við. Að lokum bað karl þess, að hann mætti flytja jarli kvæði, er hann hefði ort um hann. Það var honum leyft. Hefir karl þá upp kvæðið, en jarlinn situr og hlýðir á. Líkaði honum vel í fyrstu, þótti snjalt kveðið og lof um sig í hverri vísu. En þegar fram í sótti, tók jarli að verða óvært, og þótti lofið tvírætt, svo að það mætti eigi síður heita níð en lof. Kallaði hann þá til karlsins og

bað hann vanda kvæðið betur; ella skyldi hann hafa verra af. Karl tók því vel og byrjaði að fara með vísur þær, er heita þokuvísur. "Þoku lýstr upp hit eystra" o. s. frv. Þá brá svo við að þoka varð í höllinni, og ágerðist, þar til er aldimt var orðið. Þá brýnir karl enn röddina og hefur upp síðasta kafla kvæðisins, sem kallað hefir verið Jarlsníð, og er sjálfsagt rammasta níð, sem nokkurntíma hefir verið kveðið, ef trúa má sögunni, því að það var svo magnað, segir sagan, að alt fór á ferð og flug, sem í höllinni var. Vopnin, sem hirðmennirnir höfðu lagt af sér, fóru á kreik, þótt enginn maður hefði hönd á þeim, og varð svo mikill vopnaburður þarna í myrkrinu, að margir fengu sár af og sumir bana. Jarlinn sat undir þessum ósköpum; honum leið illa, og að lokum féll hann í öngvit. Þá þóttist Þorleifur hafa nóg að gert, þagnaði og hvarf burtu úr höllinni. Tók þá að birta aftur, og hirðmenn fóru að ræsta höllina og stumra yfir jarli. Hann raknaði við, en rotnað var af honum hár og skegg, og óx aldrei aftur. Svo nær gekk honum níðið.

Eg ætla ekki að segja ykkur meira af þessari sögu. Þið getið lesið hana fyllri og lengri í þættinum af Þorleifi jarlaskáld.

Engum manni dettur nú í hug, að saga þessi sé sönn í þeim skilningi, að atburðirnir hafi gerst alveg á þann hátt, sem sagan segir. Það er þjóðsögublær á þessum söguþætti. En enginn skyldi þar fyrir kalla hana lygasögu. Honum hefir verið trúað af því, að hann kom að einhverju leyti heim við það, sem menn þóttust hafa reynt. Þjóðsögur eru yfirleitt ekki lygasögur, heldur nokkurskonar skáldsögur. Sumum finst það nú vera hið sama, kalla skáldskapinn lygi, og lygina skáldskap. En það er rangmæli og af vanþekkingu sprottið. Ekkert er rétt nefndur skáldskapur, nema það hafi einhvern sannleika að geyma. En sannleikurinn í skáldskap og þjóðsögum kemur stundum fram í dularklæðum. Hann er ekki lagður fram fyrir augu okkar ber og nakinn, heldur er yfir hann breidd einhver blæja, svo að reyna verður á skarpskygnina, til þess að koma auga á hann. Á þann hátt verður oft fullt svo áhrifamikið það sem sagt er, ef nokkuð verður fyrir því að hafa, að finna vitið í því.

## Kraftaskáld.

En hvað er það, sem okkur er sagt í þessari kynsjasögu um Þorleif jarlsskáld? Eða er nokkuð vit í henni.

Í þeirri sögu kemur fram ákaflega sterk trú á það, sem nú er umtalsefni mitt, á **mátt orðsins**, mátt tungunnar — eða mátt mannsandans, mætti eins segja, því að auðvitað eru orðin og tungan ekki annað en verkfæri andans.

Þá trú höfðu forfeður okkar, og þóttust hafa reynslu fyrir. Þeir trúðu því, að til væru kraftaskáld. Þeir trúðu því, að heiftarorð yrðu að áhrínsorðum, einkum ef töluð voru í mikilli geðshræringu, þegar vel var fylgt á eftir, orðin borin fram af öllu afli sterks vilja. Og eins og heiftarorð og böl-bænir gátu orðið að áhrínsorðum, svo var og um árnaðar-orð og heillaóskir, þegar heitur og sterkur vilji stóð á bak við. — Trúin á kraftaskáld var mjög almenn á Íslandi — og reyndar víðar um lönd. Margar sög-

ur eru til á ýmsum tungumálum um undramátt söngs og ljóða. En enga þekki eg stórfenglegri en söguna um Þorleif jarlsskáld. Sú saga hefði tæplega getað orðið til nú á dögum hjá alþýðunni í mentalöndunum svo kölluðu, þar sem menn eru farnir að trúa því, að skáldskapur sé ekki annað en glingur, nokkurskonar leikfang, rétt til þess að stytta sér stundir við; eða munaðarvara, sem til lítils sé nýt. Nei, sagan hefði ekki getað orðið til og geymst hjá öðru fólki en því, sem vissi það af reynslu, að miklir andans menn eru **máttugir**, að sterkur vilji og heitar tilfinningar geta haft hin furðulegustu áhrif, þó að engin athöfn fylgi önnur en að tala. Orðin verða máttug á vörum slíkra manna. Þorleifur kvað svo að dimt varð í höllinni og jarlinn hneig í ómeginn. Þessu áttu orðin ein að orka. Því trúðu gömlu mennirnir forfeður okkar. Þeir trúðu á mátt orðanna, þegar þau eru þrungin af eldhita einhverrar ástríðu, svo sem nístandi haturs, brennandi ástar eða bjargfastrar trúar.

Þessi trú er nú hjá mörgum heldur dauf. En ef svo er um okkur, þá held eg að það komi til af því, að við erum sjálf andleg lítilmenni, og getum þess vegna ekki trúað neinu háu og stóru, ekki skilið neitt nema það sé lítið og lágt — eins og við sjálf.

Enginn hefir gert jafn mikið úr mætti mannsandans og afli orðsins eins og Jesús Kristur. Þið munið, að hann sagði: "Trúaður maður getur alt." Og til þess að ekki væri um að villast, hvað hann átti við, sagði hann öðru sinni: "Ef þið hefðuð trú, þá gætuð þið sagt við þetta fjall: "ríf þig upp og kasta þér í hafið", og það mundi hlýða yður." Dýpra er varla unt að taka í árinni. Lengra verður ekki komist í trú á mátt orðsins. Og úr því að hann, meistarinn guðdómlegi, hafði þessa trú, þá finst mér það fara að verða afsakanlegt fyrir okkur og vansalaust, þó að við séum nokkuð trúgjörn á sumt, sem kallað er kynjasögur.

Eg er ekki með þessu að halda því að ykkur, að sagan um Þorleif jarlsskáld sé bókstaflega sönn, eða aðrar slíkar kraftaskáldasögur. Eg ætla ekki að reyna að telja ykkur trú um, að Hallgrímur Pétursson hafi í raun og veru kveðið tófu í rot með einni ferskeytlu, eins og ein þjóðsagan segir. En þessar og þvílíkar sögur minna okkur á þann sannleika, að kraftaskáld hafa verið til og eru til enn í dag, og alþýða manna hefir altaf haft eitthvert veður af því, hve mikill máttur þeim er gefinn. Frá því sögur hófust, hafa líklega skáldin verið máttugustu mennirnir á þessari jörð. Auðvitað ekki öll skáld, því síður allir, sem kallaðir hafa verið því nafni. En þau skáld hafa verið til, er svo voru máttug, að þau hafa breytt stefnu tíðarandans og valdið straumhvörfum í sögu þjóðanna. Og það er ennþá stórkostlegra kraftaverk, heldur en það þrekvirki, að kveða Hákon Hlaðajarl í öngvit.

## Stórvirkir sáðmenn.

Þessu til skýringar vildi eg mega benda á nokkur dæmi.

Einhver stórvægilegasti atburður mannkynssögunnar er stjórnarbyltingin mikla á Frakklandi, þegar franska þjóðin varð til þess að hrista af sér ánauðarok einveldisins. Sá mikli at-

burður varð með ótrúlega fljótri svipan. En hann gerðist ekki undirbúningslaust. Skáld og ritsnillingar höfðu undirbúið. Þeir höfðu með orðum sínum lagt eldkveykjuna inn í sálir mannanna, svo að þjóðin var öll orðin eins og einn stór bálköstur. Og þá þurfti ekki nema lítið atvik til að kveykja í og hleypa öllu í loga.

Alkunnugt er það, hvern þátt skáldin áttu í því, að þrælum var gefið frelsi í Bandaríkjum Norður-Ameríku á öldinni sem leið. Með ágætum söggum og ljóðum vöktu skáldin samhug og meðaumkvun með þrælunum, og áttu þannig drjúgasta þáttinn í því, að þrælahald var úr lögum numið. Það mannúðarverk er engum mönnum fremur að þakka en nokkrum skáldum.

Það er nærri því algild regla, að þegar einhver þjóð tekur einhvern fjörkipp, stígur eitthvert stórt framfaraspor, þá hefir hún rétt áður átt einhver stórmenni andans, venjulega skáld, sem hafa vakið stórar og göfugar hugsanir með þjóð sinni. Þeir hafa undirbúið. Þeir hafa oft ekki lifað það sjálfir, að sjá ávextina af orðum sínum. Og þeim hefir oft verið litlu launað eða þakkað, a. m. k. í lifanda lífi. Því að ávextirnir eru oft lengi að vaxa, svo að þeir komi í ljós. Skáldin eru sáðmenn. Þau strá út kenningum sínum í kyrþey. Þjóðirnar taka við orðum þeirra, og leika sér að þeim eins og glingri, og vita oft ekki, hve dýrmæt þau eru, fyr en sannleikurinn, sem í þeim liggur, er orðinn almennings-eign, og ber þá einhvern mikilvægan ávöxt, þegar minst varir.

Ávextirnir eru auðvitað misjafnir að gæðum, eftir því, hvernig sáðmennirnir eru sjálfir. Seiðmagnið í orðum skáldanna getur verið jafnmikið, hvort sem því er beitt til ills eða góðs. Og því hefir stundum verið beitt til ills. Þorleifur jarlsskáld brúkaði sína gáfu til þess að koma fram grimmilegri hefnd. En sem betur fer, er það fágætt, að mestu andans menn misbeiti þannig mætti sínum.

Þið þekkið öll talsvert sögu Gyðingaþjóðarinnar til forna. Óvíða sjáum vér glöggvar en þar, hver máttur orðsins getur verið. Af bókum spámannanna t. d. getum við fengið nokkra hugmynd um, hvílík stórmenni þeir voru, flestir stórkostleg skáld, sönn kraftaskáld, enda höfðu þeir feikna mikil áhrif á þjóð sína.

Þeir, sem lesið hafa fornaldarsögu Grikkja, muna ef til vill eftir einkennilegri smásögu um borgirnar Spörtu og Aþenu. Þær voru ólíkar, þó að sama tunga væri töluð í báðum. Spartverjar voru harðir og hraustir, Aþenumenn gáfaðir og andríkir. Einu sinni í fyrndinni áttu Spartverjar í ófriði við nágranna sína, og sáu sitt óvænna. Þá leituðu þeir liðs hjá Aþenu. Aþenumenn vildu víst hjálpa frændum sínum, en þá langaði til að gefa þeim ofurlitla áminningu um leið. Liðið, sem þeir sendu Spartverjum, var ekki nema **einn maður**. Og hann var líkamlega fatlaður, haltur. En hann var skáld. Hann orti hersöngva fyrir Spartverja, og hleypti í þá þeim eldmóði, að þeir unnu sigur og ráku óvini sína af höndum sér. Og sá sigur var ekki síður þakkaður skáldinu halta, en hershöfðingjunum og hetjunum spartversku. Og Aþeningar

náðu tilgangi sínum: að sýna Spartverjum það svart á hvítu, að öll þeirra líkamlega hreysti og harðfengi var ekki meira virði og mátti sín ekki meira, en það andlega atgervi, sem Aþeningum var gefið.

### "Vormenn" Íslands.

Þessi dæmi eru nú langt sótt. En við Íslendingar þurfum ekki langt að leita. Við höfum dæmin nær okkur, í okkar eigin sögu, og það þótt við horfum ekki langt aftur í tímann. Við þekkjum öll Jóns Sigurðssonar tímabilið. Ykkur er öllum ljóst, hvað þá gerðist á Íslandi, og hvað þjóðin á þeim manni að þakka. Þjóðin reis af dvala og sjálfstæðishugurinn vaknaði. Eg ætla ekki að fara að lýsa því. En á hitt vildi eg drepa, sem sjaldnar er á minst, **hvernig** það gerðist, hvernig hugsjón Jóns Sigurðssonar fór að komast inn í okkur Íslendinga og verða okkar eign. — Jón var mikilmenni; vitið var frábært og þekkingin á sögu Íslands og öllum högum þess; og hann var ágætur rithöfundur, rökfimur með afbrigðum. En hve margir haldið þið að hafi lesið hans ágætu ritgerðir? Ekki nema fáir menn. Það var ekki því að heilsa, að rit hans flýgju eins og eldur í sinu út um landið. Enda er efasamt, hvort almenningur hefði haft þeirra full not. Þau voru fremur handa stjórnmálamönnum og lærðum mönnum. Og þjóðin var í fyrstu hálf hrædd við að fylgja honum. Menn skildu það tæplega þá, að þessi litla þjóð gæti verið sjálfri sér ráðandi, og menn trúðu því ekki meir en svo, að hún hefði nokkurn rétt til þess. Hvernig fór Jón að sannfæra þjóðina um þetta og fá hana til að fylgja sér?

Hann sat sjálfur suður í Kaupmannahöfn nærri alla æfi. Ekki gat hann prédikað munnlega fyrir alþýðunni á Íslandi, nema þá fáu daga, sem hann sat á Alþingi annaðhvert ár, fyrir þeim fáu mönnum, er þar gátu hlustað á hann. Hann gat aðeins sent heim ritgerðir sínar, og þeir, sem lásu þær og skildu, voru ekki einn af hundraði.

En Jón Sigurðsson var samtíma og kunnugur ýmsum efnilegum Íslendingum, sérstaklega hafði hann mikil mök við marga unga mentamenn. Í þeim hóp voru mörg skáld. Þar var Jónas Hallgrímsson, Benedikt Gröndal, Gísli Brynjólfsson, Jón Thoroddsen, Grímur Thomsen, Steingrímur Thorsteinsson, Matthías Jochumsson. Þessir menn og fleiri urðu allir samverkamenn Jóns Sigurðssonar. Án þeirra hygg eg, að hann hefði litlu til vegar komið. Það er þeim að þakka, hve fljótt hugsunarháttur þjóðarinnar snerist. Þeir hafa sungið hugsanir Jóns inn í Íslendinga. Eg segi ekki, að þeir hafi sótt hugsanir sínar til hans. En þeir voru gagnteknir af sama þjóðræknis-anda. Og þeir gátu látið hjóðið berast. Þeir áttu þá tungu, er talað gat til **allrar** alþýðunnar, svo að segja, og kent henni að virða þjóðerni sitt og leggja rækt við það. Jóni hefir verið þökkuð viðreisn þjóðarinnar meira en þeim. Það er eðlilegt. Það bar meira á starfi hans. Hann var mikilvirkur framkvæmdarmaður; hinir voru sáðmenn.

**Ísland farsældafrón.**

Jónas Hallgrímsson og þeir Fjölnismennirnir voru teknir til starfa á undan Jóni Sigurðssyni. Munið þið, hvernig tímaritið þeirra, Fjölnir, hóf göngu sína. Þegar fyrsta hefti þess rits barst til Íslands, mun mörgum hafa orðið starsýnt á fyrstu blaðsíðuna. Þar stóð kvæði, sem ekki hafði sézt fyr, kvæðið "Ísland farsældafrón". Mér er altaf að skiljast það betur og betur, hver feikna áhrif þetta eina kvæði kann að hafa haft, og ef til vill allra mest fyrstu orð kvæðisins. Það var djarft að kalla landið okkar farsælda-frón, **á þeim tíma,** þegar flest var þar í niðurníðslu. Umbótatilraunirnar, sem við og við höfðu verið gerðar, t. d. á dögum Skúla Magnússonar, sýndust flestar hafa farið í strand. Þjóðin sat í hálfgerðri eymd og volæði og sá ekki önnur ráð en að "lifa og deyja upp á kóngsins náð". Danir yrðu að halda í okkur lífinu, ef við ættum að lifa; allur þorri manna vonlítill og trúlítill á nokkra viðreisn fyrir þjóðina. Hvílíkt hugrekki þurfti þá ekki til að slengja þessari fjarstæðu framan í fólkið: Ísland — farsældarland, hagsældarland? — En kvæðið, sem byrjaði á þessu öfugmæli, breiddist samt út — þó að vitlaust væri. Þessi vitleysa var einhvernveginn svo falleg, að menn gátu ekki annað en lært hana. Eftir nokkur ár kunnu menn þetta kvæði um þvert og endilangt Ísland. Og svo er enn í dag, að hvert barnið lærir það. — Það er sannfæring mín, að þetta eina orð — fyrsta orðið á fyrstu blaðsíðunni í Fjölni — hafi valdið reglulegri byltingu í hugum manna á Íslandi — án þess að þeir vissu. Þeir tóku bara við kvæðinu brosandi og léku sér við að læra það, léku sér að því eins og fallegu barnagulli. En — það gróf um sig í huganum. Áður en menn vissu af, voru þeir farnir að trúa því, að þetta væri sannleikur: Ísland **væri,** eða **gæti verið,** farsældarland. Og nú er það orðin bjargföst sannfæring flestra Íslendinga. Þetta spámannsorð Jónasar, sem í fyrstu leit út eins og argasta öfugmæli, hefir haldið sigurför inn á hvert heimili í landinu, ekki með neinum hávaða né gauragangi, heldur hægt og hljóðlega, á sinn hátt ekki ósvipað því, þegar lipur mannshönd leggur fræ í mold á vordegi, og fræið vex og ber ávöxt. Það er undravert, hverju eitt snjalt orð fær á orkað, er flýgur mann frá manni.

Eg sagði áður, að Íslendingar hefðu varla getað trúað því, að þeir hefðu nokkurn **rétt** til sjálfstæðis. Þeim fanst, mörgum hverjum, að Danir ættu landið okkar og þjóðina með húð og hári. Þeir þektu ekki, eða skildu ekki þau ágætu rök, sem Jón Sigurðsson færði fyrir sínu máli, þegar hann var að heimta rétt okkar af Dönum. En þegar Matthías sendi okkur kvæðið, sem byrjar þannig:

"Vertu óhrædd, veika þjóð,
vörn í þinni sök
fram mun færð um síðir
með full og heilög rök,"

þá skildu allir; þetta gekk í okkur betur en allar lærðar röksemdir. Þegar okkur var sagt það með þessum orðum, þá **máttum við til** að fara að hugsa um rökin, og gátum ekki annað en verið sammála og trúað. En til þess að segja það svona, þurfti skáld.

Til þess að tala svo, að börnin skilji, þarf æfinlega snillinga.

Það er svo sem ekki eingöngu þjóðrækni, sem skáldin hafa kent okkur, þó að eg hafi nefnt það sem dæmi, heldur flest alt það bezta, sem við eigum í okkar andlegu eigu. Öllum er t. d. augljóst, hve sálmaskáldin hafa átt drjúgan þátt í því, að innræta mönnum guðrækni, bæði ungum og gömlum.

## Í mannahraki.

Mig langar til að minnast lítið eitt á annað tímabil í sögu Íslands, siðabótar-tímabilið. Það finst mér sýna einna ljósast, hve illa sú þjóð er stödd, sem vantar mátt hins lifanda orðs.

Þið vitið, hvernig siðabótin var innleidd á Íslandi. Henni var þröngvað upp á þjóðina með konungsboði og hervaldi, með ofbeldisverkum og manndrápum. Guðsþjónustunni í kirkjunum og öllum helgisiðum var breytt með lagaboði, og það svo snögglega, að þjóðin hafði ekki tíma til að átta sig. Konunginum lá á að fá siðabótina lögfesta; hann hafði ekki tíma til að bíða eftir því, að menn **sannfærðust** eða skildu yfirburði hins nýja boðskapar. Hið gamla var rifið niður miskunnarlaust, en lítið bygt upp í staðinn. Að vísu voru þeir menn til, sem boðuðu þjóðinni siðabótina á réttan hátt; menn, sem reyndu að ryðja braut **sannri** siðabót og trúarbót, með því að fræða og sannfæra. En þeirra gætti lítið á móti öllum hinum, sem fengust við það eitt að rífa niður. Fyrstu öldina eftir siðaskiftin er andlega lífið á Íslandi í hræðilegu ástandi. Það lá svo að segja í rústum. Flest, sem enn er til frá þeim tímum, ber vott um það. "Dimt er í heiminum, Drottinn minn, deginum tekur að halla," kvað séra Einar í Heydölum. Og þið ættuð að heyra, hvernig aldarhættinum er lýst í kvæðum Bjarna skálda, alþýðuskáldi í Borgarfirði, sem uppi var á þeirri öld — "er dimmast var á Fróni". Alt fult af dapurleik og bölsýni.

Það er fjarri mér, að vilja gera lítið úr öllum talsmönnum siðabótarinnar á Íslandi. Við þökkum t. d. Oddi Gottskálkssyni fyrir að gefa þjóðinni nýja testamentið á íslenzku, og Guðbrandi Hólabiskupi fyrir áhuga hans og bóka-útgáfur. En áhrif þessara ágætismanna náðu skamt. Þeir áttu ekki þá rödd, er vakið gæti samtíðarmenn þeirra alment. Með bókaútgáfum sínum náðu þeir ekki til allra, og sízt til þeirra, sem mesta höfðu þörfina, hinna fáfróðustu og fátækustu. Til þess að ná þeim til eyrna vantaði menn. Þjóðin var í mannahraki. Það vantaði mann, er gæti fært hugsanirnar í þann búning, að allir gætu skilið. Það vantaði mann, er kynni að segja **sannleikann** með svo snjöllum orðum, að öllum væri ánægja að heyra og læra. Þann mann vantaði, þangað til Hallgrímur Pétursson kom til sögunnar, meira en 100 árum eftir að siðabótin var komin í lög. Þá loksins var sá spámaður risinn upp, er talaði svo skýrt, að hvert mannsbarn **varð** að heyra, og svo innilega, að mönnum hitnaði um hjartaræturnar. Mér finst, að varla megi telja siðabótina innleidda á Íslandi fyr en að Hallgrímur tók hana á sína arma. Hann hefir sungið **hana** inn í hug og hjörtu Íslendinga. Hann

einn gat það, af því að hann var skáld og nógu máttugur í orðum.

Og svona er það í öllu. Hvenær, sem einhver ný og stór hugsun þarf að komast inn í meðvitund manna, hvenær sem einhvern nýstárlegan sannleik þarf að boða almenningi, þá verða skáldin að taka það að sér. Aðrir geta það vanalega ekki. Þau eru langbeztu alþýðukennararnir. sem heimurinn hefir átt. Þau eru spámenn þjóðanna.

Fyrir það, að skáldin okkar hafa ort ættjarðarkvæði, svo innileg og mjúk og hlý, að hvert barnið lærir þau um leið og það lærir málið, fyrir það er einhver snefill af þjóðrækni í okkur öllum. Við höfum drukkið hana inn í okkur með móðurmjólkinni.

Og fyrir það, að á Íslandi hafa verið menn, sem ritað hafa sögur og ort kvæði, hvorttveggja af mikilli snild, fyrir það er nú það furðuverk heimsins til, sem heitir íslenzkt þjóðerni.

**Þjóðernis-vörn.**

En þjóðerni okkar Íslendinga er í hættu statt. Þessi litla þjóð, sem við öll heyrum til að ætt og uppruna, þarf á árvekni að halda, ef hún á ekki að glata sér. Eg tala ekki um ykkur, Vestur-Íslendingar, eingöngu. Eg veit, að hér hefir lengi verið haldið uppi drengilegri vörn fyrir þjóðerninu. Á það þarf ekki að minna ykkur, né á þá hættu, sem yfir því vofir hér. Þið sjáið hana full-vel — ef til vill of vel. Því að sumum vex hún svo í augum, að þeim virðast allar bjargir bannaðar og vilja gefa upp vörnina. En við Íslendingar heima eigum að öllum líkindum einnig baráttu fyrir höndum. Fram að þessum síðustu tímum hefir einangrunin hjálpað til að vernda okkur, og okkar beztu menn hafa í ró og næði verið að hlúa að öllu þjóðlegu, sem vert þykir að varðveita. En nú eru sumir hræddir um að friðurinn sé úti. Einangrunin verndar okkur ekki lengur. Samgöngur og viðskifti við aðrar þjóðir aukast hröðum fetum. Og nágrannaþjóðirnar eru farnar að gefa landinu okkar meiri gaum en áður. Það hefir aldrei orðið þeim eins ljóst og nú, hve dýrmætar auðlindir Ísland á. Reyndar hefir það verið alkunnugt lengi, að sjórinn kringum landið er gullnáma. En nú eru augun að opnast fyrir því líka, sem landið sjálft hefir að geyma. Erlendir auðmenn líta fossana okkar hýru auga, og það afl sem í þeim er fólgið, vilja þeir fegnir fá í sína þjónustu. Í því skyni hafa félög verið mynduð og telja sig þess albúin að leggja fram fé til að starfrækja fossa og koma á fót stóriðnaði; þau bíða aðeins eftir að fá leyfi til að taka til starfa. Ef af þessu yrði, er óhjákvæmilegt að flytja mikið af erlendum vinnulýð inn í landið, því verkafólkið er of fátt handa þeim atvinnuvegum, sem nú eru stundaðir, auk heldur ef í ný stórfyrirtæki yrði ráðist. Þá þurfa Íslendingar að vera vakandi svo að útlendingarnir verði þeim ekki ofjarlar og beri íslenzka þjóðernið ofurliði. Og margir Íslendingar austan hafs hafa líka hug á því að standa á verði. En á hvern hátt? Með hverjum ráðum verður þjóðernið varið. Eg þekki ekki nema eitt ráð, og veit ekki til að nokkrum manni hafi hugkvæmst neitt annað. Það er eina ráðið, að efla svo sem unt er þjóðlega alþýðumentun, leggja rækt við **andlega** þjóðarauðinn og

láta sem **flesta** fá hlutdeild í honum. Öll viðleitni í þá átt er þjóðernisvörn. Með ýmsu móti er verið að vinna að því verki á Íslandi. Eg hefi ekki tíma til að segja ykkur mikið um það starf. En eitt má eg til að nefna, sem eg veit ekki hvort þið vitið neitt um. Það er ein hreyfing, sem mér þykir einna mest um vert í íslenzku þjóðlífi á síðari árum. Á síðustu 10—12 árum hafa þotið upp **ungmennafélög** um alt land. Þau hafa samband sín á milli, sameiginleg lög og eina yfir-stjórn. Tilgangur þeirra er að efla alt gott og þjóðlegt. Þessi félög gera afar mikið gagn, og þau sýna, að alþýða manna finnur hvar skórinn kreppir. Mentalöngunin er rík í Íslendingum, en mörgum er erfitt að fullnægja henni. Ungmennin hafa því tekið til sinna ráða til að afla sér þeirrar menningar, sem þau geta, með samvinnu. Þau útvega sér menn til að ferðast um og halda fyrirlestra, og þau senda hvert öðru sína beztu menn til að hvetja og leiðbeina. Þau halda fundi, svo oft sem því verður við komið, til að ræða sín félagsmál og jafnframt til þess að syngja fegurstu ljóðin og lögin sem þau kunna, og ræða um beztu bækurnar, sem þau hafa lesið. Einkum eru ljóðin og sögurnar fjörgjafi ungmennafélaganna — einmitt það sama sem fremur öllu öðru hefir viðhaldið íslenzku þjóðerni á liðnum öldum og **mun** viðhalda því framvegis, svo framarlega sem því er lífs auðið.

Eg held að augu manna séu að opnast betur og betur til að sjá þetta. Þeim mönnum fer fjölgandi, sem skilja það, hver þjóðarnauðsyn það er, að alþýða manna fái eitthvað gott að lesa og við sitt hæfi. Alþingi hefir viðurkent það með því að veita nokkrum rithöfundum, einkum skáldum, ofurlítinn styrk árlega, til þess að þeir hafi einhverja ögn til að lifa af. Þið vitið, að það getur ekki verið arðsamur atvinnuvegur að skrifa bækur á íslenzku. Til þess er þjóðin of fámenn — jafnvel þótt íslenzk alþýða kaupi og lesi meira af bókum að tiltölu við fólksfjölda, heldur en nokkur önnur þjóð í heimi. Sumir amast við þessum skálda-styrkjum, kalla þá bitlinga og ýmsum ljótum nöfnum, og telja margt annað þarfara. Það er nú oft erfitt að segja, hver þörfin er brýnust, þegar margt kallar að í einu. En mín sannfæring er það, að alþingi hafi aldrei varið fé til neins, sem þarfara er. Þjóðin hefir aldrei komist að betri kaupum við neina starfsmenn sína en skáldin, aldrei fengið jafn-þarft verk unnið fyrir jafn-litla borgun. Því að það eru þau, sem fremur öllum öðrum halda uppi mentun alþýðunnar. Ef þeirra nyti ekki við, færi það flest fyrir ofan og neðan, sem vitrustu og beztu menn heimsins eru að hugsa og skrifa. Slíkar hugsanir kunna skáldin ein að matreiða svo, að alþýðan geti lagt sér til munns. Hvernig haldið þið að andlega lífið yrði, ef engar bækur væru gefnar út, nema þurrar fræðibækur, sem sárafáir vilja lesa og geta lesið, eða skólabækur, sem flestir verða fljótt leiðir á og vaxa upp úr, og svo blöðin, sem venjulega hafa nóg með að tala um daginn og veginn, flytja fréttir og rífast um flokksmál? Hvernig mundi mæðrunum þykja það, að eiga enga vísu né vers, til að raula við vöggu barnanna sinna, og enga fallega sögu né æfintýri til að segja

þeim, þegar þau stækka? Þær gætu sjálfsagt eins **svæft krakka** með því að þylja fyrir hann upp úr markaskrá, eða auglýsingar eða símfregnir úr blöðunum, en hvort **áhrifin** af því yrðu hin sömu, sem af fegurstu ljóðum Jónasar, Matthíasar, Hallgríms Péturssonar, það er annað mál.

Það verður að vanda til þess sem þjóðinni er lagt í munn til þess að fara með yfir barnsvöggunni. Í það heiðurssæti eiga engin orð skilið að komast, nema orð útvaldra snillinga — og komast heldur aldrei; allur almenningur er svo skyni gæddur, að hann finnur, að til þess **verður** ekki brúkað nema **það bezta**. Flestir foreldrar hugsa víst eins og Dr. Björn frá Viðfirði; hann skrifaði skömmu áður en hann dó í vísnabók ungrar dóttur sinnar:

"Láttu ekki á bók þína rita nema það,
sem geyma viltu gullstöfum greypt
í hjartastað."

Það er óyggjandi sannleikur í vísuhelmingnum eftir Þorstein Erlingsson um uppvaxtar-ár biskupsdótturinnar í Skálholti:

"Og þegar hún sat þeim hæglát hjá
og hlustaði á **kvæði og sögur,**
þeir fundu það aldrei eins og þá,
hvað æskan er ljúf og fögur."

Eg gæti ekki hugsað mér, hvernig æska nokkurs mann gæti orðið "ljúf og fögur," ef sögur og ljóð væru horfin af vörum þjóðarinnar.

Fyrir skömmu hefir ein bóndakonan á Íslandi sagt okkur frá því, hvernig henni varð við, þegar hún eignaðist eina nýju ljóðabókina. Hún segir að það hafi reyndar tafið sig dálítið, sér hafi fipast húsmóðurstörfin:

"Eg brendi graut, svo brá hann lit,
og bunu helti í eldinn;
sem húsfrú misti eg hálft mitt vit,
en — hlakkaði til á kveldin."

Sem betur fer, hefir ekki öllum ljóðelskum konum farið eins og þessari, að þær hafi mist hálft húsmóðurvitið af lestrarfýkn. Margri konunni hefir þótt gaman að líta í bók og gengt skyldustörfunum engu ver fyrir það. En þeim hefir verið það ómetanleg glaðning og hressing að geta verið að hlakka til þess allan daginn að mega líta í bókina sína á kveldin, eða á sunnudaginn, eða á öðrum tómstundum. Og þær tómstundir hafa ekki orðið arðlausar, ekki arð-**litlar,** sem íslenzku konurnar hafa haft af ljóðabókunum og sögubókunum sínum. Eg er viss um, að ekki lítið af því bezta, sem þjóðin á nú í fórum sínum, er einmitt þeim hvíldarstundum að þakka Því að auðvitað er það langmest undir konunum komið — mæðrunum — hvort hin uppvaxandi kynslóð á nokkur orð "greypt gullstöfum í hjartastað," eða ekki.

"Engin kendi mér eins og þú," segir Matthías Jochumsson til móður sinnar. Hann hafði þá notið þeirrar mentunar, sem unt var að veita á Íslandi, síðan farið víða um lönd, og drukkið í sig eins og hamhleypa alt hið dýrmætasta í bókmentum vestrænu þjóðanna, bæði fornum og nýjum. Hann, þessi gáfaði og stórhuga sonur, kemur svo aftur að knjám móður sinnar, fullur lotningar, og segir:

"Eg hefi þekt marga háa sál,
eg hefi lært bækur og tungumál,
og setið við lista lindir.
En **enginn kendi mér eins og þú**

hið eilífa stóra, kraft og trú,
og gaf mér svo guðlegar myndir."

Og margt annað segir hann um hana álíka lofsamlegt, sem eg veit, af sögusögn annara kunnugra manna, að satt er og ekkert oflof.

Og hver er nú þessi kona, sem fær þenna stórfengalega vitnisburð? Þóra í Skógum var bláfátæk bóndakona — í moldar bæ — í útkjálkasveit á Íslandi. Hún átti fjölda barna, og hún hafði engan kennara handa þeim, engan barnaskóla. Hún varð að kenna þeim sjálf, það sem hún gat. Hún var **talin** al-ómentuð kona. En hún kunni mikið af sögum og kvæðum, og kunni að fara með það, kunni að miðla öðrum af þeim auð. Mér dettur hún oft í hug, þegar eg heyri foreldra hér vestra segja, að þau hafi engan tíma til að kenna börnum sínum íslenzku eða neitt í íslenzkum fræðum; og eg veit, að margur segir það satt. En ætli það hefði ekki líka verið satt, þó að Þóra í Skógum hefði sagzt hafa öðru að sinna en barnakenslu. En hún sagði það ekki, afsakaði sig ekki, þó að tíminn væri naumur og lítið um næði. Kenslan hefir líklega oftast farið fram samhliða öðrum verkum, kenslustofan oft verið eldhúsið. — En hvað haldið þið að það hafi verið, sem gjörði þessa konu að þeim afbragðs barnakennara, sem hún var? Eg fyrir mitt leyti efast ekki um, að það hafi fyrst og fremst verið það, að hún var **kristin** kona af hjarta. En það var líka annað. Það var undramáttur íslenzkrar tungu, íslenzkra ljóða, og íslenzkra sagna, sem hún var svo auðug af. Fyrir það er sonur hennar óendanlega þakklátur, og finnur, að hann býr að því alla æfi, fremur en nokkru öðru, sem hann hefir lært.

Mér hefir orðið skrafdrjúgt um þessa einu konu, ekki af því, að hún sé neitt einsdæmi. Dæmi hennar er í minnum haft af því að svo vildi til, að eitt af börnum hennar varð stórskáld og hefir ort um hana snildarkvæði. En eg þekki **margar** konur henni líkar, sem hafa unnið sama afreksverk og hún, þó að þær hafi ekkert lofkvæði fengið að launum, og **fáir** þekki nöfn þeirra.

### Albogabörn.

Íslenzka þjóðin hefir átt því láni að fagna, að eiga tiltölulega mikið af snillingum, í samanburði við fólksfjölda. Og það er, að mínu áliti, okkar mesta lán, aðal-þjóðargæfan, en hefir oft verið of lítils metið. Eg vona að sá tími komi — og sé þegar kominn — að það barnalán þjóðarinnar verði meira metið. — Víða er þess getið í þjóðsögunum okkar, að **beztu börnin** voru höfð út undan. Þjóðin hefir fundið — oftast samt ekki fyr en um seinan — að þörfustu mennirnir voru stundum albogabörn hennar.

Þegar eg hugsa um þetta efni, dettur mér í hug ein setning í sögunni af Gríshildi góðu. Á hana hafði verið lögð sú þraut, að vera í brúðkaupsveizlu, þar sem hennar eiginn maður ætlaði að ganga að eiga aðra konu. Og til þess að storka henni sem mest, var hún látin fylgja brúðhjónunum til svefnherbergis þeirra og halda á ljósinu fyrir þau meðan þau voru að hátta. Hún tók því með þögn og þolinmæði og hélt á kertisskari í hvorri hendinni, eins og henni var boðið,

þangað til það var brunnið niður og fingurnir á henni tóku að sviðna. Þá var haft orð á því við hana, hvort hún brendi sig ekki í fingurna. En hún svaraði: "Sárt brenna fingurnir, en sárara brennur hjartað". — Alþýðurithöfundar okkar, skáld og listamenn hafa oft mátt segja eitthvað svipað þessu. Þeir hafa oft verið sárt leiknir, átt í basli og líkamlegum bágindum. Það er sök sér. En það er annað, sem þeim hefir sviðið sárara; hjörtu þeirra hafa brunnið enn sárara, brunnið af löngun til að gefa þjóð sinni eitthvað af þeim andans auð, sem þeir áttu. Á það hafa þeir lagt mest kapp, og oft gleymt sjálfum sér og sínum þörfum fyrir því. Þeir hafa haldið á ljósinu fyrir okkur og marg-oft ekki hirt um, þó að fingurnir á sjálfum þeim brynnu. Marga nóttina hafa þeir setið andvaka uppi, meðan við sváfum, og verið að velta því fyrir sér, **hvernig** þeir eigi nú að fá okkur til að sjá það, sem þeir sjá, **hvernig** þeir eigi að koma svo orðum að einhverri góðri hugsun, sem fyrir þeim vakir, að menn heyri og skilji, **hvernig** þeir eigi að hefla svo orð sín, að menn megi til að taka eftir þeim, læra þau og muna þau. Mættum við ekki vera slíkum mönnum þakklát, eða, hvað sem nú þakklætinu líður, ættum við ekki að reyna að færa okkur í nyt, það sem þá langar til að vinna okkur til blessunar? Ættum við ekki að **lofa** þeim að halda á ljósinu fyrir okkur, svo að við þurfum ekki að hátta í myrkri, og ganga í myrkri?

En þá þurfum við líka að reyna að venja okkur á dálítið umburðarlyndi og ekki alt of mikið þröngsýni. Hugsjónamenn og skáld eru með því marki brendir, að vera gallagripir, eins og aðrir menn. Og þeim hættir við að segja við og við eitthvað, sem allir fallast ekki á og sumum mislíkar. En við höfum heldur ekki mesta þörf á að láta segja okkur það, sem okkur sjálfum hefir dottið í hug, eða er alveg í samræmi við okkar eigin hugsanir. Andlega lífið verður einmitt svo afskaplega ömurlegt, ef við úthýsum tafarlaust hverri hugsun, sem okkur er ný, og ef við getum ekki haft mætur á nema einni tegund manna, þeim einum, sem steyptir eru í sama mót og við sjálf. Getum við ekki elskað þá báða, Hallgrím Pétursson **og** Þorstein Erlingsson, þótt ólíkir séu, eða Matthías Jochumsson og Gest Pálsson, eða Einar Hjörleifsson og Stephan G. Stephansson, — svo að eg nefni af handahófi einhverja, sem eru gagnólíkir hver öðrum. Enginn er sammála þeim öllum. Þeir koma til okkar sinn úr hverri áttinni með sínar gjafir: Einn sunnan frá "dýrðlegum Kanaans sólvöngum" með boðskap kristindómsins, annar norðan úr einhverju Ginnungagapi með kraft og karlmensku víkinganna fornu. Einn sýnir okkur skuggamyndir úr skúmaskotum hversdagslífsins jarðneska, annar bregður upp fyrir okkur myndum frá Furðuströndum annars heims. Enginn þeirra flytur okkur allan sannleikann, en allir einhver brot af honum. Okkar er: að tína upp brotin og koma þeim saman. Þau hjálpa okkur öll til þess að skilja lífið. Mér finst að eitthvað vantaði í mig, ef eg gæti ekki elskað þá alla. Einn eða tveir eru kanske mesta uppáhaldið, en allir hafa þeir gjafir að gefa, sem auðga andann. Það yrði eyða og tóm eftir

í sálunum, ef við mistum — þó ekki væri nema einn af smærri spámönnunum okkar með öllu því, sem eftir hann liggur.

### Fornsögur.

Þegar talað er um alþýðumentun og þjóðerni Íslendinga, verður ekki hjá því komist að minnast á fornsögurnar. Þær hafa verið mentabrunnur Íslendinga og bezta þjóðernisvörnin á liðnum öldum. Úr þeim brunni hefir þjóðin drukkið sér líf og þrótt; og ekki íslenzka þjóðin ein, heldur norrænu þjóðirnar allar. — Eg las í vetur ræðu, sem Höfða-Andrés, nafnkunnur prestur í Noregi, flutti nýlega um Snorra Sturluson. Þar er sagt meðal annars: "Enginn hefir unnið jafn-mikið að því, að hefja Noreg og auka veg hans, eins og hann (Snorri). Enginn, hvorki á Íslandi né hér (í Noregi), hefir gert Noregi annað eins gagn og hann."

Það er eftirtektarvert fyrir okkur að heyra, hvernig aðrar þjóðir dæma um íslenzkar bókmentir. Þeir fáu menn í öðrum löndum, sem lagt hafa á sig það mikla erfiði, að læra Íslenzku svo, að þeir geti lesið fornrit okkar á frummálinu, þeir eru allir fullir af undrun og aðdáun, og telja þau rit hiklaust með dýrustu perlum í bókmentum heimsins. Eg þyrði ekki að segja þetta eingöngu frá sjálfs mín brjósti, væri hræddur um, að sá dómur kynni að vera vilhallur. En af því að þetta er líka einróma álit þeirra erlendra manna, er til þekkja, þá þori eg að hafa það eftir. Og úr því að **þeim** finst svo til um fornsögurnar — erlendum mönnum, sem aldrei geta lært að lesa íslenzk rit svo, að þau njóti sín til fulls — hvað mundi þá um okkur, sem eigum íslenzku að móðurmáli, ef við hefðum sinnu á að kynnast vandlega okkar eigin bókmentum.

Eg verð að vaða úr einu í annað og fara fljótt yfir; tíminn er naumur.

Við Íslendingar eigum ekki mikið af barnabókum af líku tæi og nú tíðkast með öðrum þjóðum. Þó erum við að hugsa um uppeldi og barnafræðslu, eins og aðrir. Eg hefi þurft talsvert um það að hugsa, hefi bæði alið upp börn sjálfur og haft afskifti af barnafræðslu í mínu héraði. Eg veit, að eg er þar fyrir ekki betur að mér í þeim efnum en hver og einn af ykkur. En eitt langar mig þó til að segja ykkur, sem eg efast um, að þið vitið. Þið vitið sjálfsagt ekki öll, hve ágætt uppeldismeðal við eigum, þar sem fornsögur okkar eru. Eg hefði sjálfsagt ekki trúað því, hefði eg ekki reynt það; eg get því varla búist við, að þið trúið mér, nema þið viljið líka reyna. — Það er ótrúlegt, hver áhrif það hefir á börnin, einkum piltana, þegar þeir fara að lesa Íslendingasögurnar, Noregskonungasögurnar, Fornaldarsögur Norðurlanda, og alt þetta gamla góðgæti. Og þar með mætti gjarnan telja sumt af þeim þjóðsögum og æfintýrum, sem eingöngu hafa geymst í munnmælum fram undir síðasta mannsaldur, en eru nú einnig gefnar út, svo að allir geta lesið. Það er gaman að leiða börn og unglinga inn í þetta forðabúr og benda þeim á það, sem þar er að sjá. Fyrst í stað þarf að leiðbeina þeim, en þegar þau eru komin á lagið, þá lesa þau vanalega af kappi. Og þar með er eins og byrji fyrir þeim nýtt tímabil af æfi þeirra. Hugsunin vaknar og fær annað við-

fangsefni en leikföng, "gamla leggi og völuskrín"; heimurinn verður stærri, færist út fyrir heimilið og sveitina, og út fyrir þeirra eigið land. Þau taka stór-stökk, til andlegs þroska. Þau lifa í sögunum, leika þær á daginn, og þau dreymir um þau á nóttunni. Þá fyrst fara þau að skilja eitthvað í lífinu, fá hugmynd um ýmsar dygðir, svo sem drengskap og sómatilfinningu, sannleiksást og trygð. Og þá fyrst fara þau að læra málið til fullnustu. Áður hafa þau oft ekki þekt nema baðstofuhjal og eldhúsmælgi, en við sögulesturinn fá þau smekk fyrir réttu máli, skýru og kjarnmiklu. — Fornsögulesturinn hefir langtum meiri mentandi áhrif, en margur hyggur. Og því miður er um of slegið slöku við hann á Íslandi. Það er svo margur, sem skilur það ekki, að þessar gömlu skruddur geti haft nokkurt gildi fyrir nútíðarlífið. Og þó er það svo. Þær eru sígild (klassisk) rit. Þær missa aldrei gildi sitt, hvað gamlar sem þær verða, af því að þær eru skrifaðar af viti og snild. Hvort sem þær segja okkur æfisögur konunga eða kotunga, þá gera þær það á þann hátt, að við skiljum mennina, hvatir þeirra og ástríður, skiljum tildrögin að öllum atburðum æfi þeirra, og finnum til með þeim. Með því að segja frá einu stuttu svari, sem einhverjum hafi orðið á munni, er okkur oft sýnt svo djúpt inn í huga hans, að við getum ekki gleymt því, og þekkjum manninn upp frá því. En ekkert er eins mentandi og þekkja og skilja sálarlíf mannanna; og það er alveg sama, hvort maðurinn hefir lifað fyrir 1000 árum eða í gær. Sögurnar okkar eru fullar af slíkum mannlýsingum, sem aldrei fyrnast. — Og eitt hafa þær fram yfir mörg þau listaverk, sem skráð eru nú á dögum. Þær eru svo ljósar og einfaldar, að þær eru við alþýðu hæfi, og meira að segja margt í þeim við barna hæfi.

Í sveitunum heima byrjum við oft að lesa Njálu fyrir börnin, þegar þau eru 6—8 ára. Hann var ekki nema 6 ára, drengurinn, sem sagði við mig á fyrsta ári styrjaldarinnar miklu: "Nú ætti Gunnar á Hlíðarenda að vera á lífi; þá skyldum við senda hann til að skakka leikinn", og lét á sér heyra, að ekki myndi mikið verða úr Vilhjámi keisara eða Hindenburg, ef þeir mættu Gunnari með atgeirinn á lofti. Auðvitað var ekki mikið vit í að segja þetta, og ekki í frásögur færandi; en mér þótti samt vænt um það. Mér fanst hann ekki ólíklegur til þess, þessi hnokki, að vilja einhverntíma leggja lið góðu máli, úr því að hann, 6 ára gamall, gat ekki til þess hugsað, að sitja hjá hlutlaus, þegar stórþjóðirnar voru að berjast. Og mér fanst ekki ólíklegt, að hann mundi síðar, þegar honum yxi fiskur um hrygg, finna kraftinn í sjálfum sér til einhverra drengilegra verka, einmitt fyrir það, að læra svona ungur að elska íslenzku hetjurnar og dást að hreysti þeirra og drengskap, og vita um leið, að hann var sjálfur afkomandi þeirra.

Það er ekki lítils virði, að ungir menn heyri eitthvað, sem hrífur hugann og lyftir honum, eitthvað, sem vekur hjá þeim ást til þess, sem er stórt og göfugt. Geta má nærri, hver vörn það er á móti ýmsu af verra tagi, sem annars myndi læðast inn í hugann á þeim árum.

Roosevelt, Bandaríkjaforseti, gat

þess einhverntíma í ræðu, að það hafi verið Heimskringla Snorra, sem hafi gefið honum dug og framsóknarvilja. Og mér er í minni, að eg heyrði Pál Briem segja á fundi í Reykjavík: Næst biblíunni hafa fornsögurnar íslenzku verið mín **bezta** mentalind." Þau ummæli komu flatt upp á mig. Nú skil eg þau. Eg veit, að nú finnur fjöldi Íslendinga, að hann á þeim sögum ómetanlega mikið að þakka. Og þeir, sem það finna, eru áreiðanlega ekki lakari hluti þjóðarinnar.

**Snjalt tungumál skapar skýr höfuð.**

Sjálfsagt er það málið sjálft, Íslenzkan, sem á nokkurn þátt í því, að gera ljóðin og sögurnar okkar að þeim listaverkum, sem þær eru. Það sópar að Íslenzkunni, þegar hún er komin í tignarskrúðann sinn, t. d. hjá Snorra. Þar er það, hljómfegurðin og aflið, sem setur á hana tignarsvipinn. En okkur finst ef til vill eins mikið til um hana í búningnum hans Jónasar. Þar er það þýðleikinn og lipurðin, sem við dáumst mest að. — En það er ekki eingöngu tign hennar og fegurð, sem okkur má vera dýrmætt, heldur líka **vitið**. Það er ekki jafnmikið vit í öllum tungumálum. Og íslenzkan er óvenjulega viturlegt mál. Mér finst það vera til þess skapað, að kenna mönnum að tala **rétt** og hugsa rétt. Það eitt út af fyrir sig, að kunna vel Íslenzku, er heilmikil mentun, nærri því á við það að hafa lært hugsunarfræði.

Þið vitið, að Latína er enn kend í ýmsum skólum víðsvegar um heim, og er hún þó dautt mál fyrir löngu. Ástæðan til þess, að henni er enn haldið við lýði í "hærri" skólum, er aðallega sú, að latínu-námið þykir svo þroskandi fyrir skynsemi nemendanna. Latínan er svo fullkomið mál. En það þori eg að fullyrða, að Íslenzkan stendur henni ekki að baki að þessu leyti; málið okkar er, engu síður en Latínan, fyrirmyndarmál, sem mikið er af að læra.

Eg held að það sé viðurkent, að íslenzkir unglingar séu yfirleitt betri námsmenn en alment gerist í skólunum um alla Norður-Ameríku. Mig furðar ekki á því, og eg er ekki í vafa um orsökina. Það er móðurmálinu þeirra að þakka. Þeir eru betri námsmenn heldur en þeir mundu vera, ef þeir kynnu ekki nema Enskuna eina. Því að snjalt mál skapar skýr höfuð.

**Íslenzkt þjóðerni vestan hafs.**

Eg veit ekki, nema mér verði brugðið um þjóðernishroka, eins og sumum öðrum, sem mætur hafa á þjóð sinni og tungu. Eg veit ekki, nema ykkur finnist eg hafa minst svo á andlegt líf Íslendinga og bókmentir, sem eg viti ekki, að aðrar þjóðir eiga sér bókmentir og alþýðumentun, og eins og eg viti ekki, að þið, Vestur-Íslendingar, eigið nú aðgang að bókmentum tveggja voldugustu þjóða heimsins. Það er satt; eg læt sem eg viti þetta ekki, það kemur ekki umtalsefni mínu við. Og það er sannfæring mín, að fyrir ykkur öll, sem á Íslandi eruð fædd, eða eigið íslenzka foreldra, fyrir ykkur eru engar þær bókmentir til, sem komið geti **í stað** hinna íslenzku. Víst er það gróði fyrir ykkur, að kunna tvö tungumál, að eiga jafnframt aðgang að bókmentum mikillar þjóðar, sem þið nú eruð orðnir partur af. En eg trúi því ekki, að þið hafið samt efni á að kasta íslenzku

Færi eg þangað framar inn
Findi eg garðinn auðan.
Þeir hafa nú selt mér sinn
Síðsta lagð fyrir dauðann.

Þó hyrfi um stund af hólma þeim
Hlutur gróðavona,
Til eru ótal horn um heim
Hæf að vinna svona."

---

III.

Þyrmdi yfir þjóð um hérað,
Þar var einhver feikn á seiði —
Sem við gól í galdramanni
Gufan upp úr fornu leiði
Virðist rjúka, rísa blána,
Raða sér í mynd ins dána,
Utan af hafi mistur-móða
Mjakast sást inn fjörðinn góða.
Tröllsleg ókind einhver dregin
Yzt á hnjúka báðu-megin.

Stórra-stugga vættir
Stikluðu fjallabrún,
Þögulir sem þokan,
Þungbúnir sem hún.

Inn í alla bæi,
Æsku og kör,
Hristu af hverjum fingri
Helsóttar-ör.
Doði dauðans smó í
Dráps-tóla för.

Landið alt varð leiðum steypt —
Lík-klæði það hafði keypt.

---

IV.

Gagnvart Þúfu, um gnúp og skörð
Göngu sinni önnur vofan léttir.
Þrumaði rödd um þveran fjörð:
"Þúfu höfum skilið ettir!"

"Það er skyn í Þúfu,[3])
Þar komumst ei vér að!"
Heyrðist svar um hérað,
Hátt frá Móðarsfelli,[4])
Yfir grjótið glerað
Gos sem aftur félli —
Bænda-lífi ljúfu
Lifðu fram á elli
Hjúin þar á Þúfu.

Hvar sem fólkið fer
Sveitar-vettvang víðan:
Bæjarnafnið ber
Sögu bóndans síðan.

(1921.)

---

3) Svo sem kunnugt er, gengu fellisóttir yfir Ísland fyr á öldum. Um þær hafa gerst sannar sögur og munnmæli. Líkindlega lætur sú, sem segir frá, að ein drepsóttin hafi borist til Íslands með erlendum dúk eða klæði. Skinþúfa er skagfirzkt bæjarnafn. Því fylgdi sú þjóðsaga, að jafnframt því sem fólk féll í firðinum, hafi drápsenglar tveir sést ganga fjallgarðana, sinn hvorumegin sveitarinnar. Þá hét bærinn aðeins Þúfa. Þegar vofurnar komust þar andspænis, kölluðust þær á milli sín, svipað því sem kveðlingurinn segir. Allir komust af, sem þar áttu heima. Svo var bæjarnafnið lengt, og hann nefndur: Skynþúfa. Líklega leikur æfintýrið sér að orðum, sem nú eru samhljóma: skyn—vit, skin—ljósleiki.

4) Móðar var fjallavættur, bergbúi, sem Bárður Snæfellsás. Hann bjó í Móðarsfelli, annaðhvort Mælifells- eða Valadals-hnjúk. Bezt hefði farið á, í báðum. Slíkur sveitarhöfðingi hefði átt að eiga búin tvö, bæði svo vel valin. Mælifellshnjúkur efst í miðjum firði. Þaðan sést til hafs og heiða og framdala, þar sem leiðir liggja austur um. Valdalshnjúkur við Vatnsskarð. Þar stefna vegir vestur. Sá hnjúkur er tvítindur ("Dímon"?). Í hann er skál, nefnd Nónskál, frá næstu bæjum. Af því hugði alþýða, að hann hefði gosið, en löngu fyrir landnámstíð, eins og Glóðafeykir, nærri andspænis að austan, er fróðir menn álíta að sé útbrunnið eldfjall

**Höf.**

# Herra Karson.

Eftir **J. Magnús Bjarnason.**

———

Ashcroft er smábær í British Columbia og stendur við Kanada-Kyrrahafsjárnbrautina, á syðri bakka Thompsons-fljótsins, réttar 204 mílur enskar frá Vancouverborg, og um eitt þúsund fet fyrir ofan sjávarmál. Bærinn er langur og mjór, og er eins og honum sé smeygt líkt og fleyg inn á milli fljótsins og járnbrautarinnar. Hefir hann margt til síns ágætis, og ekki sízt það, að þaðan koma einhver hin beztu jarðepli, sem til eru í heimi, og draga þau nafn sitt af bænum. Frá Ashcroft liggur akvegurinn, sem er farinn norður til Cariboo og Omineca-gullnámanna. Fara þaðan og koma þangað daglega stórar hesta- og múlasna-lestir, sem flytja ýmsan varning milli þessa bæjar og námanna. Landið umhverfis bæinn er mjög hólótt og þurt, en þó er þar töluverð garðyrkja og kvikfjárrækt.

Haustið 1911 dvaldi eg rúman mánuð í Ashcroft og var íbúatala bæjarins þá um 600 manns. Enginn Íslendingur var þar búsettur um þær mundir, svo eg vissi. En ekki var eg búinn að vera þar marga daga, þegar flestum eða öllum bæjarbúum var orðið kunnugt, hvað eg hét, og hverrar þjóðar maður eg var. Samt hafði eg mjög lítið saman við aðra að sælda þann tíma, sem eg var þar. Eg hélt til í gistihúsi bæjarins og vann þar við ritstörf frá morgni til kvölds alla virka daga, en á sunnudögum gekk eg mér til heilsubótar og afþreyingar um hólana fyrir sunnan bæinn.

Nokkrum dögum áður en verki mínu í Ashcroft var lokið, kom unglingspiltur með bréf til mín frá manni, sem nefndist **William Carson** og átti heima rúmar fjörutíu mílur enskar fyrir norðan bæinn. Var bréfið þess efnis, að herra Carson bað mig að finna sig, áður en eg færi alfarinn frá Ashcroft, og dvelja hjá sér nokkra daga. Kvaðst hann hafa frétt, að eg væri Íslendingur, og langaði sig til að tala við mig um mikilsvarðandi málefni, er snerti Íslending nokkurn, sem væri sér sérlega kær. En sjálfur kvaðst herra Carson ekki geta komið til Ashcroft og fundið mig, sökum þess, að hann hefði nýlega dottið af hestbaki og meitt sig allmikið innvortis. Bað hann mig að senda sér línu með bréfberanum og láta sig vita, hvaða dag hann mætti senda mann og hesta eftir mér.

Eg skrifaði herra Carson nokkrar línur með sendimanninum og gat þess, að eg væri fús á að heimsækja hann, þegar starfi mínu í Ashcroft væri lokið. Tiltók eg þann dag, sem hann mætti senda eftir mér, og hét því, að dvelja hjá honum tvo daga. — En áður en eg skrifaði bréfið, fann eg eiganda gistihússins að máli og spurði hann um þenna William Carson. Sagði hann, að herra Carson væri ríkur hjarðeigandi og mesti ágætismaður,

og væri öllum, sem kyntust honum, sérlega hlýtt til hans, en að hann væri fremur ómannblendinn og fálátur.

Svo kom sá dagur, sem eg hafði til tekið. Kvöldið áður kom sendimaður herra Carsons, og var það sami unglingurinn, sem komið hafði með bréfið. Hann kom ríðandi á brúnum hesti og hafði annan hvítan í taumi. Var mér ætlaður hvíti hesturinn. Hann var einhver hinn ágætasti reiðhestur, sem eg hefi séð, eldfjörugur og úthaldsgóður, en þó þýður og viðráðanlegur.

Við lögðum af stað frá Ashcroft snemma morguns. Þá var skýjað loft og köld gola á norðan. — Það var seint í septembermánuði. Eftir að við vorum komnir yfir brúna á Thompsonsfljótinu, lá leið okkar í fyrstu um ótal gráa, skóglausa hóla og sefivaxnar, djúpar dældir, og var leiðinlegt mjög að fara þann veg. En þegar á leið daginn, fór útsýnið að breytast, og komu nú í ljós smátt og smátt hálsar vaxnir skógi og grösugir dalir, smávötn og lækir og fögur sveitabýli, og sást þar víða "fénaður dreifa sér um græna haga".

Fylgdarmaður minn hét Dominík, af ítölskum ættum. Hann var á átjánda ári, fríður sýnum, heldur smár vexti, en knálegur. Hann talaði mjög fátt við mig, en svaraði þó þýðlega, þegar eg ávarpaði hann. Og hann mælti á góða ensku. Svör hans voru samt mjög stutt og á stundum tvíræð, einkum ef eg spurði hann um herra Carson og heimilis-ástæður hans. "Herra Carcon er stór," sagði Dominík æfinlega, þegar eg nefndi húsbónda hans á nafn. "Er hann þá stór í lund?" spurði eg einu sinni. "Hann er bara stór," svaraði Dominík. "Er hann stór í öllum skilningi?" sagði eg. "Stór!" sagði Dominík. — Og svo kom löng þögn. — Eg spurði hann einu sinni, hvort hann þekti marga Íslendinga. "Eg hefi aldrei séð Íslending," sagði Dominík. "Er þó ekki einhver Íslendingur í nágrenni við þig?" spurði eg. "Enginn," svaraði Dominík. "Þú hefir ef til vill aldrei vitað, að Íslendingar voru til?" sagði eg. "Aldrei," endurtók Dominík. — Nú kom aftur löng þögn. Og eg fór að hugsa margt.

Undir kvöldið komum við niður í fagran dal allstórann, sem lá frá austri til vesturs. Á rann eftir dalnum, og var mikið graslendi báðumegin við hana. Sauðfé, nautgripir og hestar voru á beit þar á grundunum. En í skógarlundi í nyrðri hlíðinni stóð hvítt og reisulegt íbúðarhús úr timbri, og skamt frá því voru nokkur úthýsi, og voru þau öll rauð á lit. Var þetta búgarður herra Carsons og minti mig á hin fornu höfuðból á Íslandi.

Þegar við vorum næstum komnir heim að íbúðarhúsinu, gætti eg að því, að maður stóð við hliðið á girðingunni, sem var í kringum húsið, og hélt hann á sjónauka í vinstri hendinni. Maður þessi var á að gizka um fimtugt. Hann var í hærra lagi meðalmaður á vöxt og kraftalegur, dökkur á brún og brá og alskeggjaður. Andlitið lýsti óbifanlegri staðfestu og einbeitni og sýndi, að hann var vel til foringja fallinn. Augun voru þó fremur daufleg, eins og hann hefði vakað nóttina áður, eða væri við öl, en þau báru samt vott um það, að maðurinn væri hygginn vel og athugull með afbrigðum og sérlega dulur. Hann var

þokkalega til fara og hafði vafið um sig skozkum trefli. — Og þetta var herra Carson.

Um leið og eg steig af baki, kom hann til mín, tók mjög vingjarnlega í hönd mína og bauð mig velkominn. Fylgdi hann mér strax inn í húsið, en Dominík fór burtu með hestana, eftir að hafa fengið húsbónda sínum dálítinn blaðaböggul.

Eg dvaldi á búgarði herra Carsons í tvo daga og þrjár nætur í bezta yfirlæti. Var farið með mig eins og eg væri stórhöfðingi og aldavinur húsbóndans, og var ekkert til sparað að láta mér líða sem allra bezt. Eg tók strax eftir því, að flest-alt vinnufólk herra Carsons var af Indíána-ættum. Aðeins einn vinnumaður var hvítur, og það var Dominík; og svo sá eg þar tvær hvítar konur — var önnur fremur ung, en hin nokkuð roskin — og voru þær báðar af ítölsku bergi brotnar, að líkindum móðir og systir Domíníks.

Fyrsta kvöldið, sem eg var þarna, talaði herra Carson við mig um ýmislegt, en mintist ekkert á Íslendinginn, sem hann hafði getið um í bréfinu, enda vorum við aldrei eitt augnablik einir það kvöld, því að húsið var fult af gestum. Nokkrir voru fyrir, þegar eg kom, og tveir eða þrír komu síðar um kvöldið og voru þar nætursakir. Og alt voru það málmnemar og hjarðmenn — sumir þeirra verulega ískyggilegir — og allir virtust þeir eiga brýnt erindi við herra Carson. — Daginn eftir að eg kom, bar enn tvo gesti þar að garði; voru það lang-ferðamenn og sátu á tali við herra Carson langt fram á nótt. Næsta dag þar á eftir reið hann með þeim spölkorn suður á hálsana, og lagði sig svo fyrir, þegar hann kom heim aftur, og svaf alt til sólarlags. En þegar kvöldverði var lokið (það kvöld), bauð hann mér inn í dálitla stofu, sem var áföst við svefnherbergið hans, vísaði mér til sætis í mjúkum hægindastól, settist svo gagnvart mér og rétti mér Havana vindil af beztu tegund.

"Þá loksins fæ eg nú næði til að tala við þig," sagði herra Carson, og það var skozkur hreimur í málróm hans. "Eg hefi verið svo önnum kafinn síðan þú komst hingað, að eg hefi ekki haft tíma til að bjóða þér vindil, hvað þá meira."

"Það hefir verið gestkvæmt hér þessa daga," sagði eg.

"Já, það berast hingað ávalt margir gestir með jafndægrastraumunum," sagði herra Carson. "Hús mitt er í þjóðbraut, og þess vegna koma hingað fleiri en boðnir eru. Og maður verður æfinlega að sinna óboðnu gestunum fyrst." Hann kveykti í vindli, hallaði sér aftur á bak í stólnum og horfði á mig.

"Herra Carson," sagði eg, "hvernig fékstu að vita, að eg er Íslendingur?"

"Einn vina minna í Ashcroft komst að því á einhvern hátt og lét mig vita það," svaraði herra Carson.

"Þú mintist á Íslending í bréfinu," sagði eg eftir stundarþögn.

"Já," sagði herra Carson og blés frá sér tóbaksreyknum með mestu rósemi. "Og eg þarf endilega að segja þér nokkuð honum viðvíkjandi."

"Er það alvarlegt málefni?" spurði eg.

"Ef til vill ekki svo mjög alvarlegt,

en það er næsta fáheyrt og þess vegna sérlega ótrúlegt.

"Væri þá ekki betra, að þú segðir mér ekkert um það?" sagði eg og reyndi til að brosa.

"Eg þarf endilega að tala um það við einhvern Íslending," sagði herra Carson stillilega. "Og þess vegna sendi eg eftir þér, að eg vildi segja þér frá því. Jafnvel **allir** Íslendingar ættu að vita, hvað komið hefir fyrir einn samlanda þeirra hér í fjöllunum."

"Þekkir þú hann vel?"

"Eins og sjálfan mig. Hann er hjartfólginn vinur minn."

"Hvað heitir hann?"

"Hann **hét** John Johnson.

"Er hann dáinn?"

Nei. En hann hefir breytt um nafn. Hann hefir ef til vill ekki heitið John Johnson á íslenzku. Það hefir að líkindum verið nafn hans í enskri þýðingu. En um það get eg ekki borið."

"Er hann búinn að vera lengi í þessu landi?"

"Hann var kominn hingað til Canada sumarið 1885, og er mjög sennilegt, að hann hafi fluzt frá Íslandi þá um vorið. Hann var kominn vestur í Klettafjöll í byrjun ágústmánaðar það ár og farinn að vinna við járnbrautina. Hann kunni þá, svo að segja ekkert í ensku, og það var enginn Íslendingur með honum. Hann var í íslenzkum ullarfötum, var á að gizka rúmlega tvítugur og nefndi sig John Johnson."

"En hvar er hann nú?" sagði eg.

"Það skal eg segja þér, þegar eg er búinn að láta þig vita, hvað það var, sem fyrir hann kom."

"Eins og eg sagði rétt núna," mælti herra Carson, "þá kom þessi ungi Íslendingur hingað vestur í fjöllin sumarið 1885, og var einn síns liðs. Hann vann um hríð við járnbrautina í Fraserár-gilinu, og nefndist John Johnson. Voru flestir samverkamenn hans ítalskir og enginn Íslendingur í þeim hóp nema hann einn. — Verkstjórinn hét Flanigan, af írskum ættum, vinnuharður og stórorður, en góður drengur í aðra röndina. Var Flanigan í fyrstu all-óþjáll og harðorður við Íslendinginn, en varð honum eins og bezti faðir, þegar fram liðu stundir. — En svo varð líka Íslendingurinn fyrir slysi tveimur vikum eftir að hann kom þangað, og Flanigan kendi sér um það, þó það raunar væri honum ekkert að kenna."

Herra Carson þagði dálitla stund, saug vindilinn ákaflega og blés svo reyknum út úr sér með allra mestu hægð.

"Nei, það var Flanigan alls ekki að kenna," sagði hann alt í einu, eins og hann vaknaði af draumi.

"Hvað kom fyrir piltinn?" sagði eg.

"Hann **hrapaði** — hrapaði í Fraserár-gilinu."

"Beinbrotnaði hann?" spurði eg.

"Nei, hann beinbrotnaði ekki. Byltan var ekki mikil. Hann datt fram af klettastalli, sem var aðeins sex fet á hæð."

"Hvað var undir?"

"**Möl**," sagði herra Carson. "Bara smá-möl og sandur. Og það brotnaði ekkert bein í hinum unga Íslending. Hann skaddaðist ekkert útvortis, svo sjáanlegt væri. Það var ekki einu sinni rispa á höndum hans eða andliti, og hann fékk jafnvel ekki blóðnasir."

"Hann hefir þá kostast innvortis?" sagði eg.

"Nei, hann virtist heldur ekki hafa kostast neitt innvortis. En það leið yfir hann, og hann lá lengi í öngviti."

"En fann hann ekki til einhvers sársauka, þegar hann raknaði við?" sagði eg.

"Hann virtist engar þrautir hafa, þegar hann raknaði við úr öngvitinu. En hann var um tíma á eftir máttminni en áður."

"Þetta slys hefir þá ekki verið svo mjög alvarlegt," sagði eg.

"Það er nú eftir því, sem hver vill um það dæma," sagði herra Carson og hnyklaði brýrnar ofurlítið. "En mitt álit er það, að fáir hafi orðið fyrir svo alvarlegu slysi, sem þessi Íslendingur, er hrapaði í Fraserár-gilinu haustið 1885."

"En hvernig gat þetta slys verið svo alvarlegt, fyrst hann meiddist ekkert?" sagði eg og leit stórum augum á herra Carson.

"Afleiðingar þess voru mjög alvarlegar," sagði herra Carson. "Þær voru **svo** alvarlegar að þessi samlandi þinn hefir enn ekki beðið þess bætur. Og hann gamli Flanigan — verkstjórinn — kendi sér um þetta slys, og hefir nagað sig í handarbökin fyrir það, alt fram á þenna dag."

"Hratt nokkur piltinum fram af kletta-snösinni?" spurði eg.

"Nei. Hann stóð **aleinn** á kletta-stallinum, þegar hann hrapaði. Og enginn hefir enn hina allra minstu hugmynd um það, af hverju hann datt fram af brúninni. En gamli Flanigan sór og sárt við lagði, að það hefði verið sér að kenna, og þó var hann um hundrað faðma frá kletta-stallinum, þegar pilturinn hrapaði."

"Hefir þá þessi Íslendingur verið heilsulaus síðan?"

"Þvert á móti. Hann hefir altaf verið stálhraustur, og var um mörg ár málmnemi — fór til Karibou og Klondyke — og stóðst allar eldraunir gullnemanna, án þess að verða nokkru sinni misdægurt."

"Hvaða tjón beið þá pilturinn við það, að hrapa í gilinu, fyrst hann misti ekki heilsuna né meiddist á minsta hátt?"

"Hann misti samt mikið."

"Misti hann atvinnuna? Eða hvað?"

"Hann misti það, sem var ennþá dýrmætara en atvinna við járnbraut."

"Einmitt það!" sagði eg. "Vissulega varðar mig ekkert um að vita það og vil eg biðja þig, herra Carson, að fyrirgefa mér, hvað eg er spurull og forvitinn."

"Þú þarft ekki að biðja mig fyrirgefningar," sagði herra Carson. "Eg vil út af lífinu að þú spyrjir mig sem allra mest um þetta, því að eg sendi eftir þér til þess að þú fengir að vita, hvað fyrir þenna landa þinn kom. Mín er þægðin að þú fáir rétta hugmynd um málið. En eg get ekki sagt þér neitt greinilegt um það nema þú spyrjir mig. — Eg hefi þegar sagt þér, hvaða ár pilturinn kom hingað í fjöllin, hvað hann nefndi sig, þegar hann kom hingað, hvað húsbóndi hans hét, hverjir samverkamenn hans voru, hvar hann stóð, þegar hann hrapaði, og hvað mörg fet hann datt. Og eg hefi tekið það fram, að hann hafi ekki kostast neitt innvortis, né beinbrotnað, né marist, né orðið sár á minsta hátt. Og eg hefi líka staðhæft það,

að hann hafi þrátt fyrir alt þetta beðið svo mikið tjón við það, að hrapa, að hann bíði þess aldrei bætur. Hann misti sem sé svo undur mikið."

"Og má eg þá vita, hvað það var?" sagði eg.

"Já, það er einmitt það, sem eg vil að þú vitir," sagði herra Carson og saug vindilinn með áfergju. "Eg vildi, að **allir** Íslendingar vissu það. Eg vildi feginn eyða því, sem eftir er æfi minnar, til þess að segja Íslendingum frá því. Eg mun aldrei þreytast á því, að tala um það. Eg gæti ritað um það stóra bók, og vildi vinna til að láta prenta hana á minn eigin kostnað, og vildi jafnvel kaupa menn til að útbýta henni gefins á meðal Íslendinga bæði hér í álfu og á Íslandi. — Málefnið er svo mikilsvert, því að pilturinn misti svo ósegjanlega mikinn og dýrmætan **hlut**."

"Og hvað var það þá, sem hann misti?" sagði eg.

"Hvað hann misti! — Þú spyr, hvað hann hafi mist. Eg skal segja þér það, því eg hefi sent eftir þér einmitt til þess, að láta þig vita, hvað hann hefir mist. — Taktu nú eftir og gleymdu því aldrei. — **Hann misti minnið!**"

"Misti hann **minnið?**" sagði eg.

"Já, hann misti minnið. Því að þegar hann hrapaði í gilinu, þá lá hann í öngviti um stund, og þá er hann raknaði við aftur, mundi hann ekki eftir neinu, sem áður hafði komið fram við hann. Hann mundi ekki, hverrar þjóðar hann var, hann mundi ekki, hvað hann hét eða hvaðan hann kom, eða hvað gamall hann var. Hann hafði gleymt æskustöðvum sínum og æskuvinum, föður og móður, og móðurmáli sínu, og jafnvel hinni **drottinlegu bæn.** Fortíðin var tómt myrkur fyrir hugskotssjónum hans — tómt myrkur og óskapnaður. Og það átakanlegasta við það var það, að enginn maður vissi, hvað hann hafði mist; jafnvel hann sjálfur hafði ekki minstu hugmynd um það. — Enginn tók eftir því, þegar hann raknaði úr öngvitinu, að hann var búinn að gleyma þeim fáu ensku orðum, sem hann hafði lært áður en hann hrapaði. Og enginn tók eftir því fyr en mörgum mánuðum síðar, að hann skrifaði aldrei bréf, og að hann fékk aldrei bréf, og að hann mintist aldrei á þjóð sína og föðurland, og að hann lét aldrei í ljós minstu löngun til þess, að breyta um atvinnu, eða yfirgefa Flanigan og Ítalana hans. — En hann lærði mjög fljótt að mæla á enska tungu. Hann þótti góður verkmaður. Og öllum var vel til hans. — Og svo var það einn dag, hér um bil níu mánuðum eftir að slysið vildi til, að Flanigan — verkstjórinn — komst að því, að pilturinn var ekki með sjálfum sér, og að hann hafði gleymt fyrri æfi sinni. Þá fór hann með piltinn austur til Winnipeg. Þar fundu þeir Íslendinga. En enginn þeirra kannaðist neitt við hinn unga mann; og ekki skildi hann eitt orð af því, sem þeir töluðu á sínu máli. Þeir sögðu samt, að föt þau, er hann var í, væru úr íslenzkum vefnaði. Og hann hafði smákver eitt, sem þeir sögðu að væri á íslenzku. — Þar næst fór Flanigan með piltinn suður í Bandaríki og fann þar lækni nokkurn, sem hafði mikið orð á sér. Skoðaði læknir þessi piltinn og sagði að það, sem að honum gengi, væri minnisbilun (amnesia) og mundi vera ólæknandi; en þó gæti

það farið svo, að yrði pilturinn einhverntíma fyrir líku slysi og haustið 1885, að hann þá alt í einu myndi það, sem hann væri nú búinn að gleyma; en þá að líkindum mundi hann gleyma öllu, sem hann vissi nú, og væri hann þá alveg eins illa staddur — ef ekki ver. — Hurfu þeir Flanigan vestur aftur til fjallanna. Unnu þeir um hríð við járnbrautina, en fóru svo í gull-leit norður í fjöllin í British Columbia, og síðar til Klondyke. Og seinast settust þeir að hér í dölunum. — Og altaf er Íslendingurinn eins, hvað minni hans snertir. En þó eru tvær myndir við og við að gera vart við sig í huga hans. Það eru tvær kvenmannsmyndir. Er önnur af roskinni konu, en hin er af stúlku um tvítugt. Og í hvert sinn, sem myndir þessar koma fram í huga hans, verður hann sérlega hnugginn og órólegur. Hann fyllist þá einhverri brennandi þrá, en getur þó ekki gert sér grein fyrir því, í hverju sú þrá er fólgin. — Nú í mörg ár hefir hann reynt til að komast að því, hvort nokkur ungur Íslendingur hafi horfið skyndilega árið 1885, en enginn, hvorki á Íslandi né í Ameríku, hefir getað gefið neinar upplýsingar því viðvíkjandi. — Og svo er saga þessi á enda."

"Og hvar býr þessi Íslendingur nú?" sagði eg.

"Hann býr hér."

"Á hann þá heima í þessu húsi?"

"Hann er eigandi þessa húss," svaraði herra Carson; "því að **eg** er þessi Íslendingur, sem eg hefi verið að segja þér frá — **eg** er þessi ógæfusami Íslendingur, sem rataði í það fáheyrða æfintýri, að gleyma og glata með öllu um tuttugu árum af æfi minni."

"En þú sagðir, að Íslendingurinn hefði nefnt sig John Johnson."

"Já, svo er mér sagt," sagði herra Carson; "en nokkru eftir að eg raknaði úr öngvitinu, þá fanst mér eg heita **Carson** eða **Karson**, og eg hefi gengið undir því nafni síðan.

Við þögðum báðir nokkra stund.

"Áttu ennþá íslenzku fötin og bókina," sagði eg.

"Nei. Eg tapaði þeim norður í Klondyke, þegar kofinn minn brann."

Og herra Carson hnyklaði brýrnar allmikið, þegar hann sagði þetta. Hann gekk um gólf nokkra stund þegjandi, en nam svo alt í einu staðar fyrir framan mig og sagði:

"Þú efar, að saga mín sé rétt og sönn."

Hann sagði þetta nokkuð hranalega.

"Eg á ekkert bágt með að trúa sögu þinni," svaraði eg; "en mér sýnist þú ekkert líkur Íslendingum. Þú ert líkari Spánverjum eða Frökkum, og það er skozkur hreimur í framburði þínum."

"Eg hefi heyrt þetta fyr," sagði herra Carson, "og það má vel vera, að eg sé Spánverji, eða Frakki eða Skoti. En mér er sagt, að eg hafi verið Íslendingur, eða að eg hafi sagt að eg væri Íslendingur, áður en eg hrapaði í gilinu. Og mér stendur hjartanlega á sama, hverrar þjóðar eg er, en það eru myndirnar af þessum konum, er aldrei hverfa með öllu úr huga mínum, sem mig langar svo mjög til að skýrist. Þessar myndir standa mér ávalt fyrir hugskotssjónum, eins og í hálf-rökkri og vilja ekki skýrast. Og innri maður minn er alla tíð að þreyta við að koma því fyrir sig, hverjar þær séu, þessar konur, sem hann veit, að

hann hefir þekt og unnað, en man ekki, hvar og hvenær."

"Ef til vill móðir þín og systir," sagði eg.

"Eða móðir mín og **unnusta** mín," sagði herra Carson. En myndirnar skýrast ekki, hvernig sem eg fer að; þær eru altaf í móðu, eða eins og eg sjái þær í gegnum þunna blæju; og mér finst að alt muni skýrast, og að eg muni kannast við alt, ef þessi móða liði burtu og blæjan væri dregin frá. — Eg hefi lagt fram alla mína sálarkrafta margar klukkustundir í senn, dag eftir dag og nótt eftir nótt, nú í næstum tuttugu og fimm ár, til þess að reyna að leysa þessa ráðgátu, en alveg árangurslaust. Myndirnar skýrast ekki, og innri maður minn er að missa krafta smátt og smátt."

Herra Carson settist gagnvart mér, og eg sá að sviti hafði sprottið út á enni hans.

"Nú skal eg segja þér, til hvers eg eiginlega vildi fá þig hingað til mín," sagði hann eftir að hafa horft á mig nokkur augnablik. "Mig langar sem sé til að biðja þig, að láta mig heyra eitthvað á **íslenzku:** Kvæði eða sögu, eða sálm, eða eitthvað; það gerir lítið til, hvað það er, bara að það sé **íslenzka** — rétt til að vita, hvort eg kannast ekki við eitthvað, ef ske kynni, að orð eða setning gæti brugðið ljósi yfir **myndirnar** mínar — svo **minnið** vaknaði, og **eg gæti komist heim heill á húfi.**"

"Já velkomið!" sagði eg.

"Gerðu þá svo vel að byrja nú strax." Og herra Carson kveykti í öðrum vindli og hallaði sér aftur á bak í stólnum.

Eg tók nú til máls á íslenzku og talaði eins skýrt og skilmerkilega og eg gat. Fór með alt, sem eg kunni utanbókar af því, sem unglingar á Íslandi alment lærðu, þegar eg var að alast upp. Eg fór með vögguljóð, þulur, gátur, kvöldljóð, morgunljóð, sálma og bænir; eg þuldi nöfn á öllum hugsanlegum hlutum og dýrum og fuglum, bæjum og sveitum, ám og fjöllum, fjörðum og ann-nesjum, mönnum og konum. Og eg fór svo langt, að eg kvað við raust nokkrar vísur undir mismunandi bragarháttum. En alt kom það fyrir ekki. Herra Carson virtist ekki skilja eitt einasta orð í íslenzku. Hann sat og reykti, hvern vindilinn á fætur öðrum, og tók aldrei fram í fyrir mér, fyr en klukkan sló tólf um nóttina. Þá bað hann mig að fyrirgefa, að hann yrði að fara frá mér. Bauð hann mér því næst góða nótt og gekk inn í næsta herbergi.

Næsta morgun, þegar eg var ferðbúinn, kom herra Carson til mín og fylgdi mér fram á veginn. Þar kvaddi hann mig alúðlega, þakkaði mér fyrir að heimsækja sig, rétti mér dálítinn hlut, sem bréfi var vafið um, og bað mig að þiggja hann sem litla vinargjöf. Það var gullkúla á stærð við andar-egg. Og þá eg það með þökkum.

Dominík fylgdi mér alla leið til Ashcroft. Og hefi eg aldrei síðan séð hann né húsbónda hans.



# Stefnur og straumar

## í íslenzkum stjórnmálum.

### Með eftirmála um rafmagnsnotkun og landbúnað á Íslandi.

Eftir **Jón Jónsson frá Sleðbrjót.**

---

Þessi smágrein er skrifuð aðeins til þess að reyna að vekja umhugsun og eftirtekt hjá Vestur-Íslendingum um stjórnmálahorfur á Íslandi, og straumbreytingar í stjórnmálalífinu þar.

Eg hefi oft veitt því eftirtekt, hve margir það eru hér sem lítt fylgja með því er gerist í stjórnmálum heima á Íslandi, og er það eðlilegt því þeir eru tiltölulega fáir sem kaupa íslenzk blöð sem gefin eru út heima á Íslandi, og íslenzku blöðin hér vestra flytja fremur sjaldan nokkurt heildar yfirlit um það er gerist í stjórnmálum heima.

Þegar ritstjóri Tímarits Þjóðræknisfélags Vestur-Íslendinga mæltist til þess að eg skrifaði eitthvað handa Tímaritinu, þá kom okkur saman um að eg reyndi að skrifa um þetta efni. Mér varð það að lofa því, þó löng fjarvera frá föðurlandi mínu, og skortur heimildarrita hamli mér frá að leysa þetta af hendi, eins og eg vildi, og vera ætti. En ef eg missegi eitthvað af vanþekkingu, þá vænti eg þess að landar mínir austan hafs og vestan, leiðrétti góðfúslega það er missagt kynni að vera, en yrði það þá til þess að skýra málið, og vekja eftirtekt á íslenzkri stjórnmálastarfsemi, þá er tilganginum náð.

Margir hinna eldri Vestur-Íslendinga, sem fóru fullorðnir að heiman, og sumir hnignir á efra aldur, muna það eflaust, að lengi eftir að Alþingi var endurreist, var ekki um neina flokkaskipun að tala, er kosningum réði, nema konungkjörna og þjóðkjörna flokkinn. Stóðu þá ætíð hinir konungkjörnu sér í flokki, og ef til vill einstöku þjóðkjörnir þingmenn er slæddust með þeim. Og eftir að "stjórnarbótarbaráttan" byrjaði sem telja mun mega 1849, var það stjórnarskrármálið sem flokkaskipunin var bygð á, aðallega, og fylgdust, þeir er þjóðkjörna flokkinn fyltu einnig að málum í öllum öðrum efnum, sem á einhvern hátt snertu íslenzk þjóðréttindi. Á þeim árum stýrði hinn ógleymanlegi foringi Íslendinga Jón Sigurðsson, þjóðkjörna flokknum, með þeirri snild, staðfestu og skörungsskap sem öllum er kunnugt; var hann jafnan á verði fyrir þjóðarinnar hönd, ekki einungis í stjórnarbótarmálinu, heldur einnig í öllum öðrum málum sem lutu að frelsi og sérréttindum íslenzku þjóðarinnar, er hann í því sem öðru fyrirmynd íslenzkra stjórnmálamanna, að vera jafnan á verði um það, að láta ekki erlend öfl komast nokkra krókavegi að því að skerða þjóðréttindi Íslendinga; væri vel ef íslenzkir stjórnmálamenn hefðu þetta hugfast, þó fullveldið sé fengið "að lögum". Það var ætíð fast og gott skipulag á þjóðstjórnarflokknum meðan Jón Sig-

urðsson hélt þar um stjórnvölinn, og ef þjóðkjörinn þingmaður brást trausti flokksins, þá átti hann oftast örðugt með að ná kosningu aftur. Konungkjörni flokkurinn var líka fastur í rásinni, og það var fátítt að konungkjörinn þingmaður gæfi atkvæði á móti því er stjórnin danska vildi vera láta. Fyrsta dæmi þess mun hafa verið er hinn göfugi höfðingi séra Halldór Jónsson (þá prestur og prófastur í Glaumbæ, síðar á Hofi í Vopnafirði) stóð upp með þjóðkjörnu þingmönnunum á þjóðfundinum 1851, er þeir tóku undir með Jóni Sigurðssyni og hrópuðu: "Vér mótmælum allir"! Stjórnin tók svo hart á þessari framkomu séra Halldórs, að hún svifti hann ekki einungis þingmensku, heldur ætlaði einnig að víkja honum frá prestsembættinu. En Monrad biskup, sem þá var kenslumálaráðherra Dana, kom í veg fyrir það gerræði; var sagt hann hefði svo um mælt, að séra Halldór gæti verið góður prestur þó hann dygði ekki til að vera konungkjörinn þingmaður. Síðar á þinginu 1886, gaf Hallgrímur biskup Sveinsson, systursonur séra Halldórs, atkvæði með þjóðkjörnum þingmönnum í stjórnarskrármálinu, og var hann þá ekki skipaður konungkjörinn þingmaður næst. En báðir náðu þessir menn er stjórnin útskúfaði, kosningu síðar sem þjóðkjörnir þingmenn og voru báðir sæmdir þeim heiðri að vera forsetar alþingis. Í ýmsum algengum efnum ætla eg að Kristján Jónsson, sem nú er æðsti dómari Íslands veitti þeim þjóðkjörnu að málum, t. d. í málinu um stofnun lagaskóla og búsetu fastakaupmanna. En á því tók stjórnin ekki eins hart, eins og ef um stjórnarskrármálið var að ræða, enda mun hún fremur hafa dignað með að beita þannig lagaðri kúgunaraðferð, er fram í sótti, heldur en á þjóðfundinum 1851, því þá mun hún hafa ætlað að hún gæti kyrkt í fæðingunni þessa þjóðernis og sjálfstæðisþrá sem vöknuð var á Íslandi. En mist vonina um það er fram í sótti.

Þessi flokkaskipun hélzt óbreytt öll ráðgjafaþingin fram að 1874, þegar réttur þjóðarinnar var viðurkendur þannig, að Ísland væri "óaðskiljanlegur hluti Danaveldis, með sérstökum landsréttindum," og þingið fékk löggjafarvald, og fjárumráð. Jafnvel mál eins og fjárkláðamálið, sem vakti svo miklar æsingar um nokkurn hluta landsins, hafði engin áhrif á flokkaskipunina né kosningar. Það var stjórnarskrármálið sem flokkum og kosningum réði; þó var flokkurinn þjóðkjörni nokkuð lausari í sér á því tímabili, og greindi mjög á um baráttu aðferðina í stjórnarbaráttunni, þó allir vildu stefna að því sama; hefir sá er þetta ritar í stuttu máli vikið að því í ritgerð um "Ísland fullvalda ríki" í 1. árg. þessa tímarits, og skal það ekki endurtekið hér. Um alt þetta tímabil var það aðallega stjórnarskrármálið, baráttan um það við Dani, sem flokkaskipun og kosningum réði, og þeir höfðu jafnaðarlega beztan byr við kosningar, sem lengst gengu í þjóðréttindakröfunni, og bezt þóttu fylgja stefnu Jóns Sigurðssonar. Innlendu málin réðu ekki flokkaskipun eða kosningum, þótt á því tímabili væru ýms stórmál til meðferðar, t. d. samgöngumál, stofnun banka, skólamál o. fl.

Það var styrkur Íslendinga í bar-

áttunni við Dani hvað föst og ákveðin flokkaskipun var í þjóðréttindamálinu. En veikjandi áhrif hafði það á framkvæmdir í innlendum málum. Allur áhugi hinna leiðandi manna snerist mest um stjórnarbótamálið. Nokkur hluti þjóðarinnar, var farinn að þreytast í stjórnarskrárbaráttunni, fanst of miklu afli eytt í hana, og oflítlu í framkvæmdir innanlands, og heyrðist oft á þeim árum talað um "visnunar pólitík", alt lenti í að rífast um þetta "stjórnarskrármál"; var það einkum meðan Nellemann sat að völdum í Danmörku og beitti hlífðarlítið valdi sínu til að synja lögum þeim staðfestingar er Alþingi hafði samþykt, enda var það skoðun margra að þessi harðráði og stjórnkæni þjóðmálamaður Dana hefði beitt lagasynjunum, til þess að þreyta íslenzku þjóðina í stjórnarbaráttunni, fremur en af því hann áliti hættu stafa af ýmsum þeim lögum er hann synjaði staðfestingar, og sumum fanst hann stundum staðfesta lög sem voru almenningi til ógagns, og heftu frelsi manna, eins og margir litu þá á í hverju frelsi væri fólgið. T. d. man eg glögt hve margir álitu það ófrelsi er þingið samþykti og Nellemann staðfesti lögin um friðun fugla og hreindýra. Fjöldi manna kunni ekki að meta tilgang slíkra laga. Var það eflaust mælt fyrir munn margra, er Páll Ólafsson kvað í kýmniskvæði um íslenzka stjórnmálastarfsemi:

"Löggjafir sem færa fjær
frelsi og matbjörg aumingjans;
Aldrei vantar undir þær
undirskriftir Nellemanns."

En sem betur fór hélt víðsýnari hluti þjóðarinnar altaf stefnunni í þjóðréttindamálinu og fylgdi trúlega hinu síðasta ráði síns ástsæla leiðtoga, Jóns Sigurðssonar, er hann gaf íslenzku þjóðinni um leið og hann kvaddi hana í síðasta sinn: "Að halda horfi meðan rétt stefnir". Og eftir því sem innanlandsframkvæmdir fóru vaxandi, og ýms lög, sem studdu að þeim, voru samþykt af þinginu, þá þögnuðu þessar raddir um "visnunar pólitík"; og eftir því sem þroskinn fór vaxandi í innanlandsframkvæmdum, jókst að sama skapi áhugi hjá þjóðinni að keppa að því, að verða frjáls þjóð.

Eftir að stjórnin færðist inn í landið 1904, þá hélzt flokkaskiftingin enn hin sama. En nú var það ekki einungis umbætur á stjórnarskránni um hin sérstöku mál Íslands, sem um var barist, þá var það ríkisréttarlegt samband Íslands og Danmerkur, sem var þrætueplið, sem endaði með því, að Danir viðurkendu Ísland sem fullvalda ríki með sambandslögunum 1. des 1918. Á þessu tímabili var háð með miklum hita baráttan fyrir frelsi Íslands og lausn þess frá því að vera "óaðskiljanlegur hluti Danaveldis", og þótt mörg og stór innanlandsmál væru þá til umræðu og úrslita, þá var það sambandsmálið, sem réði í kosningum og flokkaskipun. Á því tímabili komust í framkvæmd mörg þýðingarmikil hagsmunamál, svo sem ritsíma- og talsímalagningin, aukin peningavelta í landinu, fyrir aflmeira banka-fyrirkomulag. Jókst á þeim árum að miklum mun þjóðarauður Íslendinga, og annar atvinnuvegur þjóðarinnar, sjávarútvegurinn, tók þá svo miklum framförum, að hann þolir samanburð og samkepni við samkyns atvinnuvegi annara þjóða. Og við þessa efnalegu

og verklegu framför jókst þjóðinni sjálfstraust og afl til að fylgja fram þjóðréttindamáli sínu, og vinna sigur í því.

En svo var flokksfestan í baráttunni við Dani orðin rótgróin í meðvitund þjóðarinnar, að þegar stjórnfrelsisbaráttunni er nú lokið, þá haldast enn við sömu flokksnöfnin, og ráða úrslitum í kosningum víðast, þótt þessir flokkar væru aðallega grundvallaðir á baráttunni við danska valdið um rétt Íslands til að verða fullráðandi allra sinna mála, og sem var á enda kljáð um sinn með Sambandslögunum 1. des. 1918. Bæði í aðalkosningunum, sem fóru fram eftir að sambandslögin komust í gildi, og aukakosningunni í Reykjavík í vetur sem leið, þegar fjölgað var þar þingmönnum, var kosningastríðið háð undir nafni hinna gömlu stjórnarbaráttuflokka, Heima- Langsum- og Þversumflokks, sem var reykvíkst uppnefni á tveimur greinum sjálfstæðisflokksins, er hann klofnaði um fylgi við Einar Arnórsson ráðherra. Þetta er stjórnmálalegur ruglingur, að byggja flokkaskipun á framkvæmdum í máli, sem nú er úr sögunni. Flokksskipun þarf að vera grundvölluð á því máli, eða þeim málum, sem eru "brennandi spursmál" hjá þjóðinni á yfirstandandi tíma; þau ein mál geta áunnið sér svo mikið fylgi hjá þjóðinni, að hægt er að nota þau sem grundvöll undir staðgóða og holla flokkaskipun. Nú er ekki verið að berjast fyrir auknum ríkisrétti Íslands út á við, um þann tíma, er sambandslögin hafa ákveðið gildi. Og vonandi verður það ekki flokksmál, heldur allsherjarmál allra flokka, að gæta þess, að ekki sé skerður sá réttur, er sambandslögin veita Íslendingum gagnvart erlendu valdi.

Nú er baráttan um það, á hvern hátt þjóðin geti náð sem fylstum þroska og orðið sjálfstæð og framkvæmdarsöm þjóð í viðskiftamálum, fjármálum og atvinnumálum. Það hlutverk, sem nú liggur fyrir íslenzku þjóðinni, er enginn barnaleikur, nú á þessum tímum, þegar afleiðingar heimsstyrjaldarinnar miklu hafa gripið heiminn þeim heljartökum, að gömul og rótgróin sjálfstjórnarríki hafa fult í fangi með að halda sjálfstæði sínu í fjármálum, viðskiftamálum og atvinnurekstri. Það er eflaust mikill meiri hluti íslenzku þjóðarinnar, hvaða flokki sem hann tilheyrir, sem finnur það, að íslenzka þjóðin þarf, um leið og hún er ríkisréttarlega sjálfstæð þjóð að byrja framfarabaráttu sína eins og ný þjóð; og sú hugsun þarf að rótfestast hjá hverjum einstaklingi þjóðarinnar, því löggjöf og stjórnarframkvæmdir og einstaklingsframkvæmdir, þarf alt að vera í samvinnu, er lyfta skal þjóðinni á hærra stig á öllum sviðum þjóðlífsins. Íslenzka þjóðin þarf að breyta búnaðarháttum, viðskiftalífi og fjármálastefnu í þá átt, að þjóðin geti hagnýtt sér sem bezt öll gæði lands og lagar. Hún þarf að koma á betri jarðrækt með nýtízkuverkfærum, að dæmi annara þjóða, sem hún þarf að keppa við á heimsmarkaðinum um sölu afurðanna. Hún þarf að kaupa sem flestar vörur í þeim löndum, þar sem varan er framleidd, til þess að það renni í vasa þjóðarinnar sá gróði, sem erlendir gróðabrallsmenn hafa notað sér, þannig, að kaupa þessar vörur þar, sem þær eru framleiddar og selja Íslendingum þær aftur

með álögðum millilíðagróða. — Hún þarf að stuðla að því, að framleitt sé og notað í landinu sjálfu, alt það, sem hægt er að framleiða, og útvega sem hagfeldastan markað fyrir alt það, er þjóðin getur án verið af framleiðslu lands og sjávar. Hún þarf að auka sem mest atvinnu í landinu, svo að íslenzka þjóðin þurfi ekki að borga útlendum þjóðum verkalaun fyrir þau verk, er hún getur sjálf int af höndum. Og hún þarf að auka og efla peningastofnanir sínar, svo að auður safnist í landinu og þjóðin verði sem fyrst sjálfstæð fjárhagslega.

Margt mætti fleira telja, sem íslenzka þjóðin þarf að stefna að í þessum efnum. En það yrði of langt mál. En í þessu sambandi má geta, að sjávarútvegur Íslendinga er nú svo vel á veg kominn, að hann stendur jafnhliða samkyns atvinnuvegum annara þjóða, og jafnvel talinn í fremstu röð. Skortir nú aðeins það á, að sjá honum fyrir nægilegu starfsfé og góðum markaði fyrir fiskinn, og verndun fiskimiða fyrir erlendum ágangi.

Og hví skyldi þá ekki fleiri íslenzkir atvinnuvegir geta komist á sama stig, ef nægilega er að þeim hlynt?

Hvaða flokk, sem þeir tilheyra, mun flestum Íslendingum koma saman um, að hefjast þurfi handa til framkvæmda í þessum framantöldu efnum. Um það mun ekki vera mikill ágreiningur, þó að skiftar kunni að vera skoðanir um, með hve miklum hraða framfarabaráttan eigi að vera háð. — En það er **aðferðin** til að koma þessum málum í framkvæmd, er um verður barist og flokkaskipun ræður í næstu kosningum og framvegis á Íslandi; því ekki vill sá, er þetta ritar, ætla íslenzku þjóðinni það, að hún byggi lengur flokkaskipun sína á því máli, sem nú er úr sögunni um sinn.

En hver verður þá grundvöllur flokkaskipunar í íslenzkum stjórnmálum framvegis? Og hvaða straumar eru nú aflmestir í stjórnmála- og atvinnulífi Íslendinga, eftir því að dæma, sem stjórnmálaálitið er nú, að því er séð verður héðan úr fjarskanum af blaðafréttum um tillögur og framkvæmdir í stjórnmálum? — Þessu er ekki svo auðvelt að svara, því svo eru mörg stórmál á dagskrá íslenzku þjóðarinnar, sem hafa ærið efni í sér til að verða að kappsmálum, að erfitt er að sjá, hvert þeirra kynni fyrst að verða að svo miklu kappsmáli, að það skapist um það flokkar, sem verði aðalflokkar í stjórnmálum Íslands. Hér skulu aðeins fáein þeirra talin.

Er þá fyrst að nefna notkun fossanna á Íslandi til að framleiða rafmagn. Um aðferðina til þess eru mjög skiftar skoðanir. Koma þar fram margar spurningar. Á að lögskipa það, að þjóðin taki endurgjaldslaust í hendur sér eignarrétt á öllum ám og vötnum á Íslandi, í stað þess sem það hefir altaf verið álitin einstaklingseign? — Á að leigja fossa-aflið í byrjun útlendum félögum um nokkurra ára bil? Eða á þjóðin að taka lán til þess, að geta starfrækt sjálf rafmagnsnotkunina? Eiga einstök sveita- og bæjar- og sýslufélög að taka stórlán til að útvega sér rafmagnsafl á hvert heimili, til ljósa, hitunar og matarsuðu og ýmsra starfa (jarðyrkju o. fl.)? Og á ríkissjóður Íslands að taka að sér að ábyrgjast slík lán?

Annað stórmál er bankamálið. Á að stofna fleiri banka með sérstöku

starfsviði, til eflingar atvinnuvegum? Á að koma þeim bönkum, sem stofnaðir eru (Íslandsbanka) og stofnaðir verða, undir yfirráð þjóðarinnar, svo þeir verði eign hennar, til að vernda þjóðina frá því að verða leiksoppur í hendi erlendra gróðabrallsmanna?

Enn má telja skólamálin. Hvert á að stefna í alþýðumentun? Á að styðja með landsfé alþýðuskóla í sveitum, sem veiti þroskuðum unglingum meiri mentun, eftir að þeir hafa lokið námi við barnaskóla? Eða á enginn milliliður að vera milli barnaskóla og hinna hærri skóla, sem eiga að búa nemendur undir ákveðið lífsstarf (kennara, presta, lögfræðinga, lækna)? Þetta mál mun í framtíðinni verða allmikið kappsmál, og deildar skoðanir um það. Alþýðumentunarmálið er nú töluvert áhugamál allra þjóða. Það eins og liggur í loftinu, þó að tiltölulega fáir kveði það upp, að holl og gagnger mentun alþýðunnar sé það, sem skapi lífsafl og framkvæmdaþrótt þjóðanna fult eins mikið og stjórnarfarið.

Öll þessi mál eru nú á dagskrá íslenzku þjóðarinnar, og fela í sér ærið efni til að verða að kappsmálum. En þó er það ætlun þess, er þetta ritar, að ekkert af þessum málum verði varanlegur grundvöllur undir flokkaskipun í íslenzkum stjórnmálum framvegis; heldur það, hvort eigi að ráða í íslenzkri löggjöf og stjórnarframkvæmdum:

**Samkepnisstefnan eða samvinnu- og sameignarstefnan.**

Eftir blaðafréttum að heiman sýnast þessir tveir straumar að vera sterkastir í íslenzku stjórnmálalífi og viðskifta- og peningamálum. Og þessar stefnur hafa þegar sagt hvor annari stríð á hendur í löggjafarmálum, blaðamensku og viðskiftalífi. Og eg hygg, að þær stefnur ráði mestu í stjórnmálalífi þjóðarinnar, og um það verði barist, hvort hollara sé til þjóðþrifa, að engar hömlur séu lagðar á það, hvaða meðölum einstakir menn beiti til að afla sér fjár, því undir því sé þjóðarheillin komin, að sem flestir atorkumenn hafi sem mest fé undir höndum til að hrinda áfram stórfyrirtækjum, sem auki þjóðarauðinn, þó mikill hluti lýðsins geti engu fé safnað, eða lifi ef til vill við örbirgð; eða þá, að löggjöfin stefni að því og stjórnarframkvæmdir allar, að allur arður af viðskiftum og vinnu skiftist sem jafnast milli allra og allir hafi sem mest jafnrétti um atvinnu, kaup og öll lífsþægindi.

Kenningin um ágæti samkepnisstefnunnar er upp runnin á Englandi og kend við hagfræðinginn Adam Smith. Hún hefir um langt skeið verið ríkjandi á Norður- og Vesturlöndum og verið ráðandi aflið í stjórnmálum og atvinnurekstri og hrundið af stað mörgum risavöxnum fyrirtækjum, sem aukið hafa auðmagn þjóðanna. Hún er því víðast rótgróin í þjóðlífinu, og erfitt að koma því út úr huga þjóðanna, að hún sé óholl til þjóðframfara. Hin stefnan, samvinnu- og sameignarstefnan, mun líka fyrst hafa komið fram á Englandi, og er nú orðin að sterku afli þar í þjóðlífinu; og þaðan hefir hún dreifst til Norðurlanda og Ameríku, og fest víða djúpar rætur, og getur víða bent á hollan gróður, er sprottið hefir af fræj-

um þeim, sem hún hefir sáð í þjóðlífsakrana.

Forgöngumenn þessara stefna hafa hvorirtveggja fært margar og álitlegar ástæður fyrir ágæti hvorrar fyrir sig. En það er ekki efni þessarar smágreinar, að gera neina tilraun til að meta, hvor stefnan sé hollari eða hafi fært betri rök fyrir máli sínu. Tilgangur þessarar greinar er ekki að vera deilugrein, heldur aðeins sá, að vekja athygli á þessum stefnum, sem líklegar eru til að verða sá undirstraumur, sem ræður flokkaskifting á Íslandi, þó flokkunum verði ef til vill gefin önnur nöfn en þessar stefnur hafa. — — —

Samkepnisstefnan hefir lifað og þroskast í íslenzku þjóðlífi frá landnámstíð. Þá var höfðingjastjórn á Íslandi og ánauðugir menn margir. Milli höfðingjanna var sjálfsögð samkepni, um auð og völd og metorð, þar sem enginn hafði allsherjarvald til framkvæmda.

Á niðurlægingartímabili íslenzku þjóðarinnar var konungsvaldið, kirkjuvaldið og verzlunarvaldið alt samtvinnað í samkepninni um að rýja þjóðina að fé og farsæld. En þegar konungsvaldið var takmarkað, kirkjuvaldið var afnumið í verzlegum málum og höfðingjavaldið takmarkað af þingbundinni konungsstjórn, þá fara að myndast fyrstu fræin í jarðvegi þeim, sem samvinnustefnan er sprottin af.

Á stríðsgróðaárunum fékk samkepnisstefnan byr undir báða vængi á Íslandi. Þá safnaðist auður í landinu, þó að vandræðaástandið í verzlun og viðskiftum, eftir stríðið, hafi eflaust höggið stórt skarð í gróða stríðsáranna. En jafnframt, og einkum eftir stríðið, fékk samvinnustefnan líka byr undir báða vængi, á Íslandi og víðar um lönd. Og þó hún sé enn í minnihluta, bæði á Íslandi og víðar, þá sýnist víða vera fremur sókn en vörn af hennar hendi í baráttunni við samkepnisstefnuna. Svo virðist mér vera á Íslandi; og þess vegna tel eg líklegt, að þessar stefnur ráði flokkaskipun þar í stjórnmálum, einkum af því að úrslit margra annara stórmála á Íslandi eru tvinnuð saman við það, hvor stefnan meiru ræður.

Það er gamli og nýi tíminn, sem heyja þar alheimsstyrjöld í viðskiftalífi og stjórnmálum um mikinn hluta heims, því samvinnu- og sameignarstefnan er svo miklu yngri og hefir enn ekki náð því afli í heiminum, að hún geti fullkomlega sýnt áhrif þau, er hún gæti haft, ef hún væri orðin jafn-rótgróin og eldri stefnan.

Stjórnmálalínurnar eru enn svo óglöggar á Íslandi, eins og vikið er á hér að framan, að margir þeir, sem eru góðir samvinnumenn heima í sveitum, t. d. í kaupfélagsskap, fylla ekki flokk þenna á þingi. Hún er þar því í miklum minnihluta sem flokkur, og kallar sig þar framfaraflokk, og er það eini flokkurinn af þeim, er nefndir eru hér að framan, sem ekki er bygður á gömlum flokkagrundvelli. En svo á samvinnustefnan mikil ítök í hugum þingmanna, að t. d. á síðasta þingi fékk hún samþykt með miklum meirihluta mjög sanngjörn og frjálsleg lög um samvinnufélög, sem veittu samvinnumönnum lögfullan rétt í verzlun og viðskiftum, og til að stofna samvinnufélög. Og Alþingi hefir nú um

nokkur ár styrkt sérstakan verzlunarskóla, er samvinnumenn hafa stofnað til að menta starfsmenn sína, jafnhliða því sem það hefir veitt styrk verzlunarskóla kaupmanna. Er það mjög frjálslynt af Alþingi, að gera báðum stefnunum jafnt undir höfði, veita þeim báðum tækifæri til að fræða þjóðina, fyrir milligöngu skólanna, um báðar stefnurnar.

Af því báðir þessir flokkar hafa nú hafið merki sitt á loft, ekki einungis í verzlun og viðskiftum, heldur einnig í stjórnmálum, stofnun blaða, skólahalds o. fl., og af því að það liggur svo ljóst fyrir öllum, að það snertir hag hvers einasta manns í landinu, hvor stefnan ræður í framkvæmdum og stjórnmálalífi þjóðarinnar, þá sýnist mér alt benda til, að það verði sterkustu straumarnir í þjóðlífinu, og líklegastir til, að á þeim byggist ný flokkaskipun í stjórnmálum.

Baráttan milli þessara tveggja stefna verður eflaust löng og hörð. Og yrði hin nýja stefna sigurvegarinn, er alls ekki æskilegt fyrir hana, að hún nái nú alt í einu algjörlega völdum,með allri þeirri ábyrgð, er þeim fylgir. Snögg og gagngerð breyting á öllu viðskifta- og stjórnmálalífi verður oft skammæ. Það þarf mikill meirihluti þjóðarinnar að hafa skilið og tileinkað sér hina nýju stefnu, til þess að hún hafi holl áhrif. Hún þarf, ef hún á ekki að kafna undir nafni, að vera bygð á gagngerðri þjóðarsamvinnu, ofan frá ráðherrastólnum og niður til verkamannsins, svo allir, æðri sem lægri, geti fylgst að sem sannmentaður samvinnuflokkur, landi og lýð til heilla.

## Eftirmáli.
## um landbúnað og rafmagnsnotkun á Íslandi.

Íslenzka þjóðin má ekki sleppa sínum gömlu kostum, kjarkinum og þrautseigjunni, sem bezt hafa fleytt henni á liðnum tímum yfir boða og blindsker örlaganna og þjóðlífsbaráttunnar, þó nú blási kaldan og margt sé erfitt á Íslandi, sem víða annarsstaðar í heiminum. Margir eiga nú við þau kjör að búa í þjóðlífi sínu, að þeir mundu glaðir vera, ef þeir ættu ekki við verri kjör að búa en alþýða á Íslandi. Þjóðin verður enn að hrópa af sannfæringu með skáldinu góða:

"Veit þá engi að eyjan hvíta
á sér enn vor, ef fólkið þorir
guði að treysta, hlekki hrista,
hlýða réttu, en góðs að bíða."

Nú eru það ekki dönsku stjórnarhlekkirnir, sem þjóðin þarf að hrista af sér; það eru hlekkir deyfðarinnar, vanans, sundurlyndisins, skammsýninnar og tortryggninnar, og annara slíkra illra afla, er hefta framför íslenzku þjóðarinnar, eins og margra annara þjóða. Ef þjóðin starfar samhent, víðsýn og vongóð að því, að nota öll þau gæði lands og lagar, sem Ísland hefir að bjóða, þá mun með tímanum rætast spá skáldsins góða í síðari hluta erindisins, sem tilfært er að, framan:

"Fagur er dalur og fyllist skógi,
og frjálsir menn þegar aldir renna;
skáldið hnígur, og margir í moldu
með honum búa, en þessu trúið."

Þetta er nú aðeins barnalegt oflof um Ísland, býst eg við að þeir segi, er ekki sjá neina kosti, sem Ísland hafi,

sýnist það aðeins bert og snautt "kríusker". Við þá menn ætla eg ekki að deila, en benda vil eg þeim á eitt. Fyrir nokkrum tugum ára var sjávarútvegur Íslands svo smávaxinn, að menn öfluðu þar lítið annað en "til matar"; nær ekkert var útflutt, og það lítið, sem útflutt var, í litlu áliti á heimsmarkaðinum. Nú eru íslenzkar sjávarafurðir í fremstu röð á heimsmarkaðinum, og flutt út til sölu svo mikið af þeim, að verð þess nemur mörgum tugum miljóna í krónum, og gæti þó eflaust enn aukist að mun. — En það er nú það eina, sem Ísland hefir að bjóða, býst eg við mér verði svarað. Nei, það er margt fleira, sem oflangt yrði upp að telja, sem Ísland hefir af kostum. Engum hefir enn komið sú dirfð í hug að neita því, að Ísland hafi á liðnum öldum alið í skauti sínu hrausta og gáfaða þjóð, og um eitt skeið framleitt bókmentir, sem standa jafnfætis því bezta, sem heimurinn hefir að bjóða. Það er sannreynd, sem viðurkend er meðal þeirra þjóða, er fremstar eru taldar, og **kostalaust land getur ekki framleitt þjóð, með slíkum kostum.** En út í það efni skal hér ei lengra farið. Þó Ísland sé fremur kalt og harðviðrasamt, hefir það marga kosti. Hér skulu aðeins taldir tveir af þeim kostum, sem enginn mun geta rengt, að Ísland hafi.

Enginn mun geta neitað því, að Ísland hafi fossa-afl til rafmagnsframleiðslu, ef það væri notað, meira en flest eða öll önnur lönd heimsins, samanborið við stærð þess. Og sá landkostur er afar mikils virði, ekki sízt nú á þessum tímum, er augu þjóðanna, þar á meðal Íslendinga, eru sem óðast að opnast fyrir gagnsemi hans, og hve afar nauðsynlegt það sé að nota rafafl á því nær öllum verklegum sviðum. Enginn getur heldur neitað því, að það er gróðrarafl í íslenzkum jarðvegi, og þar er kjarngott fóður og beitiland til gripaframleiðslu. Sönnunin fyrir því er það, að þó vetrar- og vorharðindinn séu þar oft svo langvinn, að oft fari ekki gras að spretta að ráði fyr en um miðjan júní, þá er eftir mánuð, ef tíð er góð, oft komin ágæt grasspretta. Ef þetta er nú svo, og á því er enginn efi, með þeirri litlu og ófullkomnu grasrækt, sem er á Íslandi, hve miklum framförum myndi þá ei grasræktin taka, ef hún væri stunduð með dugnaði og þekkingu, fyrst svona vex á óræktuðu enginu, þar sem aðeins er hirt það, er jarðvegurinn framleiðir, án þess að nokkuð sé í hann borið. Túnin, þar sem þau eru í góðri rækt, eru vottur þess, hve auka má gróðuraflið.

Fyrir mínum augum eru þessi tvö mál, rafmagnsframleiðslan og jarðræktarmálið, svo samtvinnuð, að framför í jarðrækt er bundin við það, eigi hún að **verða það, sem hún getur orðið**, að rafmagnsnotkun **verði sem almennust um alt Ísland.**

Til að sannfærast um það þarf ekki annað en gera sér grein fyrir, hve mikið af áburði er brent til að hita hús og sjóða matvæli, sem mundi notað til áburðar, ef hitun húsa og matvælasuða væri alment framkvæmd með rafmagni; og þegar þar við bætist, að með rafmagninu má framleiða úr loftinu ótakmarkaðar birgðir af tilbúnum áburði, sem að vöxtum og gæðum gæti bætt upp gripaáburðinn, þá finst mér liggja ljóst fyrir, að **fullkomin**

grasrækt og fóðurframleiðsla í landinu, sem landið á efni til, er bundin við það, að notkun rafmagns verði almenn í sveitum á Íslandi. Og fyrst það er sannað, að Ísland á gott gróðrarafl í jarðveginum, og ótakmörkuð skilyrði til að auka og bæta gróðraraflið, þá er það **þjóðarinnar skuld,** en **ekki landsins,** ef framleiðslan getur ekki margfaldast og orðið vissari. Auk þessa hefir Ísland nóg rafmagnsafl til reksturs járnbrauta, þó þær væru um alt land, og til iðnaðarfyrirtækja, t. d. verksmiðja til að vinna ullina, sjóða niður kjötið og ef til vill fisk, til að gera það að dýrari vöru og efla atvinnu í landinu. Við það eykst fólksfjöldinn og ríkistekjurnar aukast, svo að þjóðfélagið fær meira fjárafl til að hagnýta sér gæði landsins. Og mér sýnist hyggileg og sí aukin rafmagnsnotkun vera einn ábyggilegasti hornsteinninn undir svona gerðri þjóðfélagsbygging.

Eg hefi kastað þessum athugasemdum fram til að sýna fram á það, að Ísland sé ekki kostalaust land, eins og ýmsir álíta, og eg vona að það sannist æ betur, eftir því sem íslenzku þjóðinni vex starfsþróttur og víðsýni, og þekking til að hagnýta kosti landsins. Eg hefi enn þá trú, þó mér og fleirum hafi mistekist búskapur á Íslandi, að það geti þrifist þar notasæll og skemtilegur búskapur, ef alt það er réttilega notað, sem landið hefir að bjóða. Óhöppin okkar, sem landbúnaðarlegt skipbrot liðum þar, oftast meira að kenna okkur sjálfum og "aldarandanum", en kostaleysi landsins.

Þjóðin íslenzka þarf að hefja merkið hátt og bera það fram með dugnaði og **varfærni** í landbúnaðarmálum, eins og í öðrum efnum. Efnamestu sveitirnar þurfa að ganga á undan með góðu eftirdæmi, um það að nota rafmagnið og auka grasræktina, og **sýna, hvað hægt er að gera** í þeim efnum.

Fyrir þá, sem unna Íslandi af alhug, og það gera líka margir Íslendingar, sem í fjarska búa, er það gleðileg hugsun, að landið hefir þá kosti að bjóða, ef ekki skortir dug og hagsýni til að nota þá til fulls, að hvert heimili gæti haft rafafl til lýsingar, hitunar og matvælasuðu, og öflin til þess geymast víða ónotuð rétt að kalla hjá bæjarveggnum; og að landið hefir að bjóða gróðrarmagn og gróðurauka. Magn, svo að, væri það notað, þyrfti ekki að slá nema ræktaðar, véltækar slægjur. Þegar sú stund rennur upp, að hægt er að líta yfir raflýsta bæi og rafhitaða og rennislétt, ræktuð slægjulönd, þá sæjust ekki börn og fullorðnir bláir af kulda í húsunum í vetrar- og vornæðingunum, né harðindin í högunum. Og þá mundi rísa upp í landinu framtaksmeiri og vonglaðari kynslóð, og "vaxa meiðir, hvar vísir er nú". Það tekur marga tugi ára, jafnvel aldir, að koma þessu í fullkomna framkvæmd. En **"það verður, ef þjóðin er sjálfri sér trú" (St. Th.).** Ef að þjóðin fer nú að hefjast handa og **stefnir í áttina,** og fylgir einnig í þessu efni síðasta heilræði hins ástsæla foringja síns, Jóns Sigurðssonar, að "halda horfi meðan rétt stefnir".

# Svanfríður kveður.

Eftir **Guðmund Friðjónsson**.

---

Hjónin á Núpi, Arnfinnur og Þórhildur, eru að leysa landfestar sínar í þeim vændum, að fara til Vesturheims.

Hvað veldur burtflutningi bóndans? Hefir honum brugðist jarðnæðið?

Svo má að orði kveða. Atvikin hafa reyndar bygt honum út. Hann hefir búið á sjálfs sín eign að hálfu leyti, fengið hálflenduna í arf eftir föður sinn. En hina hálflenduna hefir hann haft á leigu með þeim skilmála, að hún verði laus, þegar eigandinn þurfi á henni að halda handa sér eða sínum.

Þessi landsdrottinn er bóndi þar í sveitinni, sem nú á uppkominn son, kvongaðan, og vill sonurinn sá fá hálflenduna til ábúðar. Þá vill Arnfinnur ekki vera á sínum helmingi, kann ekki við tvíbýlið og þykir óviðfeldið að minka sig um helming. Hann er alinn þarna upp og hefir verið þar allan aldur sinn. Hann býst eigi við að nema yndi hérlendis á nýjum stöðvum, enda er naumast um ábúðarjörð að tala, svo mikill hörgull sem er á bólstöðunum. Hann vill þá heldur brjóta allar brýr að baki sínu og leggja frá landi með Leifi hepna, vestur á veraldarsæinn þann, sem frændur hans hafa siglt hópum saman.

Hjónin eru búin að ríða á ýmsa bæi í sveitinni til að kveðja ættingja og vini. Nú eru þau að fara alfari frá Núpi. Næsta morgun verður bærinn kvaddur, augum rent í síðasta sinn yfir jörðina, sem borið hefir þau og fætt frá blautu barnsbeini, lúð þau og gefið þeim hvíld, glatt þau og vakið þeim trega. Arnfinnur gengur þögull þenna dag út og inn um bæinn, hefir ýmist hendur sínar í vösunum, eða hann ber þær á bakinu. Þórhildur sópar baðstofuna og þurkar gluggana, sópar og þurkar í sífellu. Öðruhverju ganga hjónin út á hlað og litast um, lygna augunum og mæna út í bláinn.

Svanfríður bóndadóttir situr úti á hlaðvarpa og saumar stafi í sokka. Hún er niðurlút og snýr andliti frá bæjardyrum, svo að ekki sér yfirbragð hennar.

Nú eru sumarsólstöður og jörðin er í fegurstum blóma. Tíðarfari er svo háttað, að bjartviðri er dægrum saman, sólskin og hafgola á daginn, en logn um nætur og döggfall. Fuglar sitja á eggjum og grasið þýtur upp úr jörðinni.

Þegar háttatími er kominn og hjónin búast til hvílu, situr Svanfríður ennþá úti í hlaðbrekkunni og föndrar við eitthvað í kjöltu sinni, ef til vill illeppa og brydda skó. Móðir hennar kemur þá út á hlaðið og segir:

"Svana mín, lambið mitt góða! Ætlarðu ekki að koma inn og hátta? Nú verður farið snemma á fætur á morgun og —"

Hún hættir í miðri setningu og röddin bilar.

"Háttið þið, mamma!" svarar Svanfríður og lítur út í fjarskann. "Eg fer mér ekki að voða, þó eg dragi það svolítið."

Gamla konan gengur inn og bregður svuntuhorninu upp að augunum.

Svanfríður rís á fætur og gengur upp á kvíabólið. Það er efst á túninu og frá því liggja fjárgötur til heiðar. Þessar götur þekkir Svanfríður eins og fingur sína. Hún hefir gengið þær ótal sinnum við smölun, þegar hún var hálfvaxin, og í bernsku fór hún þessa stigi, þegar hún rak ærnar frá kvíunum. Þessar stöðvar vill hún kveðja.

Nú staðnæmist hún við kvíarnar, sem ekki hafa verið notaðar í nokkur ár. Búskaparhættirnir eru breyttir frá því sem áður var. Ofvöxtur kaupstaða og þorpa hefir dregið fólkið frá sveitunum og neytt bændurna og húsfreyjurnar til þess, að leggja niður þúsund ára siðvenjur utan bæjar og innan. Kaupakonurnar sumar kunna ekki mjaltir, eða vilja ekki vinna þau verk. En konurnar hrökkva eigi til allra heimilisverka, þó að þær vilji reyndar halda í málnytuna. Önnur orsök til þess, að Arnfinnur slepti sínum ám með dilk, hún var sú, að ærnar urðu óhemjandi í högunum, þegar grannar hans sleptu sínum. Þá varð ekkert aðhald í víðáttunni og tvístringur búsmalans ágerðist látlaust. Arnfinnur rak sig á kröfur kaupafólksins þannig, að honum varð skapþungt. Það vildi fá sætt kaffi þrisvar á dag ofan á mjólkurmat og skyr. Þá þótti honum réttara að gefa lömbunum sopann sinn og — selja dilkana upp í kaffið og kaupið. Kröfur fólksins og ofvöxtur útgjaldanna lögðust á Arnfinn bónda með vaxandi þunga og hrundu honum fyrir ætternisstapann, ásamt þeim ástæðum, sem fyr eru greindar. — Nú stendur dóttir hans á kvíabólinu, sem er grasgróið og eyðilagt. Hún rennir augunum í kvíarnar. Þær eru hrundar að veggjum, sumstaðar. Og í horninu einu liggja leistaræflar af sjálfri henni, sem arfi gægist upp með. Þeir voru eitt sinn til hlífðar sokkum og skóm og ristum fyrir kvíableytu og klaufnasparki ánna.

Svanfríður lítur upp og mætir sólargeislunum, sem koma rakleiðis utan úr hafi. Fjörðurinn er sléttur og lygn — rjómalogn svo langt sem augað eygir. Og dúnalogn á landinu. Geislarnir virðast benda upp til heiðarinnar. Smalastúlkan hlýðir bendingunni og fetar áleiðis. Þessar fjárgötur eru nú grasi grónar og lyngtætlur taka höndum saman yfir skorningunum.

Hún gengur fyrst hugstola eða í leiðslu, eins og hún gekk í æsku stundum, þegar hún fór eftir ánum og þurfti eigi annað að gera en láta þær ráða, eins þó dimt væri af þoku, eða tekið að dimma af nótt. Þá var hún vön að nema staðar hjá steini einum, sem heitir Ýri. Hann er grár að lit og þó dílóttur. Þar settist hún stundum bæði í rekstri og smalamensku og varð tvisvar fegin í hvert sinn — eins og hver maður verður, sem á steininn sezt.

Svanfríður hefir enga áætlun gert um ferð sína, hve löng skuli verða. En þegar hún sér steininn Ýra, verður henni ósjálfrátt að snúa í áttina til hans. En þegar hún ætlar úr götunni,

flýgur rjúpa úr skorningnum undan fótum Svanfríðar — flýgur af eggjum og ber sér um leið. Steggin kemur þá, rjúpkerinn, aðvífandi og fleygir sér niður hjá rjúpu sinni, og er gustmikill í fasinu. — Svanfríður krýpur niður að hreiðrinu og telur eggin. Þau eru tólf og tekin að litverpast, eins og þau séu unguð. Svanfríður þekkir þessi einkenni vel, veit að rjúpuegg eru rauðdröfnótt meðan þau eru glæný, en gráskjöldótt þegar fram á dregur eggtíðina. Hún tekur eitt eggið í lófa sér og leggur það við vanga sinn. Ylinn leggur um kinnina og hún finnur hlýjan straum fara frá sér, til rjúpunnar, sem fórnað hefir sjálfri sér fyrir þessi tólf. Svanfríður hefir heyrt föður sinn segja frá því, hvernig tóan og refurinn sitja um rjúpurnar á vetrin, þegar þær liggja í snjóbælinu. Þá fara skollarnir þeim megin, sem slægðin vísar þeim — sækja í goluna og rífa upp snjóinn og búa til rennidrif með klónum. Rjúpan lúpar sig niður í renningnum, og skollatóan gengur þá á lagið, þar til hún kemst í færi og stekkur á snædúfuna einföldu og banar henni.

Nú þegar ungarnir koma úr egginu og vaxa, vofir fálkinn yfir þeim í vígahug, einkum þegar ungarnir breyta lit, svo þeir gerast frábrugðnir lyngmóunum. Þá, þegar fiðrið tekur á sig mjallarlitinn, kemur valurinn eins og hverfilbylur og lýstur rjúpuna banahöggi. Sú hætta er þó nokkurnveginn bærileg. Fálkinn vegur í skjótri svipan — hugsar Svanfríður — kemur eins og hverfilbylur og slær bráð sína, svo að hún veit naumast af sárindum. Rjúpan kennir ótta að sönnu, þegar hún sér og heyrir óvin sinn. En þá skuld eiga allir að gjalda — allar skepnur, sem gæddar eru vitsmunum. Hinn háskinn er verri, sem stafar af mannvonskunni; þeirri, sem fer með byssuna og sendir rjúpunni ýmist skjótan bana, eða þá langvint sárafar. Svanfríður minnist þess, að faðir hennar hefir séð blóð margsinnis í snjóbælum rjúpnanna, þegar hann var í fjárleitum á heiðinni, og hann hefir komið heim með sárar rjúpur og margar, sem hann fann eftir skotvargana. —

Rjúpkerinn flýgur upp úr lyngmónum, upp í háaloft og hlammar sér niður á steininn Ýra, ropar og þenur út stélið, teygir álkuna og ropar á ný. Hann er ef til vill að ávarpa Svanfríði og áminna hana um brottför frá hreiðrinu: Eg á þetta hreiður og rjúpan mín; farðu, stúlka, farðu!

Hún gegnir ávarpinu og fer frá hreiðrinu, gengur áfram og áleiðis inn í ríki náttúrunnar, inn í anganveldi beitilyngs og reyrgrasa.

Nú er Svanfríður í smalaveröld sinni, sem menningin nýja hefir gert sér fráhverfa. Hún telur eigi sporin barna, fremur en fyrrum, þegar smalafæturnir skrefuðu um þúfnakollana. Athygli Svanfríðar hrekkur upp af dvala sínum við nýlunduna þá, að lóa flýgur af eggjum úr lyngþúfu við götuna. Hún ber sig aumkunarlega og flytur kerlingar um móinn. Svanfríður lýtur að hreiðrinu og er sprungið fyrir einu nefi. Þar tístir litli unginn og vill ólmur komast út í veröldina. Lóusteggínn kemur nú og trítlar gringum Svanfríði, blístrar og breiðir úr stélinu.

"Friður sé með ykkur, lóurnar mínar," segir Svanfríður. "Nú sé eg

ykkur í síðasta sinn á þessum stöðvum. Eg þakka ykkur fyrir alt gott, gamalt og nýtt. Mér fanst ætíð, þegar þið komuð á vorin og létuð til ykkar heyra, mér fanst þá æfinlega rödd hljóma úr betri veröld. Bíbí, dírindírin, sögðuð þið og segið enn. Eg lifi aldrei glaðan dag í nýja landinu, ef þið komið ekki þangað. Eg vonast eftir ykkur og þrái röddina ykkar ljúfu og yndislegu. Vorenglar og sumardísir, sólskinsbörn og gróðurboðar! Komið þið til mín vestur við hafið! Ef þið komið ekki til mín, þá kem eg til ykkar, í endurminningunni."

Lóu-unginn tístir í egginu og vill út — þangað sem spóarnir vella, fuglarnir langleggjuðu, háfættu og spíknefjuðu. Svanfríður rekst eigi á þeirra hreiður. Spóinn er kænn og kann að hylja dyngju sína. Svanfríður þekkir listirnar hans. Hann flýgur af eggjum sínum, þegar óvinurinn er í fjarska. Spóinn fer þá langan sveig og kemur úr öfugri átt, þögull. Svo langvellur hann upp úr þurru, þegar hann er seztur, og lætur þá móðan mása, lengi, lengi.

Svanfríður lætur spóann eiga sjálfan sig. Hún starir inn í heiðageiminn, þar sem þúfnamergðin og skorningafjöldinn sitja og liggja og bíða þess, að þeim verði sómi sýndur annar en sá, sem snjódyngjan hefir á boðstólum og moldrykið. Nú málar miðnætursólin hæðirnar og stráir á þær purpura sínum. En sú mynd er hverful skyndimynd, sem fer að forgörðum næsta morgun. Svanfríður getur ekki handtekið hana, þótt hún leggi sig í líma. Hún fer slypp heim til sín að því leyti, hefir endurminninguna eina í eftirdragi, reykinn af réttunum — draumfegurð í staðinn fyrir vökumyndir, skýjaborg í staðinn fyrir handfesti.

Döggin glóir í lynginu, og ilmur frá reyr og blóðbergi berst að vitum Svanfríðar, þegar hún dregur andann djúpt og sækir í sig veðrið. Hún hefir farið fáklædd að heiman og nú kólnar henni í miðnætursvalanum.

Hún snýr heim á leið, og hvílir sig á steininum Ýra. Þá raknar upp í hugskoti hennar einn vefur endurminninganna. Hann er á þá leið, að eitt sinn sat hún þarna í heiðmyrkursþoku, sem gerði hana loðna og gráa af úða. Hún sá ekki steinsnar frá sér, og henni varð skelkur í brjósti við þögnina og myrkrið. — Þá var hún hálfvaxin og blaut í fætur af úðasjónum, sem var á jörðinni. Þá hljóp hún á fiárstiginn og vissi eigi réttar áttir. Ærnar voru þá horfnar inn í heiðavíðáttuna, svo að þær gátu ekki vísað veginn. Þá leit hún eftir sporum ánna í leirgötunni, og sá á þeim, hvernig átti að stefna, að hún átti að fara í öfuga slóðina, til þess að rata heim. — Nú átti hún að stefna á sólina, til þess að komast heim.

Heim! Á morgun, að morgundeginum loknum átti hún að vera útilokuð frá því að geta komið **heim**. Henni verður kaldara en kalt við þá hugsun.

Og geislar miðnætursólarinnar tindra í dögginni, sem féll af augum smalastúlkunnar vöxnu, sem nú er orðin barn í annað sinn. —

Þegar Svanfríður kemur heim að bænum, fær hún sig eigi til inngöngu. Hún er ekki syfjuð og þráir faðmlög við náttúruna. Skamt frá bænum, gagnstætt Núpnum, rennur á djúp, en ekki ákafa straumhörð. Þangað

stefnir Svanfríður og vill horfa á strauminn. Stundum slangrar selur um ána, einn og einn. Nú ber svo við, þegar Svanfríður kemur að ánni, að selur rekur upp höfuðið úti í miðri á og horfir forvitnislega til stúlkunnar. Hún tekur þá upp rauðan vasaklút og veifar honum. Selurinn vindur sér þá við í hálsliðunum og lyftir sér upp í sama bili, svo að hann kemur hálsinum á loft. Svo fer hann þráðbeint niður á endann og hverfur.

Svanfríður horfir út á ána og rennir augum eftir iðukastinu, sem gera hringsveiflur og straumgúlpa.

Eftir litla stund kemur selurinn upp og er nú nær en áður bakkanum þeim, sem Svanfríður situr á. Hún sér nú augun í selnum, stór, gáfuleg og skín út úr þeim forvitnin. Hún vingsar að honum vasaklútnum og brosir raunalega. "Heyrðu, frændi," segir hún, "komdu nær; ekki skal eg skjóta þig, né veiða þig í nót. Komdu hérna að bakkanum og líttu á mig. Nú sjáumst við í síðasta sinn. Eg sá hana móður þína hérna í ánni og föður þinn einnig, þegar eg var barn. Ef til vill rekur þú lestina. Hér er alt drepið, sem ætt er; þú ert hræddur að vonum." Þá er eins og selurinn skilji mannsmálið. Hann gusar vatninu í einni svipan, stingur sér á kaf og sést ekki framar.

Sólin er í upprisuför úr hafinu og Svanfríður gengur til bæjar. Heimarakkinn liggur uppi á baðstofu og dillar skottinu, þegar Svanfríður gengur hjá. Maríuerlan hleypur um varpann og tínir korn. Svanfríður brosir til erlunnar og gengur inn í bæinn.

Steinarnir í veggjunum hafa þagað frá því að hún var barn. Nú á Jónsmessunóttina hafa þeir fengið mál. Þeir segja allir: "Eg sakna þín, Svanfríður. Því ferðu héðan? Við söknum þín."

Hún gengur til baðstofu og breiðir sængina yfir höfuð sér. —

Aftureldingin fer yfir landið. Nú slær klukkan þrjú. Þá vaknar hrafninn, sem býr á Núpsklöpp og hrefnan hans. Þau fljúga samstundis frá hillu sinni — hún inn í sveit, hann út til fjarðarins að skygnast um flæðarmálið, bæði til aðdrátta. Þau breyta ekki til um fótaferð, þó að siðvenjurnar séu á hverfanda hveli í mannheimi.

Rakkinn geyr á baðstofunni, þegar krummi flýgur yfir bænum.

En út í firðinum rýkur úr gufuskipi, svo að bokurák gerir og óhreinku slær á silfurbjarta og gullrauða heiðríkjuna.



# Tvö Kvæði.

Eftir **Jakobínu Johnson.**

---

## Í FJALLASÝN

Er siglir gnoð inn sund á milli eyja,
og súlum líkar furur hátt sig teygja
í himinblámans helgi, en hæst í suðri skín
á hvítajökultinda í heiðri fjallasýn,
lágt eg bið: Leyf mér hér að þreyja,
lífsins guð, ljúft er hér að deyja,
lífsins guð.

Er sálin berst um andans helgu heima,
sem hugsjónanna tignu myndir geyma,
Þá rofnar rökkurtjald það sem ranglátt gildi ljær,
því hégómleikans hjómi sem hyllir nær og fjær.
Himin þinn heiðan lát mér skína,
hæstur guð, ár mín þegar dvína,
hæstur guð.

---

## REYNSLA.

Eg sá þegar sumarið kvaddi:
það sveipaði þoku-hjúp
um háreista borg og hlíðar,
og hvarf — út í hafsins djúp.

Eg inti þess árla morguns,
hvort ei myndi von um frest;
Eg mætti ekki missa blómin,
sem mér væri í hjarta fest.

Þá andaði svalt frá sjónum,
— á svari varð engin bið, —
"Sú rós, sem á reit þér í hjarta,
ei raskast, þó skiljum við."

Svo hvelfdist hinn hvíti hjúpur
um hverfið mitt döggum vætt.
Eg fann að eg misti mikið,
en meira' er þó stöðugt grætt.

# "Gesturinn".

Eftir **Arnrúnu frá Felli.**

---

Bekka litla í Brattholti lá og beið batans. Allir Brimtangabúar — nema Bekka — bjuggust við að það yrði langa biðin.

Hraðskreiðasti bifbátur "L. P. Halvorsen & Sön", hafði verið sendur til Sandfjarðar eftir lækni. Snertur af hálsbólgu og hræðsla um barnaveiki, gekk að elztu dóttur Hólm verzlunarstjóra. Meðan læknirinn var að skoða sjúklinginn, skrifa skolvatns-lyfseðil og fullvissa fjölskylduna um hættuleysi hálsbólgunnar — kallaði það meinlausan kverkaskít — hafði einhver athugul sál stungið því að Petu í Brattholti, að réttast væri fyrir hana að nota sér komu læknisins; úr því Bekka væri búin að liggja rúmföst í rúmar þrjár vikur, væri ekkert betri, og hefði þar að auki verið vella allan veturinn. Peta hlaut þeim ráðum. Læknirinn kom, skoðaði Bekku, lofaði að senda meðöl með bátnum til baka, strauk um vanga hennar í kveðjuskyni, og hélt svo til dyra. Peta byrjaði að ympra á því, hvað hann héldi að telpan þyrfti að liggja lengi. Læknirinn svaraði því til að göngin væru dimm, og beiddi hana að lýsa sér út. Á hlaðinu töluðust þau við litla stund; svo kvaddi hann hana með hlýju handabandi, neitaði að þiggja borgun, flýtti sér af stað — kvað bátinn bíða.

Peta stóð og studdist upp við bæjarvegginn. Móða lagðist fyrir augu hennar, og henni sýndust tveir lotnir læknar ganga þreytulega ofan tröðina. Svo var eins og hún rankaði við sér; hún brá svuntuhorninu nokkrum sinnum fyrir augun, greip skjólu, sem hvolfdi á stéttinni, og hélt til brunns.

Fregnin um komu læknisins að Brattholti, barst eins og brunakall um nágrennið. Þegar sást til Petu, flýttu konurnar sér í veg fyrir hana, og allar báru þær upp sömu spurninguna: "Hvað sagði læknirinn?" En Peta svaraði þeim eitthvað á þessa leið:

"Fyrst vildi hann ekki segja neitt ákveðið. En þá sagði eg: "Eg vil fá að heyra álit yðar, alveg afdráttarlaust," sagði eg; en þá sagði hann: "Ja, því miður, kona góð, eg hefi mjög litla von — og klappaði á öxlina á mér —. Hún hefir fengið hjartabilun, mjög hættulega, upp úr skarlatssóttinni. Og ef bjúgurinn heldur áfram að aukast —. En hann skyldi senda dropa, sem drægju úr andarteppunni. — Aumingja Rebekka mín!"

Beta talaði hægt og stillilega um þessa nýju viðbót við raunir sínar. Nágrannakonurnar tóku ekki eftir neinu óvenjulegu í framkomu hennar eða látbragði, öðru en því, að hún sagði: "Rebekka mín", en ekki Bekka litla, eins og venja hennar var. En hún hafði orð fyrir, að láta ekki mikið bera á tilfinningum sínum við fólk út í frá.

Þegar heim kom, helti hún vatninu í kagga, sem stóð í eldhúshorninu, gekk svo rakleitt inn í baðstofu — tveggja stafngólfa herbergi, — kotið hafði upphaflega verið sjóbúð — og sagði við mann sinn — Davíð Petu í Brattholti, eins og Brimtangabúar alment kölluðu hann, eftir að hann varð fyrir slysinu, — að hann yrði framvegis að sofa á legubekksskriflinu; hún ætlaði að láta Bekku sofa hjá sér, svo það færi betur um hana.

"Hvað sagði læknirinn, kona?" — "Já, hvað sagði hann, mamma?"

"Hann ætlar að senda þér meðöl með bátnum til baka, lambið mitt."

Davíð fékk ekkert svar. Hann tók fast um hækjuna, staulaðist yfir að ofninum og settist þar. Hann var orðinn því vanur, að hlýða athugasemdalaust, eftir að hann varð fyrir slysinu. Það hafði dottið ofan á hann vörukassi, orðið að taka af honum fótinn — þann hægri — upp við mjöðm. Þriðja slysið við "Víking" hans Hólm — eða réttara sagt: Halvorsens verzlunarinnar.

Bekka horfði á eftir pabba sínum — leit til mömmu sinnar; skildi ekkert í þessari nýbreytni.

Davíð fór að sýsla við bókapressuna. Hann hafði tekið upp fyrri iðn sína — bókband — þegar heim kom af sjúkrahúsinu. Hólm hafði gefið honum hækjuna, og tuttugu og fimm krónur í peningum, og sagt að telpan og Petrína skyldu ætíð ganga fyrir vinnu, meðan hann mætti ráða. Það hafði hann sannarlega efnt. Víst hafði honum farist heiðarlega við þau, hvað sem hver segði: borgað spítalaskuldina í bili, og verið vægur um borgun til baka. Ef óvildarmenn verzlunarinnar hefðu ekki verið að spýta því í Petu, að Hólm hefði verið skyldugur til að borga allan kostnaðinn, og jafnvel einhverjar skaðabætur! — Eins og Hólm gæti gert að því, þó það dytti ofan á hann vörukassi við uppskipun! — En það var ekki hægt að mæla Petu máli, þegar hún tók eitthvað í sig. Fólk hafði verið honum betra en hann átti skilið. Presturinn gefið honum fimm krónur, og kvenfélagið "Vonarljósið" í Sandfirði fimtíu krónur, þó — eins og frúin hafði sagt sem færði honum þær — að það hefði gert sér að reglu, að hjálpa aðeins Sandfirðingum. Og læknirinn — blessaður öðlingurinn sá! — hafði ekkert tekið fyrir alla sína fyrirhöfn, nema band á fáeinar bækur. "Ekki vil eg verða til að setja yður á sveitina," hafði hann sagt. Það væri fróðlegt að vita, hve mörg dagsverk læknarnir leggja árlega í guðskistuna! — En hvað átti þetta uppátæki með Bekku litlu að þýða, og því var Peta svona áhyggjufull? Ónota geigur læddist að Davíð, og gerði hann skjálfhentan.

Hann hélt áfram að handleika bókapressuna. Eirðarleysi sótti á hann, honum fanst hann ekkert geta gert, fyr en hann vissi eitthvað ger um ástand Bekku litlu. Peta var svo óvenjulega bögul og hægfæra. Læknirinn hafði þó vonandi ekki búist við langri legu?

Þegar Peta var búin að búa um, og flytja Bekku yfir í rúm þeirra hjónanna, tók hún óhreinu rúmfötin í svuntu sína, gekk fram í eldhúsið, en kom að vörmu spori inn í gættina og gaf honum bendingu um að koma fram.

"Hvað hélt læknirinn um Bekku litlu?" — Hann leit biðjandi spurningar-augum til hennar.

"Hann sagði svona hér um bil með berum orðum, að það mundi leysast upp fyrir henni, þá eða þegar." — Peta brá skýluklútshorninu yfir augun.

"Leysast upp?" — Davíð misti hækjuna á gólfið.

"Eg kalla það. Þegar læknarnir segja, að þeir hafi litla von, þá dregur oftast að því eina. — Því segi eg það: Þegar eg heyri talað um ólán og mæðu, þá dettur mér æfinlega Hólm og Halvorsensverzlunin í hug."

"Svo læknirinn hélt, að það mundi leysast upp — að við mundum missa — En þeim getur nú skjátlast, þó læknar séu". — Það var ekki snefill af sannfæring í rómnum.

"Ó, þeim skjátlast nú sjaldan, þegar svo langt er komið. — En eins og eg heiti Petrína Pálsdóttir, þá skal Sæmundur Hólm Hannesson ekki fá einn eyri frá mér, ef Rebekka — ef —ef—

"Góða kona! Eg skil ekki, hvernig þú ferð að kenna verzluninni um — þetta!"

"Nei, þú skilur ekki frekar en vant er! Þú fékst líklega ekki lungnabólgu af illum aðbúnaði á einum kútternum hans, og varst víst ekki aumingi fram á mitt sumar? Eg gerði það líklega að gamni mínu, að standa við "stampana" hans fram á síðasta mánuð, svo Rebekka fæddist fyrir tímann, þó það væri fyrir guðs mildi og góða umhyggju hennar ljósu hennar, að hægt var að halda í henni lífinu! Þú mistir ekki fótinn við að skipa upp úr "Víking" — ha? — Lét hann ekki setja vél í hand-ónýtt róðrarskrifli, svo Óli druknaði í blíðskapar veðri, af því botninn hefir auðvitað dottið úr bátnum? Smitaðist Bekka kanske ekki af því, að vinna við uppskipun í vöruskipinu hans, sem kom inn með þrjá menn veika af skarlatssótt? Alt okkar mótlæti stendur í einhverju sambandi við verzlunina; eg er ekki svo góð, að eg ekki skelli skuldinni —

"Ef við missum — ef —". Það var eins og gripið væri fyrir kverkar Davíðs. Hann ræskti sig nokkrum sinnum, en orðin komust ekki fram á varir hans — urðu ekki hljóðbær.

"Já, ef við missum Bekku, þá þyngist í syndapoka verzlunarinnar. — Blessaður auminginn, búin að vinna þar í tíu ár; ekki nema rúmlega sjö, þegar hún fór að breiða og taka saman."

Davíð þagði og horfði í gaupnir sér; vissi, að það var árangurslaust að reyna að sannfæra Petu um, að annar rekti örlagaþræði þeirra en Hólm og Halvorsens verzlunin.

Það var eins og áhugageislar brytust alt í einu í gegnum örvæntingarskýflókann, sem lá yfir andliti Petu.— "Heldurðu ekki, að við ættum að láta þjónusta hana? — Ætti eg ekki að reyna að skreppa fram að Bergi og tala við Halldór hómopata? — Gera eitthvað! Ekki þetta voðalega aðgerðaleysi og deyfð. Altaf held eg, að það hefði verið hægt að bjarga honum Óla sáluga, hefði Hólm tímt að hita upp bát og senda hann út um kvöldið, þegar þeir ekki komu heim á venjulegum tíma. Guð einn veit, hve oft eg hefi hrokkið upp úr fasta svefni við að sjá blessað barnið mitt hanga á kjölnum, alveg að þrotum kominn, mænandi eftir hjálp. Heyrðu! viltu ekki reyna að staulast upp eftir og

tala við prestinn? Eg ætla að biðja Valgerði í Fremstubúð að skreppa fram að Bergi, eg veit hún gerir það með orðinu, þegar hún veit, hvernig á stendur."

"Þú veizt nú eins vel og eg, hve gott og hlýðið barn hún Bekka litla hefir verið, svo ef nokkur mætti vera viss um að komast til guðs —. Eg er svo hræddur um, að hún verði svo óttaslegin, þegar presturinn fer að tala um — um —. Hún er svo ung. En þú ræður. Ef þú heldur, að það sé alveg óumflýjanlegt —"

"Hamingjan veit eg vildi eg vissi, hvað eg ætti að gera," sagði Peta um leið og hún batt á sig strigasvuntuna, og fór að skúra gólfið.

Davíð tók hækjuna, opnaði með varúð hurðina; Bekka virtist sofa, svo hann sneri við, staulaðist út; settist á stein bak við kotið.

Þannig áttu þá framtíðardraumar hans að rætast! Hvað skyldu þau hjónin hafa gert fyrir sér, að hönd örlaganna hvíldi svona þungt á þeim? Að hann skyldi verða fyrir þessu slysi, sem gerði hann ófæran um, að sjá til fullnustu fyrir sér og sínum. Að Óli litli, átjána ára gamall efnisunglingur og augasteinn móður sinnar, skyldi hverfa svona váveiflega. — En að missa Bekku litlu, var meira en honum fanst hann geta borið. — Peta mundi ef til vill ekki taka sér það eins nærri og druknun Óla — hún var aldrei söm síðan, svo kaldlynd og bitur, ef eitthvað út af brá. Og hvað átti hann nú að grípa til, þegar tregaköst settust að henni? Hann hafði oftast getað sýnt henni fram á það, að þau mættu vera guði þakklát fyrir Bekku litlu. En nú myndi hann víst hafa lítil ráð til að hugga hana. Einkennilegt, að honum hafði aldrei hvarflað í hug sá möguleiki, að Bekka yrði tekin af þeim. En gott var það að vísu; marga ánægjustundina hafði hann haft af því, að hugsa um framtíð hennar. Honum hafði þó mátt detta í hug, að ekki væri alt með feldu, jafn veikgerð og lítilfjörleg sem hún hafði verið upp á síðkastið — oft kvartað um magnleysi og hjartaverk. En þau höfðu í blindni sinni haldið það vera vaxtarverk, sem mundi eldast af henni.

Og hann sem hafði verið að vona, að þau gætu lofað henni suður á hausti komandi, þegar skuldinni við verzlunina yrði lokið; vissi, hvað hún þráði að læra til bókarinnar. Og nú hafði hann á tveim árum dregið saman tuttugu og tvær krónur áttatíu og fimm aura, sem góðir viðskiftavinir hans höfðu stungið að honum, umfram það, sem hann hafði sett upp fyrir band á bókum. — Margur hafði verið honum góður. — Hvað hann hafði hlakkað til að lauma því að henni um leið og hún færi! — Hvernig stóð á þessu miskunnarleysi örlaganna?

— — —

Það hafði vorað snemma. Túnbletturinn fyrir framan kotið var orðinn fagurgrænn. Sólin skein í heiði, og sendi geisla sína inn um litla fjögra rúðu gluggann í Brattholti. Baunagrasinu og rósinni í gluggakistunni hafði miðað daglega. Fyrsti róshnappurinn var að því kominn að springa út.

Sólargeislarnir teygðu sig yfir á dragkistuna, sem stóð fyrir aftan gamla legubekkinn, og skinu á lítið marmaralíkan af Kristi. Líkanið var

handarvana. Bekka hafði fundið það í rusli skamt frá verzlunarstjórahúsinu. Þaðan færðu þeir sig yfir á skeljakassann með rauða silkihjartanu á lokinu, sem Doddi í Fremstubúð gaf Bekku í fermingargjöf. Svo sveifluðu þeir sér yfir að fótagafli rúmsins; hikuðu við; fóru ekki lengra.

Bekka lá með aftur augun — hálfmókti. Brjóstið titraði við hvern andardrátt. Hárið — mikið og ljósgult — var greitt upp frá enninu. Hrokkinn lokkur ofan til við eyrað, skalf í hvert sinn, sem hún andaði. Hún var óvenjulega rjóð í kinnum.

Davíð stóð rétt fyrir innan hurðina og einblíndi á hana, eins og hann væri að taka óafmáanlega hugarmynd af henni.

"Pabbi, eg er svo þreytt! Þó eg sofni, þá er eins og eg geti ekki hvílst — eg mókti víst þegar þú komst inn. — Heldurðu ekki að meðölin komi bráðum? Eg vildi að eg gæti sofnað og sofið þangað til þau koma."

"Eg skal skreppa út og vita, hvort eg sé ekki til bátsins; bið mömmu að vera hjá þér á meðan."

"Nei, gerðu það ekki! Mamma hefir svo mikið að gera. Eg ætla að revna að sofna á meðan; þú verður ekki lengi."

"Jæja, lambið mitt," sagði hann og strauk um hönd hennar. Svo fór hann fram, en skildi hurðina eftir í hálfagátt.

En hún gat ekki sofnað. Það var svo margt að hugsa um — margt, sem hélt henni vakandi. "U-hum," hafði læknirinn sagt, þegar hún spurði hann, hvort henni myndi bráðlega batna; hann hafði sagt það sama, þegar pabbi hennar varð fyrir slysinu, og hann var spurður, hvort að þyrfti að taka af honum fótinn — svo það þýddi víst já. Það hlytu að verða voða sterk meðöl, sem hann sendi henni, ef batinn yrði bráður, því hún varð þreyttari og máttminni með hverjum deginum sem leið; og verst þegar rann í brjóstið á henni, þá dreymdi hana skvampið og burstargið í stúlkunum við fiskistampana, eða hávaðann þegar blautum fiski er slett á börurnar — og hrökk upp með dynjandi hjartslætti, þreyttari en nokkru sinni. Að hana skyldi ætíð dreyma það sama! Líklega var það af því, að lítið annað hafði komist í huga hennar, mánuðina áður en hún lagðist — stöðugur kvíði fyrir að fara í vinnuna.

Skelfing hafði hún verið þreytt og lasin, einkum eftir að vinnan byrjaði fyrir alvöru; fæturnir svo bólgnir, að kúfurinn stóð upp af ristunum. Mamma hennar hafði haldið það vera kuldabólgu, en hún var alveg viss um, að svo var ekki; þessi bólga var eins og hvap, sá ekkert á fótunum á morgnana.

Mikið hafði hún nú hlakkað til sunnudaganna! Að fá að liggja á gamla legubekknum allan daginn. Svo kom kvíðinn, þegar leið á kvöldið, þegar hún hugsaði til morgundagsins. Oft hafði henni fundist það alveg óhugsandi að fara á fætur. En þá kom hugsunin um dýrtíðina, eins og vofa, sem ýtti henni með fölbláum hnúum fram úr gamla legubekknum.

Aumingja mamma, sem nú varð að fara á hverjum morgni, og standa við stampana til klukkan fimm, og gat svo ekki sofið fyrir gigt í bakinu. — Það yrði auðvitað voða vont að taka með-

ölin, þau yrðu víst hræðilega sterk; en hvað gerði það, ef henni aðeins batnaði fljótt, svo það gæti orðið af suðurferðinni í haust. — Ó, ef hún aðeins gæti sofnað langan — langan dúr, svo þreytan hyrfi —

"Æ, því slettirðu fiskinum svona hart á börurnar, Bína!" Hún hrökk saman og opnaði augun. "Mig var víst að dreyma! — Sittu ekki svona á blástokknum, pabbi. Sástu til bátsins?"

"Þeir geta varla komið fyr en með aðfallinu, ljúfan mín."

"Mér finst svo langt síðan læknirinn fór; og svo kann eg svo illa við mig í þessu rúmi. Því mátti eg ekki vera á legubekknum, eins og vant er?"

"Mamma þín hélt, að það færi betur um þig í rúminu, á meðan þú ert lasin."

"Það fór ekki mjög illa um mig á legubekknum, ef eg gætti þess að liggja ekki í lautinni, sem er fremst í honum. Þú skalt vara þig á hnúsk, sem er hér um bil í miðjunni. Reyndu að liggja fyrir ofan hann. Og togaðu sængina vel yfir bakið á þér, veggurinn er svo kaldur. — Verst, hvað bekkurinn er stuttur, þú verður að liggja í hnipri. Eg vona mér batni bráðum, svo —"

"Svona, svona, lambið mitt, þú mátt ekki reyna svona mikið á þig; það er ekki holt að tala mikið, þegar maður er lasinn, þú verður svo móð." Hann ræskti sig nokkrum sinnum, snýtti sér, setti upp gleraugu, horfði út um gluggann, seildist því næst eftir böggli, sem lá á borðinu — sagði hálfhikandi — nærri einfeldnislega: "Eg — eg er hérna með svolitla sendingu til þín, sem — sem gamall karl sendir þér — Davíð nokkur Ólason, ef þú kannast við hann." Hann kyngdi nokkrum sinnum áður en hann gat brosað; tók svo bók í snotru bandi, og stakk henni undir vanga Bekku. Það voru "Ljóð og kvæði" Guðmundar Guðmundssonar.

Það brá fyrir gleðigeislum í augum hennar, og roðinn jókst í kinnunum. "Elsku pabbi! Lof mér að kyssa þig!" Gleðin hafði ýtt svo hart við veslings veika hjartanu, að hún átti erfitt um mál.

Davíð kysti varlega á vanga hennar, strauk um hönd hennar, endurtakandi: "Svona, svona, ekki að reyna á þig." Svo eftir örlitla stund, þegar hún fór að anda reglulegar: "Eg hefi hérna dugunarlítið meira." Um leið dró hann upp ofurlítið gull-plett hjarta, dregið á svarta silkisnúru. — "Og alt er, þegar þrent er: Þessi silkivasaklútur var sá eini, sem eftir var hjá Slifsa-Kristínu."

"Eg get nú ekkert sagt! En af hverju gefur þú mér alt þetta núna, pabbi? Sumardagurinn fyrsti er löngu liðinn!"

"Veit eg það. En tuttugasti og fyrsti maí er ekki langt undan landi."

"Afmælisdagurinn minn! Þá verð eg átján ára, ef guð lofar mér að lifa. Heldurðu að það séu nokkrar líkur til, að eg verði þá komin á fætur?"

"Þa — það er ekki svo gott að segja. Eg vildi að guð gæfi það." Hann horfði á rósina í gluggakistunni. —"Á eg ekki að lesa svolítið fyrir þig?"

"Jú. helzt eitthvað um vorið og lóurnar."

Hann byrjaði á "Vorvísur" ("Nú

er glatt í borg og bæ: bráðum kemur vorið"). Fletti svo við blaðinu og las:

"Það hlýnar í brúnum og brosir við sær,
í brekkunum fagurblá vorperlan grær.
Eg lifna, eg vakna, því veturinn dvín
og vorið og sólskinið kemur til mín."

"Og senn koma lóur í hlíðarnar heim
og himnesku gullstrengja-ljóðin með þeim,
við kvak þeirra vaki' eg um vorkvöldin hljóð,
er vogarnir loga í purpuraglóð."

"Ósköp er nú þetta fallegt, pabbi! Heyrðu! Mig langar til að kjósa mér: Efst á blaði í vinstri hendi!"

Davíð opnaði bókina með aðgæzlu, las fyrstu línurnar með sjálfum sér, en svo upphátt:

"En sú blessuð blíða!
Bezt er nú að líða
með þér, litla ljósið mitt,
í leik og söng til hlíða!"

"Lestu það alt, pabbi! Það er svo fallegt."

"Og nú kýs eg mér á miðju blaði í hægri hönd."

"Eg er hræddur um að þú verðir alt of þreytt," sagði Davíð, um leið og hann þurkaði gleraugun vandlega á lakhorninu.

"Nei! nei! Þvert á móti, eg gleymi þreytunni. — Á miðju blaði í hægri hönd."

"Eg heyri' hann tala. — Eilífð drottins öll
í einum máttar-raddblæ lýsti' og söng,
—og týndra lista-ljóða stuðlaföll
í ljúfum samklið fyltu himingöng.
Í djúpum hafsins gleymd og grafin lönd
í geislum smaragðs-ljóma birtust sýn.
Og mér fanst allur heimur bróðurhönd
sem hjálpfús væri' í kærleik rétt til mín!"

"Hver var það, sem hann heyrði tala, pabbi?"

"Frelsarann," sagði Davíð lágt, og ýtti gleraugunum alveg upp að augunum.

"Frelsarann! — Hann heyrði frelsarann tala!" — Lotning og aðdáun lýsti sér í hverju orði. Hún lagði aftur augun. "Eg ætla að hugsa um það, sem þú hefir verið að lesa, pabbi."

Dálitla stund lá hún þannig. Davíð reyndi að lesa í bókinni, en gamla stundaklukkan, sem hékk á veggnum fyrir aftan rúmið, hjó í sundur þögnina og truflaði hann.

"Pabbi! Kaus eg mér annars þrisvar sinnum? — Nei, eg kaus mér bara tvisvar. Maður á ætíð að kjósa sér þrisvar. Eg kýs mér efst á blaði í hægri hendi."

Hann opnaði bókina og hitti á bls. 112—113. "Efst á blaði í hægri?" — Hann las fyrstu línurnar með sjálfum sér, fölnaði og fór hjá sér. — "Það er um einhvern "Gest". Eg — eg er hættur að sjá með þessum gleraugum. Eigum við ekki að láta það bíða?"

"Jú, það gerir ekkert til, þó það bíði. Verst með gleraugun þín. — Komdu og lofaðu mér að hvísla nokkru að þér! — Eg ætla að heita á þig, ef mér batnar fljótt, að gefa þér gleraugu með gyltum spöngum, fyrir yfirvinnu-aurana mína."

"Blessað barnið mitt," sagði Davíð klökkur.

— — —

"Hvaða ósköp hefir hann kólnað, alt í einu," hugsaði Bekka. Hún lá með aftur augun, reyndi á ný að sofna. — Hún gerði tilraun til að toga sængina yfir brjóstið, en var svo magnþrota, að hún gat það ekki. — "Undarlegt, hvað skifti skjótt um veður! Áðan sólskin og blíða, en nú þessi ískuldi. Líklega farinn að snjóa. — Nei, hver var að kveða fyrir utan gluggann? — Hvaða skelfing hafði hann dimma og óviðfeldna rödd! — Hún hlustaði:

"Eg sá hvar hann kom neðan úr Djúpadal
úr dimmunni' að handan—á bleikum,
með síðhött, í síðúlpu', á bleikum.
Hann bar þar dökkvan við dvergasal.
— Og dísirnar gengu frá leikum."

"Mikið var þetta óviðfeldið erindi! Hver getur þetta eiginlega verið?" Hún tók að ryfja upp fyrir sér raddir Brimtangabúa, en var ekki mögulegt að muna eftir neinum líkum róm.

"Við jódyninn titraði hamrahöll,
og heiðgeislar lögðu á flótta. —
Hver fugl lagði þegjandi' á flótta,
en skugginn hans féll á víðan völl
sem váboði hríðarnótta."

"Hvaða óttalega var að verða kalt! — Það vildi eg að pabbi kæmi inn og lokaði glugganum."

Röddin fyrir utan gluggann var nú hás og hvíslandi. — Minti hana á Reginvald holdsveika, rétt áður en hann var sendur á spítalann.

"Eg grylti' í hann, — sá ekki gerla skil
í geigvænni, fjarlægri móðu.
Og drangar í mollu-móðu
hjá dysinni gömlu við **Dauðsmanns-Gil**
sem draugar á gægjum stóðu."

"**Dauðsmanns-Gil!**" — Ískaldur sviti spratt út um enni hennar og brjóst. Óttinn gerði henni enn erfiðar um andardráttinn. Hún reyndi að rísa upp, eins og til að mótmæla því, sem flaug í gegnum hugann. — Deyja! Nei! nei!

"Nú stóð eg þar einn — með ólokin gjöld
og átti til mála að svara,
til kæru og sakar að svara.
Svo margt átti' eg ógert, en — komið kvöld!
Nú kveið eg til þings að fara!"

"Til kæru og sakar að svara!" — Það yrði víst ein ákæran, hve oft hún hafði óskað að komast hjá vinnunni, eftir að hún varð lasin. — Yrði líklega ekki til neins, að segja frá hjartverknum og andarteppunni, þegar hún kom út í kalda loftið á morgnana, og varð að flýta sér. Myndi það verða tekið til greina, úr því hún vissi, hve þörfin var brýn heima fyrir. — Ó! að hún gæti fengið að tala við — við frelsarann, áður en hún yrði leidd fyrir guð. Hún var sannfærð um, að hann mundi skilja kvíða hennar, því hann hafði borið krossinn og þjáðst. — "Guð minn góður! Viltu ekki lofa mér að lifa svolítið lengur! — Bara eitt ár! Eg skal vinna möglunarlaust, ef eg get á fótum staðið. — Aldrei vera gröm út í stúlkurnar, sem eru hæstar í "akkorðinu"; ekki kvarta yfir kaupinu, aldrei biðja um að fá að fara suður — taka hvaða kostum sem er, ef eg aðeins fæ að lifa — hálft

ár, nokkra mánuði; ef eg aðeins fæ að sjá hann Dodda!"

Tuttugasti og fyrsti maí síðastliðinn stóð glitrandi í sólskini minninganna, fyrir hugskotsaugum hennar. Doddi var að leggja af stað til Sandfjarðar, til að verða háseti á "Sigurfara". Hún hafði fylgt honum út að einstiginu — hann vildi ekki bíða eftir bátsferð, en lagði af stað gangandi. — Þau höfðu setið í valllendis-laut, algrænni og ilmandi — fallegasta blettinum, sem hún hafði séð —. Þau sátu þegjandi, þar til lóa rauf þögnina; þá sagði Doddi, hikandi og feiminn: "Þegar eg heyri lóuna syngja að vori, þá kem eg heim. Má eg koma með — með hring handa þér?" — Og hún hafði þagað og snúið sér undan, því hún var hrædd um að hún færi að gráta, ef hún gerði tilraun til að segja eitthvað. En þá nefndi hann nafn hennar. Hún leit upp og munnar þeirra mættust í samþykki. — "Guð minn góður! Gefðu mér heilsu og líf!"

"Nei! nú skín blessuð sólin á ný! Eg ætla ekki að opna augun, það er svo indælt að láta hana skína á augnalokin — vita af henni. Tíðin var annars meira en lítið breytileg."

Aftur heyrði hún röddina fyrir utan gluggann, en nú var hún mild og blíð:

"Og gesturinn sjálfur? — Í geislum hann stóð,
í glitskikkju síðúlpan breyttist,
í helgidjásn hötturinn breyttist,
er sindrandi rúbínum, rauðum sem blóð,
í rósbjarma kvöldsins skreyttist.'

Hlýr blær bar rósailm að vitum hennar. — "Nú er rósin í gluggakistunni sprungin út; eg ætla samt að bíða með að líta upp, alveg nóg að finna ilminn."

"En mest fanst mér samt um svipinn hans, —
— eg sá hann í aftanroða,
í glitbrigðum röðulroða!
Hve ástmild var sorgblíða' í augum hans,
hins ókunna sendiboða!"

Röddin virtist færast nær — nær. Hvísla rétt við eyrað á henni. Þjáningarnar voru því sem næst horfnar. Guð ætlaði að bænheyra hana!

"Hann lagði hendina' á höfuð mér,
og huga minn gagntók blíða,
— svo regindjúp rósemd og blíða:
Mér var sem hann lyfti, lyfti mér
í ljósheima bjarta' og víða!"

— — —

"Bekka hefir sofið óvenjulega lengi. Viltu ekki gá, hvort hún sefur ennþá?"

"Það er ekki augnablik síðan eg leit inn. Hún virtist sofa svo vært."

"Ekki kemur báturinn, og eitthvað dvelur Valgerður lengi fram á Bergi, og ennþá hefir þú ekki talað við prestinn. Dráttur — dráttur! Sama deyfðin og aðgerðaleysið í þessu bygðarlagi. — Var ekki barið?"

Hurðin var opnuð, og Doddi í Fremstubúð stóð í dyrunum og bauð: "Gott kveld!"

"Hvernig líður Bekku? — Við vorum að koma úr legu, hittum piltana á Hólmsbátnum, og þeir sögðu okkur af veikindum hennar. — Eg vona, að það sé ekki neitt alvarlegt. Vélin bilaði hjá þeim, svo eg lagði af stað gangandi — ætlaði að koma hvort

sem var. Hérna eru meðölin. Hún er þó ekki hættulega veik? — Er mér óhætt að fara inn??"

"Hún hefir verið ósköp lítilfjörleg, en eg hefi trú á, að það sé eitthvað að lagast með hana, — sofið langan dúr. Hún hefir átt svo bágt með svefn undanfarið. Svefninn er góðs viti. Eg trúi ekki nema því, sem mér þykir trúlegast, hvað sem þessir læknar segja. Heldurðu ekki að það sé alveg óhætt að vekja hana, Davíð? Eg held hún hressist við að sjá Dodda, þau hafa verið svo samrýmd síðan þau voru litlir angar."

Doddi þreifaði um ofurlitla öskju í vestisvasanum, og horfði á gólfið.

"Eg er hræddur um að henni geti orðið bilt við, ef við vekjum hana. En þú ræður, kona."

Þau læddust inn á tánum. En þá hafði "Gesturinn" haft Bekku litlu á burt með sér.

---

## Á tindum.

Eftir **Richard Beck.**

Með hækkandi sól skal halda af stað
hásali fjalla' að skoða;
jöklanna alhvíta ennishlað
yfirríkir geislar roða.

Við sjónhring háfjöllin blasa blá
og benda á himins lindir;
þau vekja í hjarta helga þrá,
í huganum töframyndir.

Svo helfjum vér för á fjöllin blá;
í fyrstu er vegur greiður,
en bráðla vér köfum kaldan snjá
og klífum upp hraunabreiður.

Fæturnir sárna; svitnar brá;
svellþök og urðir mæða.
Erfið er brautin, brött og há,
sem ber oss til ljóssins hæða.

En áfram skal halda, hörfa ei frá,
þótt húðina taki af iljum;
á tindinn að komast, þars tign býr há,
oss tekst, ef vér aðeins viljum.

Alt sigrast, ef vasklega sótt það er,
hér sést, hverju viljinn orkar.
Á tindinn er komið, hve himneskt hér,
þó helköld sé jökulstorkan.

Og gjöld vér hljótum; nú gefst oss sýn
svo guðdómleg; ættjörðin fögur
sem opin bók fyrir augum skín
með æfintýr ljúf og sögur.

Hér hverfur alt smátt, alt ljótt og lágt,
og lamandi húmið svarta;
hér lyftumst vér hátt í æðri átt,
í upphimins-ljósið bjarta.

Hér finnum vér glögt vorn guðdómsmátt,
hið göfga í voru hjarta;
vort mark er að sækja í sólarátt
og seilast í geislann bjarta.

Að eiga í hjarta yl og þor
er æðsta vor gæfa og mesta;
að létta öðrum hin erfiðu spor
er æfinnar starfið bezta.

# Viðhald Þjóðernis Íslendinga í Vesturheimi.

## Mannafórnir.

Eftir **Steingrím Matthíasson.**

---

Aths.

Eg skrifa þessa grein eftir tilmælum vinar míns eins í Vesturheimi, en ekki af því að eg að fyrra bragði sé að trana mér fram. Eg skrifa hana með hálfum hug, því eg finn að eg kann ekki, eins og svo margir landar beggja megin hafsins, að tala né rita jafn hátíðlega og þeir um þjóðerni tungu og föðurland.

Enginn má því búast við neinu rósamáli, eða himinljósa leiftur-síum, en eg skal reyna að segja það, sem eg held að satt sé. S. M.

I.

Margir eru vondaufir um langvint viðhald þjóðernis vors vestan hafs. Eg hefi verið það líka og slegið úr og í, þegar eg hefi verið spurður. Hefi þá oft haft þann sið, sem er algengur í Kína, að spyrja á móti: "Má eg fyrst heyra yðar álit?"

En úr því eg nú, vopnaður pennanum, veð fram á vígvöllinn, hlýt eg að svara án allra vafninga. Og svarið er þá svona:

Eg trúi því, að þjóðernið okkar geti tórað framvegis eins og að undanförnu, og það alveg jafn-lengi og jafnvel vestan hafs sem austan, ef rétt er farið að, eða eins og eg vil og ætla nú að gera grein fyrir. En nú má enginn halda, að eg komi strax að þeim aðalatriðum, heldur verð eg að reifa málið og sýna mönnum í báða heimana meðlætis og mótlætis.

II.

Það er nú bezt að taka það strax fram (alveg eins og þegar góður spilamaður spilar fyrst út hundunum í nóló) — það — að söguleg reynsla hefir sýnt, að hvorki höfum við Íslendingar fyr á öldum, né forfeður okkar í Noregi né frændur okkar í Danmörku, hrósað happi yfir neinum langlífum nýlendum. Grænlenzka nýlendan sofnaði útaf. Hvað varð af Væringjum í Miklagarði, eða Norðmönnum á Sikiley og Norðmönnum á Frakklandi eða Dönum á Englandi?

En það er auðskilið mál, að svo fór sem fór. Blóðleysi varð banameinið. En blóðs þurfti við. Blóð þurfti stöðugt að streyma á milli, eins og um naflastreng — hreint mannablóð, til vaxtar og þrifa. Og svo þurfti margt fleira, eins og síðar mun sagt.

Spursmálið er ekki eins andlegt og margur heldur. Þó svo og svo margir "Mssrs so-and-so" skreppi vestur og hinsvegar álíka margir vesturheimskir "Mssrs so-and-so" skreppi austur, snögga ferð austur í blámóðu fjalla,— og hvorir í sínu lagi dáist að landi og þjóð, — og fari síðan heim og skrifi eða yrki ættjarðarkvæði. Það dugar ekkert — og jafnvel ekki, þá málsnill-

ingar fari vestur og austur og snjallir fræðimenn. — Það verður álíka árangur og þegar krummi var sendur út af örkinni, að því einu undanteknu, að þeir koma þó heim til sín aftur.

Heldur ekki trúi eg á neina nauðungarkenslu í barnaskólum eða ný stafrófskver (með myndum eftir Ásgrím) — og enn síður á málfræðiskenslu með beygingu sterkra sagnorða, hljóðvarpi og réttritunarreglum. Það þarf meira til — og skulum við nú stuttlega íhuga, hvernig aðrar þjóðir hafa á undan okkur reynt að viðhalda sínu þjóðerni.

III.

Frá alda öðli hefir hver þjóð, sem nokkur kraftur bjó í, barist fyrir viðhaldi síns þjóðernis. Barist hefir verið með hnúum og hnefum, grjótkasti og steinvopnum, eir og járni, eldi og brennisteini (þ. e. púðri), á láði og legi og í lofti, og nú síðast með eiturmökkvum. Allra ráða hefir verið neytt og öllum djöfulskap beitt, ekkert kák hefir dugað til að vernda þjóðernið. Baráttan hefir ætíð verið hörð, og því harðari, sem þjóðernistilfinningin hefir verið ríkari, heitar og kröftugri. Og baráttan hefir ætíð verið **blóðug**, nema þar sem þjóðernið verndaðist af sjálfu sér, t. d. einangrað á umflotinni eyju "norður við heimskaut í svalköldum sævi" — eyju, sem lá "langt frá öðrum þjóðum" og enginn skifti sér af; norðan við alla aðgæzlu, ágirnd og ásælni annara. Þegar til lengdar lætur, duga þó heldur ekki "bláfjötur Ægis" fremur en nokkur kínverskur múr.

En þegar nokkur hluti af sömu eyjar þjóðerni er fluttur inn í hjarta annars víðáttumikils lands, og er umsetinn og aðþrengdur á alla vegu af öðru voldugu þjóðerni og ýmsum þjóðum; þá hlýtur sá sami litli þjóðernispartur að eiga í vök að verjast. Þá skyldi maður halda, að hendur yrðu að standa út úr ermum, því baráttan hlyti að verða hörð, líklega blóðug, ef alt á að ganga eins og í sögu. Kemur sér þá illa að hafa enga æfingu heiman að úr ættlandinu í neinum vopnaburði, því pólitískt kjaftæði dugar ekki þar eingöngu eins og í viðskiftunum við Dani, þó að vísu dygði það þar.

Það er vissulega mikið í ráðist, að ætla sér að vernda íslenzkt þjóðerni vestan hafs um margar ókomnar aldir. **En þó má það takast, "ef fólkið þorir" og vill.**

IV.

Ekkert fæst fyrir ekki neitt. Viðhald þjóðernis sízt af öllu. Ef vér Íslendingar allir, austan hafs og vestan, féllum fram á ásjónu vora, og það dags daglega nokkurn tíma, og framsegðum einróma þessa bæn: Ó, guð vors lands, líttu í náð til vors litla vesturíslenzka þjóðernishluta og virztu að viðhalda honum á ókomnum öldum (að minsta kosti eins lengi og í heimahögunum, því við gerum ráð fyrir að þjóðernið spjari sig þar um langan aldur) — Amen.

Hvað þá? Eg segi fyrir mitt leyti, að eg hevri strax svarið í mínu hugskoti: "Þetta er undir sjálfum ykkur komið, góðir Íslendingar. Guð hjálpar þeim, sem hjálpar sér sjálfur."

Nú er eftir að vita, hvað mikið við þurfum á okkur að leggja. En sennilega er það engin fjarstæða, sem franska spakmælið fullyrðir: "Vouloir

c'est pounoir!" — að vilja er að geta. Með öðrum orðum:

"Ef vér viljum yfirleitt
eitt
Allir eitt! allir eitt! allir eitt!"

V.

Frá upphafi mannkynssögunnar vitum við, að hver þjóðin eftir aðra og samtímis öðrum, hefir beðið og grátbeðið sinn guð, hver í sínu lagi, að viðhalda þjóðerninu og gefa sínum vopnum sigur. En guð gengst ekki fyrir bænum eingöngu. Þess vegna var fundið upp á því, að færa guði fórnir. Þar eð það einstaka sinnum virtist hjálpa, varð það algengur siður, og enginn vissi annað ráð betra til að fá hann í lið með sér, en með fórnum.

Meðan menn hugsuð sér guð sinn venjulegum mannlegum þörfum gæddan, héldu þeir að matur kæmi honum bezt. Þeir færðu honum því upp á altarið alla sína beztu rétti. Maturinn hvarf. Orðrómur gaus stundum upp, að prestarnir gerðu sér gott af steikinni; en því trúðu þó ekki nema fáeinir vantrúaðir.

Snemma hugsuðu menn sér sólina og eldinn ýmist sem sjálfan guð eða áþreifanlega opinberun guðs. Þá lá það næst að færa fórnina án nokkurs milliliðs. Og eldurinn sleikti alt saman upp, og ilmurinn steig til himna. Kjöt þótti löngum bezti maturinn. Þess vegna fanst flestum sem ekkert væri blóðlegt til brennifórnar nema gott, feitt kjöt — t. d. þótti á dögum Nóa hrútakjöt hreinasta afbragð. "Það er brennifórn fyrir drotni og þakknæmilegur ilmur; það er fórn, sem drotni líkar," stendur í Ritningunni. En þeir, sem höfðu smakkað mannakjöt, voru þó á annari skoðun. Ekkert kjöt jafnaðist á við mannakjöt. Þess vegna var það víða siður, og á sér reyndar enn stað sumstaðar í heiminum, að fórna lifandi mönnum á altari þjóðguðsins. Það var þrautaráðið, þegar hvorki lánaðist hrútakjöt né nautakjöt, jafnvel þó fórnað væri t. d. hundrað eða þúsund nautum í einu.

Óvíða lesum við um jafn gegndarlausar mannafórnir og áttu sér stað í Karþagó. Okkur sýndist nú sem nógu miklu væri fórnað með öllum þeim sæg ungra, vazkra manna, sem árlega liðu fórnardauða fyrir föðulandið á vígvöllunum. Sú fórn var ekki talin neitt verðmætt offur eða velþóknanleg guði Mólok—heldur svo sem sjálfsögð og ekkert að þakka. Sérstaka fórn þurfti, eins og sérstaka sælgætisaukagetu á undan eða eftir máltíð. Og hundruðir og þúsundir ungra hertekinna meyja og sveina urðu að láta lífið á blótstallanum. En þegar mikið var í húfi, þótti þetta ekki nægja og var þá gripið til ættlandsins eigin barna. — Efnilegustu frumburðir, eftirlæti feðra og mæðra, voru færð guðinum að fórn — eða réttara líkneski guðsins. Það var úr eir, mannsbúkur með nautshaus. Alt líkneskið var holt innan og var kynt bál inni í því, þar til það varð glóandi, og í glóheitt, stekjandi fangið á þessu eirlíkneski færðu menn fórningjana lifandi, til að líða kvalafylli dauða en dæmi eru til.

Meðal villiþjóða viðgangast enn þá mannafórnir til þjóðguðanna, ásamt mannakjötsátveizlum.

Í kristnum löndum duttu allar kjötfórnir úr sögunni með komu nýrra og betri siða kristindómsins. Hér á landi voru það hrossafórnir og hrossakjöts-átveizlur, sem seinast fóru sögur af á undan kristindómi. Óbeit kristinna manna á hrossakjötsáti er þaðan runnin (en er nú í rénun með hnignun kristinna siða).

Í styrjöldum siðaðra manna er nú, eins og kunnugt er, slept öllum aukagetu fórnum heima fyrir, eins og tíðkuðust í heiðnum sið. Þjóðirnar láta sér nægja með mannafórnina á vígvöllunum. En þær sýnast reyndar vera svo ríflegar, að ekki þurfi á að bæta.

## VI.

Margir tala um þjóðerni, tungu og föðurland eins og ævarandi dýrgripi um aldir alda, sem sé undir hverjum og einum komið að vernda, eins og var, þegar hver tók við. Og allra ráða skal neytt við íhaldið. Sumir telja þjóðbúninga nauðsynlega, svo að allir séu í sömu sniðum — samskonar buxum, treyju, vesti og húfu (um nærfötin gerir minna til), og kvenfólkið á að vera alt í eins sniðnum pilsum og peysu — já, einmitt peisu og ýmsan peisuskap (að ólöstuðum peisubúningnum íslenzka.) — Og tungunni verður að halda í réttum skorðum og aldrei tyggja upp á dönsku né ensku. Um sjálft föðurlandið halda menn að ekkert sé að óttast — það situr kyrt, þar sem það er, með kyrrum kjörum. — Eldgamla Ísafold — ástkæra fósturmold — Ameríka (eins og Gröndal söng í spaugi).

En alt breytist, hvernig sem við förum að, þjóðernið, tungan og jafnvel föðurlandið sjálft — það ýmist vindþurkast og verður að ryki, sem fýkur út í loftið, eða rennblotnar í rigningum og rennur út í sjóinn með árframburði.

"Veglegan minnisvarða reisti náttúran Jónasi!" sagði einhver við mig úti í Öxnadal á dögunum og benti á Drangann yfir Hrauni, þar sem skáldið fæddist. Eg var í því skapi, að eg eggjaðist til mótsagna: "Það væri bágt, ef Jónas ætti ekki veglegra minnismerki en þenna drangadrjóla, því satt að segja minnir hann mig á skemda skögultönn í nokkurnveginn óskemdum tanngarði Öxnadalsfjalla. Ein ímynd tannar tímans. En satt er það. Dranginn er þó skárra minnismerki en steinvala með máðu letri í kirkjugarði, og engar of víðar, illa sniðnar buxur angra þar augað, eins og á blettinum við Lækjargötu."

## VII.

Við verðum auðvitað að gera okkur ljóst, að tímarnir breytast og mennirnir með, og þjóðernið líka. En látum okkur tefja fyrir þeim breytingum, sem bersýnilega eru til bölvunar. Þjóðernið má sannarlega breytast, ef það um leið fer batnandi — tungan líka, og landið með, ("en sykki það í myrkan mar", yrðum við öll að flytja til Ameríku. Og sama er að segja, ef skollinn hvíslar að Bandaríkjamönnum að stífla Belle Isle Sound og stöðva með því óbeinlínis okkar Golfstraumssprænu, sem gerir okkur líft á þessu landi.)

Íslendingar eru áreiðanlega af góðu bergi brotnir, og hafa sýnt sig hlutgenga á Orminum bæði fyr og síðar. Ekki sízt hefir þetta komið í ljós við

útflutninginn vestur um haf. Öllum ber saman um, að alstaðar vestra þyki landinn sóma sér vel, og óhætt er að fullyrða, að flutningurinn í nýjan jarðveg hafi verið flestum hollur og hafi gefið ótal hæfileikum ráðrúm til að njóta sín, sem annars hefðu legið í dái. Og nú er svo komið, að við lítum með stolti til systkina vorra, Vestur-Íslendinga, og stærum okkur af svo prúðri nýlendu. Við verðum sannarlega að gera það, sem í okkar valdi stendur, til að hún megi viðhaldast, vaxa og blómgast og bera áfram íslenzkt nafn með heiðri og sóma, eins lengi og við sjálfir stærum okkur af að heita Íslendingar.

VIII.

Það er auðsætt, að við getum ekki fremur en aðrar þjóðir, átt von á að þjóðernisvernd og þjóðernisbarátta kosti engar fórnir eða fyrirhöfn. — **Sannarlega er þörf á fórnum hér eins og fyr. Og ekkert dugar nema fórnir.**

Við að lesa þetta býst eg við að margan grípi hryllingur og kvíði. En verið alveg róleg. Mannafórnunum okkar þurfa hvorki að fylgja sársauki né blóðsúthellingar — hvorki á altari þjóðguðsins né á vígvöllunum.

Hér er sem sé ólíkt ástand því, sem endranær hefir átt sér stað um þjóðernisbaráttu. Hér er engin hætta á bardögum né blóðsúthellingum. Jónatan glímir sjaldnast í illu, heldur venjulega bara í góðu og jafnvel með glensi og gamni. Fangbrögðin verða oft hreint og beint að faðmlögum; og enginn sársauki fylgir, beinbrot né bani, heldur í hæsta lagi það, að út af því spretta ungir og fríðir smá-Jónatanar.

**Mannafórnir einar geta viðhaldið íslenzka stofninum í Vesturheimi. Við hér heima verðum að senda þeim stöðuga hjálp, svo að Jónatan gleypi þá ekki. Vesturheimsferðum verður stöðugt að halda áfram og agenta verður að senda eins og fyr. En nota bene — Vestur-Íslendingar verða líka að færa fórnir. Þeir eiga að senda okkur á móti einn amerískan landa fyrir hvern ómengaðan Íslending, sem við sendum.**

**Við eigum að skiftast á sonum og dætrum. Og menta hvor annars unglinga á vissu reki vist árabil — segjum t. d. 5 ára bil. Um þetta verður að semja og veitir ekki af , að margir fundir séu haldnir til að komast að sem heppilegastri niðurstöðu. Árlega sendum við okkar eigin skip landanna á milli og skiftumst á fórnargjöfum á víxl. Það eru fórnir til þjóðguðsins, velþóknanlegar og viturlegar, því báðir aðilar njóta góðs af, og þurfa engu að kvíða, heldur eiga vissu fyrir góðum árangri og eftirtekjum.**

**Þjóðernið breytist eins og alt breytist. Látum það breytast, en búum svo í haginn, að það breytist til batnaðar, blómgist og dafni beggja megin hafsins.**



# Sumarlok.

Eftir **Einar P. Jónsson.**

---

Hringt er til útfarar enn í dag, —
ymur í skóginum kulda-lag
hljómsvipað hafrænu-gjósti.
Mér finst eins og harmský á himninum, —
hálfgerður ótti' yfir deginum
og borginni þungt fyrir brjósti.

Blikvitar sumarsins brenna út, —
bjarkir með höfuðin niðurlút
titra við tónþungans brimið.
Mér finst sem hver alda þess organ hljóms
sé eilífðar-refsing hins mikla dóms,
er laufhjörtun frysti og limið.

Fólkið, er sárþráir altaf yl,
áfangastöðvanna leitar til
með einhverjum óvissu-hraða.
Tvísýnis-óttinn úr augum skín,
og ýmsir lesa þar forlög sín
í fjúkinu fölnaðra blaða.

Mér finst eins og alt sé feigt í dag, —
sjálft framtíðarljóðið með dánarbrag
og veðráttan heimsendi heiti.
Haustloftsins ókenda ægi-far
knýr andvarp frá brjósti sléttunnar,
með líkfylgd á sérhverju leiti.

Stormhæðin eykst, — svo fer alt í hvarf,
en ælfinnar fegursta sumarstarf
um ódreymdar aldir lifir.
Hver mörk virðist gráþnípin, myrk og tóm,
er moldin jarðar sín eigin blóm
og svalvindið syngur yfir!

Sigðirnar blika við bleikan svörð, —
nú berjast um völdin á himni' og jörð
tvö megin-öfl mannlífsins strauma:
Haustlátning ísköld á aðra hlið —
og eilífðartrúin á sumarið
í starfsvöku dýrðlegra drauma.



# Fýkur í sporin.

(Brot.)

Eftir Guðrúnu H. Finnsdóttur.

---

Vorið var komið með hlýindi, gróður og söng og æskublæ á öllu.

Trén breiddu út greinarnar, með ungu, ljósgrænu laufinu, sem titraði í hægum sunnanblænum.

Sólin glitraði á vatninu, er lá eins og glampandi spegill í morgunkyrðinni. Skógarilm og fuglasöng bar alstaðar að. Það var eins og vorið og æskan ætluðu sér að ríkja að eilífu.

Ingólfur í Vík fann og sá fegurðina og vorið, en honum var samt þungt um hjartaræturnar í dag, og ekki hafði honum gengið vel að sofa. Alla nóttina hafði hann þreytt hugann á að líta til baka yfir liðna æfi. Sérstaklega voru öll þreytu- og mæðusporin skýr. Eitt, og ekki það léttasta, varð hann að stíga í dag. Það var brúðkaupsdagur Ragnhildar dóttur hans, og hún var að giftast enskum manni, lækni búsettum í Winnipeg.

Faðir hennar hafði ætlað henni að halda áfram að vera húsfreyja í Vík, giftast einhverjum myndarmanni þar í sveitinni — Íslendingi. En þeir kastalar voru nú allir hrundir til grunna.

Í mörg ár hafði Ingólfur verið að búa sig undir að afhenda dóttur sinni æfistarf sitt sem bezt unnið. Hann hafði lagt alla stund á að bæta og stækka jörðina, engi og akra; sömuleiðis prýða og bæta húsakynnin.

En til hvers var það svo alt?

Ingólfur horfði á bæinn sinn, eins og hann stóð í dag. Íbúðarhúsið, stórt og reisulegt, úr ljósgrárri steinsteypu, með rauðu þaki. Vel hirtur garður alt í kring og breið trjágöng út að aðalveginum. Á bak við íbúðarhúsið var skógarrunni allstór og í rjóðri vestan undir honum stóðu kornhlaða, gripa- og geymsluhús. Alt bar vott um þrifnað, reglusemi og góð efni.

Rennsléttir akrar og engi breiddu sig út fyrir norðan og vestan bæinn. Og vatnið, fult af fiski, liðug hundrað fet frá húsinu. Það hafði haldið í þeim lífinu fyrir löngu síðan, á fyrstu frumbýlingsárunum, meðan hann var að koma upp gripum og rækta jörðina.

Hann sá í anda fyrsta bjálkakofann, sem hann hafði bygt í Vík, lítinn og lágan, með moldargólfi og leir troðið í rifurnar, þar sem bjálkarnir féllu ekki. — Það mundi ekki þykja boðlegt fjós nú.

Það litla, er keypt var til heimilisþarfa, hafði hann borið á bakinu langar leiðir að. Í tvö ár höfðu þau ekki bragðað annað kjöt en fugla og dýr, sem hann skaut endrum og eins. Þau máttu ekki lóga neinum af þessum fáu skepnum. Svo tókst honum að ala sér upp uxa til aksturs og plæginga. Sjálfur smíðaði hann fyrstu kerruna og voru það stórar framfarir. En ekki voru uxarnir eins hraðfara og bifreiðarnar nú á dögum. Þá var um ekkert að

ræða nema vinna og spara, til að geta dregið fram lífið.

Það eina, sem nóg var til af, var eldiviður. Skógurinn þéttur og hávaxinn alla leið fram á vatnsbakkann. Hann þurfti að höggva og ryðja áður en hægt var að sá kartöflum, hvað þá láta sér detta í hug akuryrkja. Þar sem ekki var þykkur skógur, voru ófær fen og forarkeldur, sem þurfti að þurka upp.

Ingólfur gamli undraðist nú þá fífldirfsku og k[illegible]k, sem Þórdís kona hans og hann höfðu haft, er þau byrjuðu búskap þarna. Hann efaðist um, ef hann hefði haft hugmynd um helming allra örðugleikanna, er biðu þeirra, að þau hefðu lagt út í að reisa þarna bú.

Og þó — það var ekki um annað að gera á þeim árum, þau áttu einkis úrkosti. Norðvesturlandið var eyðiskógar og óbygðar sléttur, er innflytjendur voru settir niður á í smáhópum hingað og þangað.

Ingólfur mintist með þakklæti nágranna sinna; hver hjálpaði öðrum, bæði með vinnu og lífsnauðsynjar. Hjálpsemin var eins mikil og fátæktin. Oft hafði hann horft yfir bygðina og undrast, hvað þetta fólk hafði afkastað miklu með tveim höndum tómum. Flest af því var nú fallið við veginn eða flutt í burtu. Þeir gleymdir, sem höfðu numið og ræktað landið; aðrir komnir í þeirra stað, er nutu ávaxtanna.

Já, það var fallegt og björgulegt í Vík, nú orðið. Ingólfur leit á hendurnar á sér, kreptar og hnýttar af erfiði og vinnustriti. — Hann hafði að vísu unnið sigur í viðskiftum við fátæktina og einyrkjaháttinn, og alla erfiðleikana, sem landneminn einn þekkir; en þá var líka alt talið. Öllu öðru hafði hann tapað.

Þórdís, konan hans, dó ung — liðlega þrítug; fékk tæringu út úr því, að eiga of erfitt á allan hátt. Engin húsakynni, engin lífsþægindi, bara strit og stríð, fátækt og basl. — Og það, sem reið heilsu hennar að fullu, var, þegar þau mistu börnin, hvert eftir annað, fyrir skort á hjúkrun og læknishjálp.

Vík hafði orðið honum dýrkeypt; og til hvers hafði hann barist? Nú var Ragnhildur töpuð honum líka, eftirlætið hans, sem hann hafði bygt allar sínar vonir á. Honum fanst hann geta kent sjálfum sér um það að miklu leyti. Ef hann hefði haldið henni kyrri heima hjá sér, og ekki verið að hugsa um að menta hana, þá hefði draumur hans líklega ræzt; hún hefði ílengst á föðurleifð sinni.

Í borginni hafði hún fyrst kynst þessu mannsefni sínu. Svo, eftir að námi var lokið og hún komin heim, gekk ekki á öðru öll sumrin út en gestagangi frá Winnipeg. Um hverja helgi var alt fult í Vík af ungu fólki, íslenzku og ensku, sem kom til að heimsækia Ragnhildi og hvíla sig yfir helgina úti í sveit. Og sjaldan vantaði lækninn í hópinn. Ingólfur hafði verið alveg grunlaus. Að vísu hafði honum fundist hvíldin, sem þetta unga fólk tók sér, vera nokkuð einkennileg. Farið í bifreiðum fram og aftur um alla sveitina, bátsferðir og siglingar út um alt vatn, knattleikir og svo dans og söngur framundir morgun. Hann sá, að Ragnhildur skemti sér vel, og þess unni hann henni, því ekki hafði verið svo mikið um gleðskap í Vík á meðan hún var að vaxa upp.

Ingólfur hafði oft horft undrandi á

dóttur sína í þessum hóp af ókunnu fólki; honum fanst stundum hún vera ókunnug líka. — Litla stúlkan hans, bóndadóttirin, alin upp af honum úti í einveru og hálfgerðum óbygðum — hún hélt ekki einungis sínum hlut, heldur bar hún af hópnum að fríðleik, gáfum og tiginni framkomu. Og hann var innilega glaður og þakklátur, að eiga slíka dóttur. —

Sunnudagskvöld eitt að áliðnu sumri hafði Ingólfur gengið vestur á engi, að gá að fé sínu. Eftir að hafa fundið alt í reglu, labbaði hann heimleiðis í hægðum sínum. Það var glaðatunglskin og blíðalogn; hvít-bleik birta lá eins og töfrablæja yfir öllu. Inni í skóginum var alt kvikt — heimur út af fyrir sig, er nú lét fyrst á sér bæra, er komið var kvöld. Trén stóðu eins og verðir, þögulir og kyrlátir, og köstuðu löngum skuggum fram undan sér. Þetta var eitt af þessum yndisfögru kvöldum, sem oft koma hér eftir heita daga. Það er eins og jörðin taki alt líf, sem er þreytt eftir hita og þunga dagsins, í mjúka, svala armana, eins og blíð móðir.

Ingólfur var kominn heim á hlað. Ósjálfrátt og af gömlum vana stanzaði hann og horfði út yfir vatnið, er titraði og gljáði í tunglsljósinu. Honum varð litið suður í fjöruna, skamt fyrir sunnan bæinn. Þar komu þau gangandi. Ragnhildur og læknirinn — og leiddust.

Ingólfur stóð eins og steini lostinn — yfirkominn — af sársauka — vonbrigðum — reiði. — Hver tilfinningin rak aðra.

— Svo þetta var erindið, sem læknirinn hafði haft að Vík — en ekki hvíld. Já, þessi líka hvíldin! Mikill bölvaður asni hafði hann getað verið.

—Og Ragnhildur, hún hafði svikið hann — beinlínis svikið hann — í fyrsta sinn á æfinni, og það fyrir Enskinn, — hún, eina barnið hans. —

Þarna komu þau og leiddust.

Hann var ekki við því búinn að verða á vegi þeirra nú. Þurfti að fá tíma til að hugsa, reyna að jafna sig.

Það var bezt fyrir hann að ganga — gánga úr sér storminn og ofsann, eins og hann hafði svo oft gert áður. Hann flýtti sér burtu frá bænum — burtu frá Ragnhildi og lækninum — burtu frá öllu, út í hljóða nóttina. Hann var einn — aleinn. Hann gekk langar leiðir eftir fjörunni — fram og aftur — fram og aftur. —

Oft hafði hann þráð, að Þórdís hefði fengið að lifa, en aldrei eins átakanlega sárt og nú. Það var eins og einstæðingsskapurinn hrópaði að honum. — Hann langaði til að geta hrifið hana út úr eilífðinni, — séð hana, — fundið hana — fengið hjá henni samúð og styrk. — Það mátti hann æfinlega reiða sig á hjá henni, jafnvel eftir að hún var orðin veik. —

Ingólfur staðnæmdist snögglega á göngunni. Hver hafði verið síðasta og eina bæn Þórdísar? -- Bað hún hann ekki fyrir litlu Ragnhildi, þá á öðru árinu? — Hann hafði reynt að bregðast ekki trausti hennar.

Honum fanst hann skulda Þórdísi í gröfinni, æsku og lífsgleði, er hún hafði verið svift svo snemma. Þessa skuld hafði hann reynt að greiða Ragnhildi. Og hingað til hafði það verið honum til ánægju. En nú var komið að því, að annaðhvort varð að beygja sig fyrir vilja hins.

Ragnhildur var engin flysjungur, —

hina þungu og föstu lund hennar þekti enginn betur en hann. Nú skildi hann, hví hún hafði stundum í seinni tíð horft á hann kvíðandi, alvarlegum augum.

Ingólfur fann alt í einu til þreytu — á sál og líkama. Hann settist í sandinn og studdi hönd undir kinn.

Hugsanirnar voru að smáskýrast — koma með meiri ró.

Minningin um Þórdísi — nálægð hennar —, niðurinn í vatninu, friður og kyrð næturinnar, — þetta alt strauk þreytta sálu hans, eins og mjúkar ástvinahendur.

Vatnið hafði oft áður verið honum félagi og vinur, þegar stormur og uppreisn í hans eigin hug höfðu nærri borið hann ofurliði.

Hér hafði hann kropið í einveru og einstæðingsskap. Hér hafði hann beðið heitt og innilega. Og hér hafði hann líka efast um, að nokkur guð væri til. — Tilveran sýndist vera miskunnarlaus heild, sem marði þá sundur, er urðu fyrir tilfinningalausu hjóli atvikanna.

Hér hafði hann grátið tárum, beiskum tárum fullorðins manns, sem lífið var nærri búið að kremja allan vilja úr. — Hér hafði hann líka fundið frið, frið eftir ofurvald tilfinninganna. Alveg eins og öldurnar á vatninu lægði eftir storminn, svo hafði hann fundið sálarfrið smátt og smátt, eftir því sem árin liðu, — lært að vera þakklátur fyrir bros guðs í sólskininu, tár hans í regninu, — lært að vera þakklátur fyrir lífið sjálft.

Og það var litla Ragnhildur, er átti sterkasta þáttinn í að lýsa og verma upp sál hans aftur, — alla leið frá því að hún, lítið barn, kom hlaupandi á móti honum með útbreiddan faðminn, glaða andlitið, blá, geislandi augu og gullbjarta hárið og skæra barnsrómminn, sem kallaði á hann. Það var hún, og enginn annar, sem aftur hafði breitt í kringum hann birtu, vonir, ást og trú á lífið.

Á henni hafði hann svo bygt alla sína framtíðardrauma. Hún átti að njóta alls, sem Þórdís og hann höfðu orðið að fara á mis. Nú hafði hún brugðist honum í fyrsta sinn! — En var nú rétt að líta svo á það? Hún hafði rétt til að giftast hverjum sem hún kaus, og ekkert var eðlilegra en að hún gifti sig. — En hann hafði vonað — eiginlega ætlast til — að það yrði Íslendingur. —

Hvað gat hann gert? Drepið við fæti og blátt áfram bannað henni að eiga lækninn? Nei, þeir dagar voru fyrir löngu liðnir. Hann gat ekkert — gat ekki sagt orð. Vissi með sjálfum sér, að þó hann setti sig upp á móti því nú, myndi hann á endanum verða að láta undan. En hann var þó faðir hennar, hafði alið hana upp. Átti hann ekki heimtingu á, að hún tæki tillit til vilja hans í þessu efni? Það var enginn vafi á því, að henni var vel kunnugt um, hvað honum voru þessar ensku mægðir á móti skapi.

Átti hann að launa Ragnhildi alla ástúðina með því, að svifta hana ef til vill gæfu hennar? Þorði hann það? Hvað hafði móðir hennar grætt á að taka saman við hann, verða konan hans? Bláfátækt, heilsuleysi, sorgir, dauða. Hann hafði ekki ráðið svo vel fram úr sinni eigin æfi, að hann þyrði að taka ráðin af öðrum. —

Hann varð að sætta sig við þetta, eins og fleiri íslenzkir foreldrar, er

þetta sama hafði komið fyrir. Og hann hafði láð þeim, að afstýra ekki slíkum giftingum.

Það, sem honum sveið sárast, var, að hann fann að Ragnhildur var töpuð, — ekki einungis honum, heldur íslenzku sveitinni, sem hún var fædd og alin upp í, og íslenzku félagslífi. Það var sama sagan með allflesta Íslendinga, er giftast hérlendum. Þeir voru tapaðir Íslendingum, hurfu inn í enska hafið.

Ingólfur gamli stundi við og óskaði í huga sér, að Íslendingar hefðu verið eins vitrir og Gyðingar, að gera það að trúarbragðalegu broti, að giftast öðrum þjóðum. Fyrir bragðið höfðu þeir ekki glatað þjóðerni sínu, í gegnum aldirnar, þrátt fyrir það, þótt þeir hafi dreifst út um allan heim, og búið við ofsóknir og lítilsvirðingu.

Ingólfur stóð á fætur. Það lagði kaldan gust af vatninu. Hann leit til austurs og sá, að farið var að roða fyrir degi.

Nýr dagur — ný kynslóð, er verður að hafa sína sögu, sitt starf og reynslu. — Ingólfur hafði sigrað sjálfan sig — eigingirnina og ráðríkið. — Ragnhildur átti að ráða sér sjálf. —

— — —

Allar þessar minningar höfðu þyrpst í kringum hann í nótt; og nú var hann kominn út í glaðan vormorguninn, til að hrista þær af sér. —

Þetta var brúðkaupsdagur Ragnhildar, og hann átti að verða henni til gleði og ánægju; til þess skyldi ekkert sparað. Ekkert ósamræmi, ekkert nema innilegar bænir og hamingjuóskir, skyldu fylgja henni úr föðurgarði.

—Ingólfur horfði aftur yfir bæinn sinn og jörðina. Já, fallegt var í Vík og mikið hafði hann lagt að sér til að koma jörðinni í þetta horf; en nú fanst honum hann hafa unnið fyrir gíg. Víkurland var honum nú lítils virði, nema þá til að bera bein hans, ef það yrði þá leyft átalið, að hann fengi að hvíla við hlið Þórdísar og barnanna.

Æfilaun útlendingsins eru oftast rýr, og ávalt hin sömu: Honum er gefið land að vísu; en hann gefur í staðinn æfina, heilsuna og alla starfskraftana. Já, landið tekur hann sjálfan, líkama og sál, og börnin hans í þúsund liðu.

(Ritað í ágúst 1919.)



# Þjóðræknissamtök Íslendinga í Vesturheimi.

Eftir **Rögnv. Pétursson.**

---

(Framh. frá fyrra ári.)

Árið 1874 var íbúatala Winnipeg-borgar 1869 manns; hlaut bærinn þá löggildingu með fullum borgarréttindum. Þetta var ári áður en Íslendingar komu þangað. Þótt nú bygð þessi við ármótin væri skyndilega hafin upp í borgartölu, breytti það lifnaðarháttum og bæjarbrag ekki að mun; var "borgin" eftir sem áður útver allrar menningar, við yztu bygðatakmörk álfunnar, samkomustaður og sölutorg veiðimanna og kaupmangara, er hvortveggju voru að leita gulls og gæfu í óbygðunum frjósömu og veiðisælu, vestan vatna og austan fjalla. Var því oft svakksamt um þær mundir. Hefir svo oftar farið mörgum smábæjum, er risið hafa upp í nýjum bygðarlögum. Drykkjuskapur var almennur og áfengissala óhindruð. Voldugasta verzlunarfélagið ("The Hudson's Bay Company"), er ráðið hafði lofum og lögum um alt Vesturlandið upp að þessum tíma, hafði konungsleyfi fyrir því að selja brennivín og aðra áfenga drykki að vild, og voru þau réttindi félagsins viðurkend með lögum 19. nóv. 1869, af stjórn hins nýstofnaða sambandsríkis Canada.

Það var því eigi að furða, þótt allmikill drykkjuskapur ætti sér stað meðal Íslendinga í Winnipeg fyrstu árin, þó eigi væri hann almennur. Var það í samræmi við bæjarbraginn, og mun það eigi ofmæli vera, sem stendur í gamanvísu skáldsins K. N. Júlíus, að með því fyrsta, sem margur lærði í enskri tungu, var orðið "beer". Kvartað er yfir háttsemi þessari í ritstjórnargrein í "Framfara", 22. febrúar 1879,og talið, að fleira fylgi með, er miður sæmi. Er áminning þessi mjög hógværlega rituð. Sýnt er fram á, að svo megi eigi fram fara og geti þetta leitt til þess, að óorð leggist á þjóðina meðal hinna hérlendu manna, er spilli fyrir henni í framtíðinni — og eins þó meginþorrinn sé saklaus. Eigi var þessu mikill gaumur gefinn fyrst. Víndrykkja var mjög almenn á Íslandi á þeim árum og eigi talin lýti, þó ýmsir teldu hana böl. Þó leið eigi á löngu áður en reynt var að sporna við þessum ósóma, og var það aðallega "Hið íslenzka kvenfélag", er gekst fyrir því, að koma á fót bindindisfélagi til að vernda æskulýðinn frá því að lenda út í ofdrykkju og óreglu. Bindindisfélagið mun hafa verið stofnað árið 1884, skömmu eftir komu séra Jóns Bjarnasonar til Winnipeg.[1]) Auglýsir hann við fyrstu messuna, er hann flutti, að Hið íslenzka kvenfélag boði til bindindisfundar föstudaginn næstan eftir (22. ágúst). Stýrði hann fundi þess-

---

1) Sbr. "Sam." I. ár, nr. 9, bls. 130. Séra F. J. Bergmann: Almanakið 1904, bls 81.

um og hvatti til inngöngu í félagið. "Um 30 manns gengu í félagið, en flest voru það konur, aðeins 7 karlmenn". Um áttatíu munu hafa staðið í félaginu, þegar flest var. Þótt hreyfing þessi væri ekki fjölmenn, kom hún þó furðanlega miklu til leiðar. Að dæmi Winnipeg fóru bygðarlög Íslendinga á öðrum stöðum. Þannig komst á fót öflugt bindindisfélag í Dakotanýlendunni árið 1886, er nefndi sig "Stjarnan", og um Argylebygð er þess getið, að við lok aprílmánaðar 1887 hafi 101 í austurhluta nýlendunnar af 143 nýlendumönnum, verið gengnir í bindindi.[2]) Samskonar bindindisfélög munu hafa risið upp víðar. Áhugi fyrir máli þessu mun að miklu leyti hafa stafað frá séra Jóni. Brýndi hann fyrir söfnuðum hins nýstofnaða kirkjufélags, á kirkjuþingum 1886, 1887 og 1888, að hlynna að hreyfingu þessari, er hann áleit að standa ætti í nánu sambandi við hina almennu safnaðarstarfsemi. Þá birti hann og langa ritgerð um þetta sama efni í nóvemberblaði "Sameiningarinnar 1886 (Sam. I. ár. nr. 9.) En svo fór, að eigi urðu bindindisfélög þessi langlíf. Er frá leið, dofnaði fundarsókn og með henni öll starfsemi út á við. Töldu þá og sumir, að félagsskapur þessi væri of tengdur trúboðsstarfi Kirkjufélagsins, en allmikill trúmála-ágreiningur fór þá úr þessu að gera vart við sig, og ágerðist, eftir því sem fram í sótti. Á honum klofnaði Hið íslenzka kvenfélag, er máli þessu hafði hrundið af stað, og á honum strandaði Bindindisfélagið, er þó mun hafa staðið uppi ofan að árinu 1889.

Með þessu eyddist þó eigi bindindishreyfingin, heldur reis hún upp í nýrri mynd. Góðtemplarareglan hafði þá rutt sér til rúms á Íslandi. Rétt upp úr nýári (10. jan.) 1884 var þar stofnuð fyrsta Góðtemplarastúkan, á Akureyri, og nefndist hún "Fjallkonan".[3]) Reis svo upp ein stúkan af annari, svo reglan breiddist skjótt út um land alt, unz að hinn 24. júní 1886, að stofnuð var stórstúka.

Meðal þeirra manna, er vestur fluttu 1886—7, voru nokkrir, er kynst höfðu Góðtemplarareglunni á Íslandi og unnið að útbreiðslu hennar. Með því að bindindisfélögin, er þegar höfðu verið stofnuð, virtust eigi ætla að ná þeim þroska, er menn höfðu gert sér vonir um, kom þessum mönnum í hug, að reynandi væri að stofna Góðtemplarastúku. Sá, er fyrstur vakti máls á þessu, er talinn að hafa verið Sigurður Andrésson, bróðir Jóns skólastjóra Hjaltalíns; hann var þá nýkominn vestur. Var Sigurður einn af forvígismönnum bindindismálsins á Ísafirði og meðal þeirra er stofnuðu þar stúku 1884. Kom hann því til leiðar, að fundur var haldinn sumarið 1887, að heimili Einars Sæmundsens, er þá bjó í Winnipeg, tengdabróður Meistara Eiríks Magnússonar í Cambridge, til þess að ræða um stofnun Góðtemplarastúku meðal Íslendinga. Fékk þetta góðan byr meðal fundar manna, og bundust fyrir máli þessu, auk hinna áðurnefndu: þeir Guðmundur Jónsson, Árnasonar frá Máná á Tjörnesi, er fyrstur Íslendinga vestan hafs hafði gerst Góðtemplari og heyrði til enskri

2) Sbr. "Sam." II. ár, nr. 4, bls. 64.

3) Sbr. Minningarrit G.-Templ. 1884—

stúku í Winnipeg, er "Fort Garry" nefndist; Jón Júlíus Jónsson frá Akureyri; Guðmundur Þórðarson frá Reykjavík og síðar Ólafur S. Thorgeirsson prentari frá Akureyri, er kom til Winnipeg þá um haustið. Nokkur bið varð á því, að stofnbréf fengist fyrir félagsmyndun þessari frá Stórstúku Manitoba, svo stúkan varð eigi stofnuð fyr en á Þorláksmessu um veturinn. Var hún nefnd "Hekla", og er enn uppi. Alls voru stofnendurnir tuttugu og fjórir, en tveir, þeir Guðmundur Jónsson og Ólafur S. Thorgeirsson, höfðu áður staðið í stúku; Sigurður Andrésson var þá alfluttur úr bænum. Eigi vildu félagsmenn að fundahöld færu fram á Ensku, svo að þeir Ólafur S. Thorgeirsson og Jón Júlíus tóku að sér að snúa siðbókinni, til bráðabirgða, yfir á Íslenzku. Var þýðing þessi seinna yfirfarin og endurbætt af Einari Hjörleifssyni og notuð þangað til hin prentaða útgáfa siðbókarinnar fékst frá Reykjavík. Stúkan óx og dafnaði strax fyrstu mánuðina, en brátt kom í ljós, að skoðanamunur var of mikill milli félagsmanna í trú- og landsmálum, til þess að þeir gætu allir staðið í sama félaginu. Vildi skoðanamunur þessi koma fram í ræðuhöldum á fundum og ýmsu fleira aðlútandi félagsstarfinu, og lauk svo, að réttum átta mánuðum eftir að stúkan var stofnuð, sagði stór hluti félagsmanna sig úr og stofnaði nýja stúku, er þeir enfndu "Skuld". Fengu þeir stofnbréf fyrir stúkunni 27. september um haustið. Eigi gerðist skilnaður þessi orðalaust; olli hann miklu þrátti, þótt báðir flokkarnir væru einhuga um sjálft bindindismálið. Undantekningarlítið skiftust flokkarnir þannig, að þeir, sem úr gengu og stofnuðu nýju stúkuna, voru í safnaðarmálum fylgjandi Kirkjufélaginu og í landsmálum blaðinu "Lögberg", er þá var nýstofnað, en hinir, sem eftir sátu í stúkunni "Heklu", stóðu utan við Kirkjufélagið og fylgdu stjórnmálastefnu "Heimskringlu". Varð því fátt um samvinnu fyrstu árin. Keptu stúkurnar hvor við aðra og þótti þeim eigi á sama standa, hvor fleiri teldi félagsmenn við ársfjórðungamát hver. Úr kryti þessum tók þó að draga, er fram í sótti, og mun það að einhverju leyti hafa verið því að þakka, að Íslendingar urðu sem næst að taka við forráðum Stórstúkunnar þá um langt skeið. Urðu þeir þar að beita óskiftum kröftum, ef reglunni átti að vera borgið. Þá fundu og báðar stúkurnar til þess, að nauðsynlegt væri fyrir þær, að koma sér upp fundarhúsi hið bráðasta, en í það fyrirtæki gat eigi önnur ráðist án aðstoðar hinnar. Kom þetta fundarhússmál fyrst til umræðu í stúkunni "Skuld", og um það mælst til samvinnu við "Heklu". Sameiginleg nefnd var skipuð til þess að íhuga það, en eigi varð þó af framkvæmdum um allangan tíma. Árið 1903 er fyrst gerð gangskör að því, að koma upp húsi, og bundust fyrir því leiðandi menn úr báðum stúkunum. Festu þeir kaup í byggingarlóð á Young Street við Notre Dame, en seldu aftur að rúmu ári liðnu með allmiklum hagnaði, því álitið var, að samkomuhús yrði þar eigi sem heppilegast sett er fram liðu stundir. Var þá íslenzku bygðinni sem óðast að þoka vestur á bóginn. Eftir að leitast hafði verið fyrir með byggingarstæði, var loks keypt lóð við Sargent og McGee stræti haustið 1905 og þar reist

mjög myndarlegt hús úr múrsteini árið eftir. Hús þetta er tvílofta og rúmar á neðra gólfi um 400, en á hinu efra um 600 manns. Er það aðal-samkomustaður Íslendinga í Winnipegbæ til allra meiriháttar-móta og fundarhalda. Meðal þeirra manna, er mest an og beztan þátt áttu í því, að húsið var reist, má telja fyrst og fremst frá stúkunni "Heklu" Ísak Jónsson, Guðmund Björnsson (Anderson), Kristján Stefánsson (er var yfirsmiður hússins), Bjarna Magnússon, Jóhannes Sveinsson, Jón Tryggva Bergmann og Bergsvein Matthíasson Long, en frá stúkunni "Skuld": Gunnlaug Jóhannsson, Guðmund Bjarnason, Ásbjörn Eggertsson, Sigfús Jóelsson, Magnús Jónsson og Jón Ólafsson. Voru þetta flest alkunnir smiðir og handverksmenn, svo að eigi var völ á þeim betri.

Þegar Bindindisfélagið lagðist niður, átti það í sjóði $35.00. Peninga þessa gaf það Góðtemplurum með þeim skilyrðum, að þeir styddu að því, að koma á fót hjá sér barnastúku, og skyldi því verki vera lokið með vorbyrjun 1890. En lítið var þá farið að draga til sátta með stúkunum. Var þó við fé þessu tekið og barnastúku komið á fót 12. apríl 1890. Var henni haldið uppi um tíma, en lögð því næst niður. En eftir að fundarhúsið var fengið, var hún nú stofnuð að nýju til og mest fyrir forgöngu tveggja kvenna í stúkunni "Heklu", frú Guðrúnar J. Skaptason og frú Guðrúnar (Jóhannsdóttur) Búason. Hélzt barnastúka þessi enn við, er þó mun mest vera að þakka nokkrum ungum stúlkum, er að því hafa unnið.

Veturinn 1904 risu upp deilur nokkrar innan stúkunnar "Skuldar", út af ummælum trúmálalegs efnis, er stóðu í fundarblaði rituðu, sem haldið var uppi í stúkunni. Hafði þá um hríð fyrnzt yfir hina fornu flokkaskiftingu, og ýmsir gengið í stúkuna tillitslaust til eldri skoðanamála. Meðal þeirra var skáldið Þorsteinn Þ. Þorsteinsson, er ritstjórn hafði fundarblaðsins, og þá var fyrir skömmu að heiman kominn frá Íslandi. Voru honum eignuð ummæli þessi og bar hann það eigi af sér. Lyktaði þeirri þrætu svo, að hann og þeir, sem svörum héldu uppi með honum, sögðu sig úr stúkunni og stofnuðu þriðju stúkuna (með stofnbréfi 4. maí 1904) og nefndu "Ísland". Aldrei varð stúka þessi fjölmenn. Mun félagatal hennar hafa verið, þegar flestir voru, innan við hundrað manns. Stuðnings naut hún og lítils frá hinum stúkunum. Allvel farnaðist henni þó fyrstu árin, en að þeim tíma liðnum fluttu stofnendur hennar margir burtu; fór þá að draga úr fundarsókn. Loks kom að því, að félagsmönnum fanst þeir eigi lengur geta haldið henni við. Var hún því lögð niður við árslok 1911, stofnbréfinu skilað aftur, en þeir, sem eftir stóðu, gengu flestir inn í stúkuna "Heklu".

Allur íslenzkur félagsskapur vestan hafs hefir hlotið það í arf frá landnámsárunum, að verja nokkru af starfskröftum sínum til aðhlynningar nauðstöddu fólki. Byrjuðu stúkurnar snemma á því, að hafa saman ofurlítið fé með samkomuhöldum og beinum framlögum, er þær lögðu í sjúkrasjóði. Hafa þær svo veitt úr sjóðum þessum fyrst og fremst þeim innan reglunnar, er við allsleysi og heilsuleysi hafa átt að stríða, og svo þá fleirum, eftir því sem efnin hafa látið til, er eins hafa

verið á vegi staddir. Eigi hafa sjóðir þessir náð því að verða stórir né veitingar úr þeim háar til hvers eins, en vafalaust hefir þetta þó styrkt marga, er útvegi höfðu fáa eða enga sér til bjargar.

Frá því hefir áður verið sagt, að öll fundahöld innan stúknanna hafi farið fram á Íslenzku. Hefir þetta þó stundum sætt andmælum, og sökum þess, að eigi hefir verið frá því vikið, hafa nokkrir félagsmenn sagt sig úr reglunni, en aðrir færst undan að ganga inn.

Íslenzkan barnaskóla settu stúkurnar á stofn veturinn 1916, mest fyrir tilhlutan Ásmundar P. Jóhannssonar byggingameistara (frá Haugi í Miðfirði í Húnaþingi, Ásmundssonar). Héldu þær uppi skóla þessum í þrjú ár. Skólinn var haldinn á laugardögum í samkomuhúsi þeirra, og öll kensla veitt þar ókeypis. Lagði Ásmundur P. Jóhannsson skólanum til bækur og ritföng fyrstu tvo veturna. Aðeins forstöðumanni skólans var launað lítillega, en kennarar aðrir unnu starf sitt kauplaust. Fyrstu kennarar voru séra Guðmundur Árnason (Þorlákssonar frá Munaðarnesi í Borgarfjarðarsýslu), Árni Sigurðsson (Sigurðssonar frá Hálsi í Svarfaðardal), dr. Jón Árnason (prófasts á Skútustöðum, Jónssonar), séra Rúnólfur Marteinsson og Ásmundur P. Jóhannsson. Allmikil aðsókn var að skólanum strax fyrsta veturinn, en jókst þó eftir því sem fram leið, og var þá kennurum fjölgað. Haustið 1919 afhentu þær skólann Þjóðræknisfélaginu, er þá var tekið til starfa, en léðu húsið eftir sem áður til skólahaldsins endurgjaldslaust. Hefir skólanum síðan verið haldið uppi af Winnipeg-deild Þjóðræknisfélagsins, með örlitlum styrk frá stjórnarnefnd aðalfélagsins.

Mikinn þátt hafa íslenzkir Góðtemplarar tekið í bindindisstarfseminni innan hins canadíska ríkis, en frá því verður eigi skýrt hér. Embætti mörg hafa þeir skipað í Stórstúku Manitoba og Norðvesturlandsins, og má svo að orði kveða, að þeir réði lofum og lögum innan Stórstúkunnar um mörg ár. Fulltrúar voru þeir kosnir fyrir hennar hönd á Hástúkuþing, strax eftir aldamót. Varð fyrstur fyrir því kjöri Ingvar Bjarni Búason B.A. (Jónssonar frá Skaga í Dýrafirði), andaðist í Winnipeg 13. september 1904. Sat hann á Hástúkuþingi, sem haldið var sumarið 1902 í Stokkhólmi í Svíþjóð. Árið 1908 var ekkja hans, frú Guðrún (Jóhannesdóttir frá Ingveldarstöðum á Reykjaströnd) Búason, kjörin erindreki til Hástúkuþings, er þá var haldið í borginni Washington í Bandaríkjunum. Á þingi því var hún kosin varatemplar Hástúkunnar. Fór hún sumarið 1910 til Antwerpen í Belgíu, til þess að sitja þar á stjórnarráðsfundi Hástúkunnar, og árið eftir til Hamborgar á Þýzkalandi til Hástúkuþings. Hún andaðist í Winnipeg 16. ágúst 1921. Árið 1914 var Arinbjörn Sigurgeirsson Bardal (Pálssonar frá Svartárkoti í Bárðardal) kosinn til Hástúkuþings, er haldið var í Kristjaníu í Noregi, og endurkosinn á hið næsta þing, er eigi var haldið fyr en sumarið 1920 í Kaupmannahöfn.

Árið 1912 er stúkan "Hekla" tuttugu og fimm ára gömul. Þótti félagsmönnum þá hlýða að minnast þess atburðar, með því að semja yfirlit yfir sögu stúkunnar og bindindishreyfing-

arinnar þenna aldarfjórðung, og gefa út sem minningarrit. Kom rit þetta út 1913 (Minnigarrit stúkunnar Heklu, Wpeg. Ó. S. Thorgeirsson, 1913. 8vo 156 bls.), og er hið eina íslenzka rit, er gefið hefir verið út af íslenzku Góðtemplarareglunni vestan hafs.

Með nokkrum orðum hefir verið að því vikið í frásögn þessari, að skoðanamunur í kirkjulegum efnum hafi bráðlega gert vart við sig meðal Íslendinga, eftir að þeir voru seztir að og byrjað var á að stofna söfnuði. Fram að þeim tíma gætti hans eigi, enda komu þau málefni eigi til umræðu fyr en að því kom. Þangað til munu fæstir hafa brotið heilann um, hverjar hinar fyrirskipuðu kenningar væru, er laga bæri trúarsannfæringuna eftir, en hver trúað því, sem honum þótti trúlegast. Þessu höfðu þeir vanist á Íslandi og eigi sætt átölum fyrir, hafnað einu en aðhylst annað, er fram hafði komið í kenningum prestanna, og þeim húslestrabókum, er þeir höfðu með höndum. Trúarsetningar þektu þeir eigi aðrar en "kverið", og til játningarritanna alls ekkert, nema þeir fáu, er hlotið höfðu skólalærdóm. Aftur höfðu nokkrir kynt sér rit Magnúsar Eiríkssonar og héldu mikið af þeim, og enn aðrir Njólu og numið meginhlutann af. En allir álitust kristnir vera, höfðu eigi hið minsta hugboð um, í hverju sá kenningamunur væri fólginn, er skiftingu ræður innan Mótmælendakirkjunnar. Flokkanöfnin báru óljósa þýðingu fyrir hugum allflestra manna. Aðal aðgreiningin var mest megnis fólgin í því, hvað væri kristilegt og hvað ókristilegt í hugsun og háttsemi. Mörgum fanst einhverskonar bönd og ófrelsi hafa fylgt ríkiskirkjunni, er þeir vildu eigi hlíta eftir að í nýja heimsálfu var komið. Mikil áherzla var á það lögð, að alt skyldi vera af **frjálsum** vilja. Haldið skyldi óbreyttri þeirri kenningu, er menn höfðu fermst upp á, án allra frekari ákvæða.

Þetta var hið andlega veganesti, er allflestir höfðu haft með sér að heiman. Var því eigi við öðru að búast, er menn þurftu að fara að gera sér grein fyrir trú sinni á formlegan hátt, en að skoðanirnar yrðu sundurleitar. Þegar farið var að semja stefnuskrár og játningar fyrir hina nýstofnuðu söfnuði, urðu þær skoðanir ríkari hjá mörgum, að ganga frá öllu sem frjálslegast, og kemur þetta greinilega í ljós í ritgerð um "Kirkjumál í Nýja Íslandi", þar sem skýrt er frá samþyktum um safnaðarmyndun í nýlendunni vorið 1877 (27. apríl), og birt er frumvarp til "Grundvallarlaga fyrir Kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi".[4])

"Þegar nýlendumenn í vor er leið fóru fyrir alvöru að ræða kirkjumálefni vor á fundum, kom það spursmál bráðlega fram, hvort vér skyldum sameina oss einhverju innlendu kirkjufélagi, eða mynda kirkjufélag út af fyrir oss. — — — Meiningar manna voru deildar um, hvort það væri rétt og tilhlýðilegt, að taka á móti presti frá kirkjufélagi, hvers trúarskoðanir menn eigi þektu, en hefðu grun um, að væru ófrjálslegar, og talsvert frábrugðnar þeirri kenningu, er menn höfðu fermst upp á· —— Margir álitu, þar eð vér værum lausir undan oki ríkiskirkjunnar, að oss væri nær að haga

2) Sbr. "Framfari" I. ár, nr. 2,30. sept. 1877, bls. 1.

kirkjustjórn vorri eftir eigin geðþótta og kringumstæðum vorum, en að láta þrýsta á oss framandi oki í þeim efnum. Kom þá fram uppástunga um, að Íslendingar í Nýja Íslandi mynduðu kirkjufélag út af fyrir sig, sem sé alveg óhátt öllum trúarfélögum og játningum".[5])

Lýsir þetta hinum algengu skoðunum manna á þeim árum.

Skýrt er frá því, að leitað hafi verið aðstoðar tveggja guðfræðinga við að semja grundvallarlaga frumvarpið (Halldórs Briem og séra Jóns Bjarnasonar?). Í "frumvarpinu" er svo ákveðið, að félagið skuli heita "Hið Lútherska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi", og gera grein fyrir trú sinni svo: "að hin heilaga ritning sé guðs opinberaða orð og játningarrit lútersku kirkjunnar mikilsverðir vitnisburðir um, hvernig kirkjan á ýmsum tímum hefir skilið og kent lærdóma heilagrar ritningar". Tilgangur kirkjufélagsins skuli vera sá: "að vinna að sálarheill meðlima þess og annara útífrá", og skuli **saman standa** af mönnum, sem **í það ganga af frjálsum vilja,** af **áhuga** fyrir vexti og viðgangi kristilegrar kirkju, af **trú** á kenningu hennar og **von** um blessunarríka ávexti af starfi hennar". Skyldur félagsmanna eru þá taldar að vera: 1. Að lifa kristilegu lífi. 2. Efla frið og eindrægni. 3. Iðka guðsorð á heimilum sínum. 4. Sjá börnum fyrir kristilegri uppfræðingu. 5. Leggja fé til kirkjuþarfa. 6. Hjálpa bágstöddum. 7. Sækja safnaðarfundi. 8. Eftir mætti styrkja fyrirtæki félagsins". — Öll kirkjustjórn er í höndum safnaðarins sjálfs og "eru **konur** jafnt sem karlar félagslimir, og hafa þær sömu réttindi og skyldur sem þeir".

Aðrir vildu hafa félagsböndin ákveðnari og skilja sem minst eftir af sjálfsvaldi einstaklinganna. Gætti þar áhrifa frá hinu norska kirkjufélagi í Missouri (sýnódunni). Er og orðunum" innlendu kirkjufélagi", í frumvarpinu beint að því. Þeir, sem fyrir "Frumvarpinu" stóðu, kölluðu séra Jón Bjarnason til sín sem prest, en hinir sömdu sér önnur safnaðarlög og kölluðu til sín séra Pál Þorláksson. Er komist svo að orði í þessu síðara lagafrumvarpi "að söfnuðurinn viðurkennir trúarjátningaritin sem hreina og rétta framsetningu Guðs orðs, sem aldrei breytist." Eru játningaritin talin að vera: "1. Hin postulalega trúarjátning. 2. Nísenska trúarjátningin. 3. Trúarjátning Athanasiusar. 4. Ágsborgar trúarjátningin óumbreytt. 5. Lúters litli Katikismus". Í 9. gr. er tekið fram, að söfnuðurinn skuli hafa "hið æðsta vald til þess að stjórna og skera úr öllum safnaðarmálum; en þó hefir hann ekki leyfi til að ákveða nokkuð gegn guðs orði og trúarjátningunum." Í 17. gr. er tekið fram, "að rétt til þess að tala og greiða atkvæði á fundum hafi aðeins karlmenn safnaðarins", og er þar vitnað til I. Korintubréfsins 14. kap. 33—37 v. ("með því Guð er ekki óeirðar heldur friðarins Guð, eins og viðgengst í öllum söfnuðum kristinna manna, ber konum yðrum að þegja í söfnuðunum, því þeim er ekki leyft að tala, eins og líka lögmálið býður, en ef þær vilja fræðast í einhverju, spyrji þær menn sína heima, því konum sæmir ekki að tala í söfnuðinum o. s. frv."). Í 21. gr. er til tekið, að játningargreinar

5) "Framfari", I. ár. nr. 2.

safnaðarlaganna "séu óbreytanlegar."[6])

Sjáanlega áttu þessar tvær stefnur ekki samleið, enda bar meira á milli en fram kom í lögunum. Risu af þessu deilur, er "Þingráðið" að lokum varð að hafa afskifti af, og lét boða til nýlendufundar á Gimli, "til að ræða um þau atriði í trúar og kirkjumálum, er á milli ber" og " og koma á samkomulagi milli safnaða séra Jóns og séra Páls"[7]). Fundur þessi, er stóð í tvo daga, "er hinn fyrsti trúarsamtalsfundur, er haldinn hefir verið meðal Íslendinga,[8]) og á honum komu fram ýmsar upplýsingar, sem þjóð vor yfir höfuð ekki þekkir, en sem hverjum manni er nauðsynlegt að vita, sem nokkuð hugsar um trúar- eða kirkjumál."

Eigi bar fundurinn árangur til samkomulags, en umhugsun um þessi efni vakti hann mikla hvarvetna meðal fólks. Fóru menn nú að skoða huga sinn um, hvar þeir stæðu, og komust margir að þeirri niðurstöðu, að rýmka þyrfti jafnvel meira til en gert væri með "frumvarpinu". Flokksmenn séra Páls fluttu úr nýlendunni suður til Dakota, en séra Jón Bjarnason hvarf aftur til Íslands. Deilurnar hjöðnuðu í bráð; voru önnur viðfangsefni brýnni, er fylgdu því, að flytja búferlum til auðra og ónuminna staða. Vorið 1882 andaðist séra Páll Þorláksson.[9])

Sem áður er frá skýrt, var "Hið evangelisk-lúterska kirkjufélag Íslendinga í Vesturheimi" stofnað sumarið 1885. "Frumvarpið" frá 27. apríl 1877 er lagt til grundvallar fyrir lögum þess, en allmikið breytt frá því, sem það upphaflega var. Var það gert til samkomulags við hina fyrri safnaðarlimi séra Páls. Ýmsir gerðu sig ekki ánægða með þær breytingar, en hefðu kosið, að þær hefðu heldur gengið í gagnstæða átt, og stóðu því utan félagsins; nokkrir sögðu sig úr stuttu eftir fyrsta þingið. En mjög voru skoðanir manna á reiki í þessum efnum. Um þetta leyti voru kynni mikil milli Norðmanna í Minnesota og Íslendinga er sezt höfðu að í Dakota. Árið 1881 hafði skáldið Kristofer Janson byrjað á únítariskum prestskap, meðal landa sinna í bæjunum Minneapolis og Hanska í Minnesota og stofnað þar söfnuði [10]) Var hann þegar kunnur Íslendingum af skáldsögum sínum og ritum, er Jón ritstjóri Ólafsson hafði íslenzkað og gefið út. Komust þeir nú í kynni nokkur Björn alþingism. Pétursson frá Hallfreðarstöðum, mágur Jóns, þá búsettur í Dakota, og Janson. Höfðu þeir mágar þá um langa hríð hallast að þeim skoðunum. Byrjaði Björn skömmu seinna að rita og ræða um kenningar Únítara, og opinberlega að flytja um þær fyrirlestra í Winnipeg og Dakota. Á fyrsta þingi Kirkjufélagsins sat hann sem gestur, en tók engan þátt í þingstörfum. Mun fyrir honum hafa vakað að koma á fót almennum frjálstrúarfélagsskap meðal þeirra er utan stóðu Kirkjufélagsins. Lagði hann niður búskap og gaf sig allan við málum þessum, en brátt mun hann hafa fundið, að þetta var honum ofætlun. Hniginn var hann

6) Sbr. "Framfari" I. ár, nr. 16., 19. marz 1878.

7) Sbr. "Framfari" I. ár, nr. 16, 19. marz 1878, bls. 4.

8) Sbr. "Framfari" I. ár, nr. 18. 5. apríl 1878, bls. 4.

9) Sbr. það sem segir í ritgerð þessari í I. árgang Tímaritsins, bls. 109—111.

10) Mere Lys: 8de Aarg., nr. 4, bls. 124.

að aldri og heilsan tekin að bila. Sneri hann sér því aðallega að safnaðarmyndun í Winnipeg. Árin 1887—'91 heldur hann uppi fyrirlestrasamkomum, þýðir og gefur út þrjú rit eftir Kristofer Janson ("Mótsagnir Orþódoxíunnar", "Guð Gyðinga og Guð kristinna manna", Wpg. 1887; "Um þrenningarlærdóminn", Wpg. 1889) og eitt eftir ameríska guðfræðinginn Dr. Minot J. Savage "Katekismus Únítara", Wpg. 1891). Söfnuð stofnaði hann svo 1. febr. 1891, er nefndist "Hinn fyrsti íslenzki Únítarasöfnuður í Winnipeg". Stofnendur voru rúmt 40 manns. Þeir sem aðallega gengust fyrir safnaðarmyndaninni, voru Eiríkur Gíslason frá Egilsstöðum á Völlum í Suður-Múlasýslu, Benedikt Pétursson úr Þingeyjarsýslu, Jón Erlendsson Eldon, Einar Ólafsson frá Firði í Mjóafirði, Níels M. Lambertsen læknir, Friðrik Sveinsson fóstursonur Ólafs Ólafssonar frá Espihóli en bróðir Jóns prests Sveinssonar í Danmörku, Kristmundur Sæmundsson, Guðmundur Björnsson Árnasonar, Eyjólfur Eyjólfsson, Guðrún Friðriksdóttir, ættuð af Ísafirði, Ólöf Björnsdóttir Halldórssonar frá Úlfsstöðum, Signý Pálsdóttir, kona Eyjólfs, Anna Eyjólfsdóttir frá Hlíðarseli í Hróarstungu og Snjólfur Jóhannsson Austmann. Fleiri mætti telja, er þátt áttu í safnaðarmyndun þessari, en gengu inn síðar, svo sem Jón ritstj. Ólafsson, , Sigurður Þórðarson Jónassen frá Rvík, þá bræður Magnús og Stefán Péturssyni, Björnssonar frá Leifsstöðum í Bólstaðahlíðarsókn í Húnaþingi o. fl. Söfnuðurinn vistaði Björn Pétursson til sín sem prest, og voru messur haldnar fyrstu árin í samkomuhúsi, er nefndist Assiniboine Hall. Kirkju kom söfnuðurinn sér upp haustið 1891, og var fyrst messað í henni á jóladag þá um veturinn. Haustið 1893, hinn 25. sept, andaðist Björn og var greftraður að Mountain kirkju í Dakota. Síðari kona hans, er hét Jennie Elizabeth McCaine og ættuð frá Francestown í New Hampshire ríki í Bandaríkjunum, hélt þá uppi messum um hríð, en flutti því næst burtu til átthaganna vorið 1894 og andaðist þar 18. marz 1918, áttatíu ára gömul.[11]) Flutti Jón Ólafsson þá fyrirlestra um tíma í kirkjunni þangað til að séra Magnús J. Skaptason var kallaður til safnaðarins 1. ágúst 1894. Sumarið 1899 flytur séra Magnús alfari frá Winnipeg til íslenzkrar nýbygðar í norðvesturhluta Minnesotaríkis, er kend er við fljót er Roseau heitir og nefnd Roseau-nýlenda. Stóð bygð þessi með blóma um nokkur ár og myndaði hann þar söfnuð. En með vorinu 1902 hófst útflutningur þaðan, svo bygðin eyddist sem næst af Íslendingum, og eru nú eftir aðeins örfáir búendur. Var nú söfnuðurinn prestlaus um tíma. Sumurin 1900—1901 þjónaði séra Rögnv. Pétursson, er þá var við prestaskólanám í Meadville í Pennsylvania, söfnuðinum um þriggja mánaða tíma. En frá júlíbyrjun 1902 til aprílloka 1903 séra Jóhann P. Sólmundsson, er útskrifaðist þá um vorið frá Meadville prestaskólanum, og varð því næst prestur Únítarasafnaðarins á Gimli. Var þá séra Rögnv. Pétursson kjörinn prestur safnaðarins frá ágústbyrjun þess árs til septemberloka 1909, að hann sagði af sér og tók þá við af hon-

11) Sbr. æfiminning hennar, Lögberg 2. maí 1918.

um séra Guðmundur Árnason, er lesið hafði guðfræði við prestaskólann í Meadville og Berlínarháskóla á Þýzkalandi. Þjónaði hann söfnuðinum til ágústmánaðarloka 1915, að séra Rögnvaldur tók við að nýju, og hefir hann verið prestur safnaðarins síðan. Öll starfsemi safnaðarins hefir jafnan farið fram á Íslenzku.

Sumarið 1904 seldi söfnuðurinn kirkju sína og kom sér upp annari, er stendur við Sargent og Sherbrooke stræti. Var smíði þeirri lokið og kirkjan vígð haustið 1905. Er það myndarlegt hús, grunnurinn úr steini og kirkjan sjálf úr múrsteini, og var önnur dýrasta kirkjan, er Íslendingar höfðu reisa látið fram til þess tíma. Sunnudagaskóli hefir jafnan staðið við söfnuðinn og öll kensla farið fram á Íslenzku. Haustið 1906 var stofnað fyrirlestrafélag við söfnuðinn, er síðar var nefnt "Menningarfélag", eftir hinu forna "Menningarfélagi" í Dakota, er það var sniðið eftir. Fyrir félagsstofnun þessari gengust aðallega Skafti B. Brynjólfsson (er áður er getið; voru þau hjón þá flutt til Winnipeg og sezt þar að); Dr. Þorbergur Þorvaldsson (frá Hofdölum í Skagafirði, Þorvaldssonar, nú kennari við háskóla Saskatchewanfylkis í Saskatoon); Hannes Pétursson (frá Ytribrekkum í Blönduhlíð í Skagafirði, Björnssonar); Stefán (Þórðarson) Thorson, (Jónssonar frá Bryggju í Biskupstungum), og fleiri, er eigi þýðir að tilgreina. Stofnun félagsins var fyrst hreyft á safnaðarfundi eftir messu 7. okt 1906. Var þar skipuð þriggja manna nefnd til þess að semja frumvarp til grundvallarlaga. Í nefndina voru skipaðir S. B. Brynjólfsson, Þorb. Thorvaldsson og Rögnv. Pétursson. Hélt nefndin fund með sér að heimili S. B. Brynjólfssonar hinn 10. s. m. og kvað svo á, að í félaginu gætu allir staðið, hverra kirkjulegra skoðana sem væri. Tilgangsgreinin hljóðaði svo: "Að afla þekkingar og auka víðsýni". Er félagið svo stofnað 21. okt. og nefnt "Ungmennafélag", en margir voru eigi ánægðir með nafnið. Í félaginu stóðu karlar og konur, jafnt eldri sem yngri. Til forseta var kosinn Sakfti B. Brynjólfsson, varaforseta Hannes Pétursson, skrifara-féhirðis Þorb. Thorvaldsson. Fundir voru ákveðnir hálfsmánaðarlega frá 1. okt. til 1. júní ár hvert, og skyldu fyrirlestrar fluttir á hverjum fundi, er því yrði við komið, um eitthvert fræðandi efni, af þar til kjörnum ræðumönnum er nefndin hefði til þess fengið. Á öðrum fundi er félagsnafninu breytt og það nefnt "Menningarfélag". Var bent á af uppástungumanni, að það nafn ætti bezt við. Væri forseti félagsins hinn sami og verið hefði forseti hins gamla "Menningarfélags", tilgangur félagsins hinn sami og það laust við öll flokkamál, eins og hitt hefði verið. Félagið var starfandi í níu ár, og á þeim tíma hafði það gengist fyrir því, að fluttir voru um 80 fyrirlestrar um ýms efni, þar með talin tvö minningarerindi um þá meistara Eirík Magnússon bókavörð í Cambridge á Englandi (1. febr. 1913) og skáldið Þorstein Erlíngsson (25. nóv. 1914). Fyrirlestrasamkomur þessar stóðu ávalt opnar almenningi án endurgjalds, og umræður voru leyfðar að loknum fyrirlestrunum. Útdrátt fyrirlestranna fluttu blöðin íslenzku jafnan í vikunni næstu á eftir. Alls fluttu erindi á fundum félagsins 38 manns; þar

af voru 9 prestar, 4 læknar, 4 blaðamenn, 3 háskólakennarar, 4 háskólastúdentar, 4 verzlunarmenn, 5 handverksmenn, 2 bændur, 2 verkamannaleiðtogar, 1 lögfræðingur. Öll voru erindin flutt á íslenzku, nema fjögur, að fyrirlesarar voru enskir. Félagið hafði víðtæk áhrif í þjóðlega átt, og dró úr flokkaríg með því að stefna saman mönnum af ólíkum skoðunum. Með viðkynningunni dró til samvinnu í ýmsum efnum. Forsetar félagsins voru: S. B. Brynjólfsson (1906—'8, 1910—'14), Stefán Thorson (1908—'10); skrifarar: Þorb. Thorvaldsson (1906—'8), Eggert Árnason (1908—'9), Friðrik Sveinsson (1910—'15); féhirðar: Hannes Pétursson (1906—'10, 1912, 1913), Eggert J. Árnason (1910—'12), G. J. Goodmundsson (1913—'15), og varaforsetar: Páll M. Clements og Stephen Thorson.

Sumarið 1910 var farið að hreyfa því, að á næstkomandi ári væru liðin hundrað ár frá fæðingu Jóns Sigurðssonar, forsetans fræga. Vildu blaðamenn, einkum í Reykjavík, að þess væri minst á viðeigandi hátt, annaðhvort með því að reisa honum minnisvarða, eða koma á fót einhverri stofnun til minningar um hann. Ýmsar tillögur komu fram; mæltu sumir með stofnun sjóðs, aðrir að reist væri einhver vegleg bygging til almennra nota og enn aðrir að honum væri settur minnisvarði. Eigi urðu menn á eitt sáttir um þetta. — Fór nokkuð á sama veg vestan hafsins. Einn vildi stofna minningarsjóð, annar skóla, einn spítala, annar þjóðminjasafn, og enn nokkrir að rituð væri saga landsins og gefin út. Allir vildu láta minnast aldar-afmælisins en sinn með hverju móti. Fleiri voru þó með þeirri uppástungunni að stofna sjóð; fanst þeim hyggilegt að hafa saman peninga, þá mætti ávalt nota

Leið þannig fram til hausts, að ekkert var gert annað en að ræða þetta fram og aftur. Raddir létu til sín heyra í Rvíkurblöðunum og bárust vestur, að alt væri að verða um seinan, búið væri að eyða öllu sumrinu í ráðagerðir og ekkert farið að gera, engin framkvæmdarnefnd skipuð, engin samskot hafin, yrði mininsvarðanum því eigi komið upp fyrir aldar-afmælið,[12]) þrátt fyrir það þó fyrir hendi væru um 5000 krónur frá eldri minnisvarðasamskotum, er safnað hafði verið 30 árum fyr, þegar steinninn var settur á leiði Jóns í kirkjugarði Rvíkur.

Á fyrsta stjórnarnefndarfundi "Menningarfélagsins" þá um haustið, er haldinn var um miðjan október, var vakið máls á því, að þar sem líkur væru til að aldarafmælis Jóns Sigurðssonar yrði minst á Íslandi á næstkomandi sumri, væri viðeigandi að Íslendingar vestan hafs sætu þar eigi hjá, heldur styddu að því eftir mætti, svo þátttaka þjóðarinnar gæti orðið sem almennust. Var bent á, að mál þetta heyrði undir verkahring félagsins. Bent var á, að afskiftin gætu helzt orðið á þann hátt, að safnað væri fé til minnisvarðans, er talað væri um að reisa; væri helzt að skilja á ýmsu, sem ritað væri, að fjárþröng myndi verða því

12) "Og nú erum við alveg óundirbúnir með varðann þann, og ekki nema hálft ár til hundrað ára afmælis hans. — Ekki einu orði eyðandi til að andmæla þeim barnaskap, að koma líkneskinu upp að vori": Nýtt Kirkjublað 5. árg., 1. des. 1910, bls. 275

fyrirtæki að fótakefli. Talað var þá um að leita samskota innan bæjarins, en eigi komist að fastri niðurstöðu. Nokkru seinna barst þetta mál í tal aftur að heimili Kristins skálds Stefánssonar. Áleit hann, að það væri fjarri lagi, að fara að safna smágjöfum meðal einhverra í bænum. Með því mundi eigi hafast upp fé, er nokkru munaði. Vildi hann, að fundnir væru ýmsir menn að máli og þeir fengnir til, hver um sig fyrir hönd síns félagsskapar, að ljá þessu fylgi, og í sameiningu að standa fyrir almennum samskotum. Var þá búin til skrá yfir nöfn þessara manna, er sjálfsagðast þótti að finna og áttu þá afstöðu, að líklegastir voru taldir til þess að geta vakið almennan áhuga fyrir málinu. Var álitið sjálfsagðast, að "Menningarfélagið" gengist fyrir þessu. Þá var og ráðgert, að heppilegast myndi vera, að fá menn þessa til þess að boða til almenns fundar; væri svo kosin á þeim fundi framkvæmdarnefnd, er svo gengist fyrir samskotunum. Var nú málið tekið fyrir aftur að nýju, þannig undirbúið, á stjórnarnefndarfundi félagsins, og sambykt að fara með það, sem þegar hafði verið ráð fyrir gert. Samdi einn nefndarmanna fundar boðið, en þrír menn voru fengnir til að fara með það um, forseti félagsins S. B. Brynjólfsson, varaforseti Stephen Thorson og Kristinn Stefánsson, er eigi var í nefndinni, og safna undirskriftum. Fengust þær fljótt. Var svo til fundar boðað í Hkr. og Lögb. 24. nóv. á þessa leið:

"Með því að á næstkomandi sumri eru liðin 100 ár frá fæðingu Jóns Sigurðssonar Alþingisforseta, og með því að því hefir verið hreyft meðal landa vorra heima á Íslandi, að minnast þessa atburðar með því að reisa honum viðeigandi minnisvarða, finst oss undirrituðum, að það mál ætt að taka til vor Íslendinga hér í álfu. Viljum vér því, undirritaðir Íslendingar í Winnipegborg hér með biðja alla íslenzka menn og konur innan þessa bæjar, er enn láta sig nokkru varða velferðarmál þjóðar vorrar að mæta á almennum fundi í Templarasalnum að kvöldi mánudagsins 28. nóv 1910, til þes sað ákveða þar, hver þátttaka vor hér vestra skuli vera í máli þessu, er hreyft hefir verið meðal bræðra vorra heima.

Dagsett í Winnipeg, Man., 19. nóvember 1910.

Jón Bjarnason.
R. Marteinsson.
Árni Eggertsson.
Eggert Jóhannsson.
Líndal Hallgrímsson.
Bergsveinn M. Long.
Friðjón Friðriksson.
J. B. Skaptason.
Kristinn Stefánsson.
Stephen Thorson.
S. B. Brynjólfsson.
Ólafur S. Thorgeirsson.
B. L. Baldwinson.
Stefán Björnsson.
Thos. H. Johnson.
B. J. Brandson.
Ó. Stephensen.
Ó. Björnsson.
F. J. Bergmann.
Guðm. Árnason.
Baldur Sveinsson.
Hjálmar A. Bergman."

Fyrir fundinn áttu svo þessir allir fund með sér til undirbúnings 26. s. m.

og var þar verkum skift þannig, að séra Jón Bjarnason var beðinn að flytja ræðu um Jón Sigurðsson á almenna fundinum og lýsa æfistarfi hans, Skapti B. Brynjólfsson skora á fundarmenn til samtaka um þetta mál og bera fram tillögu þess efnis.

Fundurinn mátti heita vel sóttur. Fundarstjóri var kosinn Stephen Thorson, en skrifari Baldvin L. Baldwinson. Séra Jón hélt þar langa og ágæta ræðu um forsetann gamla, lýsti honum í sjón og viðmóti, gat hins helzta í æfistarfi hans; og að lokinni ræðunni, bar Skapti B. Brynjólfsson fram svolátandi fundarályktun og rökstuddi hana með ágætri ræðu:

"1. Fundurinn ályktar, að Vestur-Íslendingum beri skylda til þess, að taka sómasamlegan þátt í þeirri hreyfingu, sem nú er orðin á Íslandi, til þess að minnast með þakklæti og virðingu æfistarfs þess manns, sem mest vann í þarfir lands og þjóðar allra þeirra er nokkru sinni hafa fæðst með þjóðinni.

2. Að hlutfallslega við tölu vora hér vestra beri oss Íslendingum að leggja af mörkum til þessa fyrirtækis tíu þúsund krónur.

3. Að kosin sé 15 manna nefnd til þess að standa fyrir fjársöfnun þessari meðal Vestur-Íslendinga, er svo af hendi þetta fé í umsjá þeirra manna á Íslandi, er framkvæmdir hafa á hendi í minnisvarðamálinu."

Ræðumaður gat þess að aðaláherzlan skyldi lögð á það, að hvert einasta mannsbarn meðal Vestur-Íslendinga tæki þátt í þessum samskotum, væri það tilganginum samboðnara en þó einhverjir gæfu stórar upphæðir, en aðrir aftur ekkert. Tillagan var samþykt í einu hljóði. Og samkvæmt bendingu uppástungumanns, varð það álit ofan á meðal fundarmanna, að leita skyldi eftir sem almennastri þátttöku, og eigi farið fram á, að gefin væri af hverjum stærri upphæð en einn dollar. Tillaga frá T. H. Johnson var samþykt, að í stað þess að fundurinn gengi til atkvæða um að kjósa fimtán menn í nefnd, væri forseta falið að nefna fimm menn í nefnd, er svo aftur nefndu til fimtán menn í nefnd þá, er samþykt hefði verið að skipa. Eftir kjöri þessara fimm manna voru þessir því næst tilnefndir:

Séra Jón Bjarnason.
Séra Friðr. J. Bergmann.
Séra Guðm. Árnason.
Stefán Björnsson.
Dr. B. J. Brandson.
Friðjón Friðriksson.
Árni Eggertsson.
Ólafur S. Thorgeirsson.
Skapti B. Brynjólfsson.
Thos. H. Johnson.
B. L. Baldwinson.
Dr. Ólafur Stephensen.
Sveinn Brynjólfsson.
Jón J. Vopni.

Nefnd þessi hélt svo fund föstudagskvöldið 2. des., og skipaði þannig embættum hjá sér, að séra Jón Bjarnason var kosinn forseti, Skapti B. Brynjólfsson féhirðir og séra Guðm. Árnason skrifari. Var svo tilkynning send til Reykjavíkur, hversu máli þessu væri komið vestra, og virðist sem það hafi þá þegar komið af stað kosningu nefndar þar, er skipuð var hinum ágætustu mönnum.

Fjársöfnunin gekk vel. Nefndin

birti **"Áskorun"** í báðum vikublöðunum (12. des.) og hét á alla Íslendinga bæði nær og fjær að bregða við bæði fljótt og vel. "Vér leyfum oss hér með að **skora á alla Vestur-Íslendinga, konur jafnt sem karla, unga sem gamla,** að leggja eitthvað af mörkum til þessa fyrirtækis. Jóni Sigurðssyni, öllum öðrum framar, á þjóðin að þakka hið vaxandi sjálfstæði sitt. Með óþreytandi þreka og óbilandi staðfestu vann hann að framför hennar. Einkis manns minningu er þjóðinni jafn skylt að halda á lofti." Áskorunin getur þess, að safna þurfi til þessa fyrirtækis tíu þúsund krónum, því minna verði eigi talinn hæfilegur skerfur Íslendinga vestan hafs, en með því að nauðsyn beri til að samskotin verði sem allra almennust, "biður nefndin engan einstakling um hærri upphæð en einn dollar né lægri en tíu cents". Þá er og þess krafist, að öll samskot verði komin í hendur féhirðis fyrir 15. marz næstk.

Sem eðlilegt var, féll mestur hluti nefndarstarfsins á þá þrjá nefndarmennina, er embættin skipuðu, þótt lang-mesta starfið kæmi á féhirði einan, er halda þurfti bók yfir nöfn allra gefenda og svo færa til reiknings hverja upphæð og kvitta fyrir með birtingu í blöðunum. Svo ótt bárust honum bréfin, að oft sat hann við allan daginn að innfæra gefendaskrárnar, og gera afrit af þeim fyrir blöðin. En það verk var unnið af ljúfum huga. Þá voru og fundahöld tíð. Starf forseta var að kveðja til þeirra funda, er halda þurfti og sitja þá, hversu sem á stóð, og er þess gerðist þörf, að rita um málið og hvetja menn til þess að sjá svo sóma sinn, að víkjast eigi undan skyldunni sjálfsögðustu, að minnast mætasta mannsins, "er oss er ímynd þess, sem ágætast er í sögu og eðli Íslands". Og þótt heilsu séra Jóns væri þá tekið að hnigna, lagði hann á sig mörg ómök til þess að minna landa sína og meðborgara á þá skyldu. Þar sem hann var staddur á mannamótum, hvatti hann til hins sama, og þá jafnast með kröftugum orðum. Samverkið varð því margt milli forsetans og féhirðisins, mannanna tveggja, er höfuð-málsvarar voru andlegu skoðananna tveggja, er skift höfðu Íslendingum í tvo flokka strax á fyrstu árum. Og með samverkinu óx viðkynningin, og með viðkynningunni hlýnaði hugur þeirra hvors til annars, svo að til fullkomins vinskapar dró, sem hélzt meðan þeir lifðu báðir, en þeir önduðust báðir á sama ári, séra Jón Bjarnason í júní, sem áður er sagt, en Skapti Brynjólfsson um haustið (21. des. 1914). Svo er sagt, að samskotin til minnisvarðans og það sem þeim var samfara, og rætt var og ritað um það mál, hafi fremur en alt annað, er efnt hefir verið til meðal Íslendinga vestra fyr eða síðar, dregið hugi þeirra saman, eytt sundrung og flokkadrætti og vakið hjá þeim þjóðlegan metnað og örvað hina þjóðernislegu meðvitund þeirra. Um að heiðra minningu Jóns Sigurðssonar gátu allir sameinast. Hann var ímynd þess bezta, sem þjóðin hafði eignast, og þar voru allir eitt.

Lýsir þetta sér í ávarpi því, er séra Jón Bjarnason samdi og nefndarmenn sendu með samskotafénu til Tryggva Gunnarssonar, er formaður var minnisvarðanefndarinnar á Íslandi, og hljóðar svo:

Winnipeg 30. maí 1911.
Hátt. vin, hr. Tryggvi Gunnarsson!
form. í nefndinni út af minnisvarða Jóns Sigurðssonar, og þér hinir kærir bræðr í þeiri nefnd.
Reykjavík.

Jafnframt því, er vér sendum yðr nú fé það, sem fólk af þjóðflokki vorum hér í Vesturheimi hefir skotið saman til minnisvarða Jóns Sigurðssonar, leyfum vér oss að ávarpa yður nokkrum orðum, og í gegnum yðr Íslendinga í heild sinni heima á Fróni.

Hjartanlega þökk frá oss hafi þeir, sem gengust fyrir því, að almenningr íslenzkrar þjóðar kæmi upp minnismarki þessu. Að vera með í því fyrirtæki fanst oss Vestr-Íslendingum óðar sjálfsagt. Hinn hlýi hugr, er vér ósjálfrátt berum til átthaganna heima, glæddist við það að miklum mun. Um ekkert mál hefir fólk vort hér af íslenzku bergi brotið eins vel sameinast og þetta. Það hefir dregið oss hér í hinni miklu dreifing saman. Vér erum nú nær hverjir öðrum en áðr. Og vér erum fastar bundnir við Ísland, og það, sem bezt er í þjóðernislegum arfi vorum.

Jón Sigurðsson er oss ímynd þess, sem ágætast er í sögu og eðli Íslands. Í persónu hans hefir íslenzk ættjarðarást birzt í fegurstri og fullkomnastri mynd.

Landi og lýð til viðreisnar varpaði hann sér út í baráttu þá, er vér dáumst því meir að, er vér virðum hana lengr fyrir oss. Frá upphafi var hann ákveðinn í því a l d r e i a ð v í k j a og framfylgdi þeim ásetningi með drengskap og óbilandi hugrekki alt til æfiloka. Lét hvergi þokast frá því, sem í augum hans var satt og rétt, hversu miklum andróðri og óvinsældum sem hann yrði að sæta fyrir bragðið. Sýndi sömu einurð í því að setja sig, þá því var að skifta, upp á móti öfugu almenningsáliti — óröksstuddum tilfinningum íslenzkrar alþýðu — eins og á móti heimsku og ranglæti hins erlenda stjórnarvalds. Ólíkur öllum þeim, er að fornu og nýju eru að olnboga sig áfram til eiginna hagsmuna, persónulegrar upphefðar. Óeigingirnin frábær. Öllum hæfari í hæztu embættisstöðu og þar eins og sjálfkjörinn fyrir sakir einstaklegra yfirburða og meðfædds höfðingsskapar, hafnar hann þeim hlunnindum, til þess í erfiðum lífskjörum og örbirgð, að geta öllum óháðr unnið að velferð þjóðar sinnar eftir bjargfastri sannfæring sinni æfilangt.

Oss hefir verið það jafn ljúft, sem oss var það skylt, að leggja vorn skerf til þess að Jóni Sigurðssyni væri reistr veglegr minnisvarði, til þess að glæða sanna föðrlandsást hjá Íslendingum — og til þess um leið að dæma til dauða það alt, sem þar er þvert á móti.

Minnisvarðinn sé ekki aðeins til þess á þessum tímamótum, þá öld er liðin frá fæðing hans, að heiðra minningu hins mikla manns, heldr einnig, og það öllu öðru fremur, til þess að íslenzk þjóð fái í því minnismerki stöðugt horft á þessa göfugu fyrirmynd sína, sér til frjálsmannlegrar eftirbreytni í baráttu lífsins.

Með minnisvarðanum komi Íslendingum guðlegr innblástr til alls góðs, og sérstaklega ný ættjarðarást, endrfædd, helguð og hreinsuð, fúsleiki til að leggja sjálfa sig fram til fórnar fyrir málefni sannleikans, stefnufesta,

stöðuglyndi, trúmenska, heilagt hugrekki. Og þar með ný öld ljóss og hamingju yfir Ísland!"[13])

Samskotunum var lokið 30. maí, og hafði þá safnast, samkvæmt skýrslu féhirðis, $2806.35, eða kr. 10,415, frá sex þúsund gefendum víðsvegar um alla Ameríku. Var féð sent til Íslands 1. júní. Áleit nefndin þá, að starfi sínu væri lokið. En nokkru áður en féð kom til Reykjavíkur, hafði minnisvarðanefndin þar ákveðið að láta steypa tvær myndir og senda Íslendingum vestra aðra. Var þetta tilkynt með bréfi um leið og kvittað var fyrir sendinguna. Ennfremur skyldi mynd þeirri, er vestur yrði send, fylgja jafnmikil fjárupphæð og kostað hafði fótstallurinn undir myndina, er sett var upp í Reykjavík, eða um kr. 2000. Var nú rætt um það, hvort þiggja skyldi tilboð þetta og urðu skoðanir skiftar. Var því ákveðið að vísa því til almenns fundar og láta almenning þar skera úr. Var fundur þessi boðaður og haldinn í Goodtemplarasalnum hinn 19. október um haustið. Lagði séra Jón Bjarnason þar fram skýrslu um starf nefndarinnar, skýrði frá tilboðinu frá Reykjavík, og óskaði eftir, að einhver ákvæði væru gerð. Kom fyrst til greina, hvort þiggja skyldi tilboðið. Voru ýmsir á því, að ef það gæti eigi talist móðgun við forstöðunefndina í Reykjavík, myndi réttara að Íslendingar vestra tækju eigi við myndinni né peningunum, öðruvísi en svo, að þeir þægi myndina að gjöf og gæfu hana svo aftur til fæðingarstaðar Jóns Sigurðssonar, eða Ísafjarðarkaupstaðar, svo myndin væri eigi send vestur. Eftir nokkrar umræður varð þó hitt álitið ofaná, "að þiggja myndastyttu-tilboð nefndarinnar á Íslandi". Margar tillögur komu þá fram um, hvar setja skyldi myndina. Voru flestir á því, að eigi væri nema um tvo staði að ræða innan Winnipegborgar, en það þótti flestum sjálfsagt, að myndin stæði í Winnipeg, — en það var annaðhvort á völlunum við hinn fyrirhugaða fylkisháskóla eða á fletinum framundan þinghúsi fylkisins. Voru ástæður færðar að því, að hvorn þessara staða sem væri mætti telja samboðinn mynd og minningu Jóns Sigurðssonar, er verið hefði engu síðri fræðimaður en stjórnmálamaður. — Báðir þessir staðir voru nokkuð óákveðnir, því í ráði var hjá fylkisstjórninni, að láta reisa nýtt þinghús, og gat þá eigi til greina komið, að myndin yrði sett þar, fyr en því verki væri lokið, og eins var statt með háskólann. Í ráði var að hann yrði færður út fyrir bæinn, en óákveðið alt með hvenær hinar nýju byggingar kæmust upp. Máli þessu var því vísað til væntanlegrar nefndar, með þeim fyrirmælum, að myndinni yrði komið upp á öðrum hvorum þessum stað, ef samþykki hlutaðeigenda fengist, er talið var víst. En skýrt kom sá vilji fundarins í ljós, að myndin skyldi vera, hvar sem hún yrði sett upp, ævarandi eign Íslendinga og engum gefin eða til umráða fengin, öðrum. Skyldu Íslendingar hafa rétt til að koma þar saman, sem myndin stæði, kveðja þar til fundar, þegar þeim sýndist. Tveir nefndarmanna áttu þá sæti á þingi Manitobafylkis, B. L. Baldwinson úr flokki stjórnarinnar, og Thos. H. Johnson, er var helzti leiðtogi stjórnar-

13) "Hkr." 15. júní 1911, XXV. ár, nr. 38.

andstæðinga (nú dómsmálaráðherra). Töldu þeir báðir víst, að það yrði auðsótt mál, að fá kröfum þessum fullnægt, ef myndin yrði sett á þinghúsflötinn. Fékk B. L. Baldwinson nokkru seinna samþykt stjórnarformannsins fyrir því. Sama nefndin var endurkosin á fundinum, er stóð fyrir samskotunum, með sömu embættaskipun og verið hafði. Var bent á það af S. B. Brynjólfsson og B. L. Baldwinson, og fleirum, að allmiklu fé í viðbót við þær 2000 krónur, myndi þurfa að safna, ef reisa ætti stall undir myndina, er henni væri samboðinn, því öllum fanst að stallur sá, er uppdrátturinn gerði ráð fyrir, vera alt of veigalítill.

Út af samþyktum fundarins er spurðust með blöðunum, voru fundir haldnir í bygðarlögunum ýmsu, til þess að ræða um, hvar myndin skyldi standa. Var fundur boðaður og haldinn að Gimli 8. jan. 1912. Þar varð sem næst einróma álit fundarmanna, að myndin ætti að standa í Gimlibæ. Væri það eina íslenzka þorpið í fylkinu og þess utan fyrsta og elzta landnám Íslendinga í Manitoba. Var kosin 15 manna nefnd, er fara skyldi á fund Winnipegnefndarinnar og krefjast þessa. Áttu nefndirnar fund með sér 30. janúar, en komu sér eigi saman. Áleit Winnipegnefndin, að hinn sjálfkjörni staður myndarinnar væri Winnipegborg, þar sem flestir Íslendingar ættu heima, og myndin væri helzt fyrir allra augsýn, og ákvað svo nokkru seinna, að svo skyldi vera. Urðu nokkrar deilur um þetta, en óánægja eigi mikil, og féll svo það mál niður.

Myndin var send vestur snemma vetrarins, og kom til Winnipeg um miðjan marz. Var henni þá fyrst komið til geymslu, enda enn eigi ákveðið, hvar hún skyldi standa. Var hún flutt á prentsmiðju Lögbergs og komið þar fyrir, og átti að bíða þar þess tíma, að henni yrði komið upp, er eigi var gert ráð fyrir, að orðið gæti á næstkomandi tveimur árum, en að þeim tíma liðnum myndi þinghússmíðinni lokið og eitthvað fastara ákveðið með háskólann, svo velja mætti um stað. En þetta fór nokkuð á annan veg.

Árið 1913 var byrjað á þinghússsmíðinni. Sumarið eftir skall á heimsófriðurinn mikli, er kom í opna skjöldu stjórnendum og þjóð í Canada, er eigi áttu ófriðar von. Í flaustrinu og ráðleysinu, er fylgdi friðslitunum, létu flestir stjórnendur hætta við öll opinber verk, er eigi voru meira en rétt hafin, til þess að spara fé til herkostnaðar. Var þá hætt við þinghússmíðina um stund. Vorið 1915 urðu stjórnarskifti í fylkinu, og lét þá hin nýja stjórn, er til valda kom, hefja rannsókn yfir hinni fráfarandi stjórn út af fjareyðslu í sambandi við ýms opinber fyrirtæki, og þar á meðal verkaveitinguna við hið nýja þinghús. Drógst nú smíðin enn um hríð, og var eigi á henni byrjað fyr en árið 1916. Gekk þá alt seinna, en upphaflega var búist við, og stöfuðu tafir þær af ástandi því í landinu, er stríðið hafði skapað. Var því verkinu eigi lokið fyr en á síðastliðnu vori (1921). Þá fór eigi betur með háskólann. Ekkert varð af því, að reistar yrðu nýjar byggingar fyrir hann, og hefir við það setið til þessa.

Allann þenna tíma beið mynd Jóns Sigurðssonar þess, að hún yrði sett upp. Nefndin sundraðist. Fjórir helztu mennirnir önduðust á þessum

árum, og fjórir hinna, sem eftir lifðu, fluttu allfarnir úr bænum. Eftir voru þá aðeins sjö búsettir í Winnipeg: Árni Eggertsson, Jón J. Vopni, Ó. S. Thorgeirsson, Thos. H. Johnson, B. L. Baldwinson, B. J. Brandson og Ó. Stephensen. Hinir þrír fyrstnefndu höfðu verið smáskipaðir, forseti, féhirðir og skrifari, eftir því sem embættin skarðaði við burtför eða dauða þeirra, er þau skipuðu áður. Hernaðarandinn heltók alt og lamaði allar framkvæmdir, nema þær, er að stríðsmálunum einum lutu. Fundir voru fáir haldnir af nefndarbrotinu, enda lítið hægt að gera, svo almenningur vissi eigi, hvað myndinni leið. Kviknaði þá sú saga árið 1916, er myndin var færð af staðnum, þar sem hún hafði verið lengst, á Lögbergsprentsmiðjunni, að búið væri að eyðileggja hana. Spunnust út af þessu ýmsar sagnir og getgátur. Orti skáldið Guttormur J. Guttormsson um það gamanvísur, er prentaðar voru í ljóðabók hans, sem út kom 1920[14]), en eigi datt orðsveimur þessi niður fyr en myndinni var komið upp.

Eigi löngu eftir að Þjóðræknisfélagið var stofnað, er síðar verður frá skýrt, var því hreyft, að það tæki við myndinni og kæmi henni á þann stað, er almenningi gæfist kostur á að sjá hana. Óánægju var það farið að valda, að myndin hafði nú verið sama sem í jörðu falin í átta ár og enginn fengið að sjá hana. Tilboð kom frá forstöðumanni bæjar-listasafnsins, að taka myndina í geymslu og tryggja gegn skemdum. Sambykt var gerð á þjóðræknisþinginu 1920, eftir till. þáver. forseta minnisvarðanefndarinnar, Árna Eggertssonar, "að félagið taki við myndinni og komi henni fyrir á þeim stað, þar sem almenningi gefist kostur á að sjá hana, að fengnu samþykki minnisvarðanefndarinnar, er leita þurfi leyfis almenns fundar með að afhenda hana". Almenna fundinn átti að boða þá um vorið, en fórst fyrir. Var því málið aftur til umræðu á þingi félagsins 1921. Var þar eftir allmiklar umræður, gerð að mestu leyti hin sama samþykt og árinu áður. Hét forseti nefndarinnar, að boða til almenns fundar. Fundur þessi var svo haldinn 14. marz. Endileg úrslit urðu engin. Forseti skýrði frá, að í sjóði væri hjá nefndinni fé það er fylgt hafði myndastyttunni frá Reykjavík, og numið $522.30; með 6% vöxtum, er það hefði borið síðastliðin 5 ár, væri það nú orðið $668.64, að frádregnum lítillegum kostnaði við að búa svo um myndastyttuna, þar sem hún var geymd síðan hún kom hingað vestur, að eldur og vatn eigi gæti á henni unnið.[15]) Þá gat hann þess, að myndastyttan væri óskemd. Ennfremur, að eftir stæðu aðeins 7 manns í hinni upphaflegu 15 manna nefnd. Vildi hann að bætt væri við nefndina, og hún látin ljúka því verki, er hún upphaflega hafði verið kosin til. Urðu um það mjög skiftar skoðanir. Vildu sumir, að svo væri gert, en aðrir, að málið væri afhent Þjóðræknisfélaginu. Gaf þá nefndarmanna einn þá skýringu, að stjórnarráð Manitoba hefði leyft, að flytja mætti myndina inn í þinghúsið og láta hana standa þar, unz henni yrði komið á stall þar úti á grundinni. Var þá tillaga gerð, borin upp og feld, að nefndinni væri þakk-

14) Bóndadóttir, "Ný þjóðsaga" bls. 54.

15) "Hkr." XXXV. ár., nr. 26.

að starfið. Fóru þá umræður að harðna. Gátu tveir nefndarmanna þess, að almenningi kæmi mál þetta ekki við, og hefði fundur þessi verið boðaður án þess að nefndinni hefði borið til þess nokkur skylda. Var þá tillaga gerð um, að nefndin yrði leyst frá embætti, en fundarstjóri neitaði að bera hana upp og sleit fundi.

Fjórum dögum síðar kom nefndin saman, lét taka upp myndastyttuna og flytja upp í þinghús. Skýrði skrifari nefndarinnar, Ó. S. Thorgeirsson, frá því, með smágrein, er hann birti í báðum íslenzku blöðunum.[16]) Var þess getið, "að ekki sé gert ráð fyrir, að þinghúsvöllurinn verði svo undirbúinn, að minnisvarðinn verði reistur þar á komandi sumri", heldur að öllum líkindum eigi fyr en á komandi ári. Þó fór svo, að þetta varð öllu fljótara. Í júní er búið um myndina þar á þinghússfletinum, undirhleðslu lokið og myndin afhjúpuð þann 17. júní. Við það tækifæri fluttu ræður Thos. H. Johnson dómsmálaráðherra, Dr. B. J. Brandson, er báðir voru í nefndinni, og séra Rún. Marteinsson, ennfremur Sir Jas. A. M. Aikins fylkisstj. Samkoma þessi var auglýst vikunni áður í blöðunum, en fáir eða engir Íslendingar utan bæjar voru þar viðstaddir. Engra samskota var leitað, fótstallurinn hafður af sömu gerð og upphaflegi uppdrátturinn bar með sér og myndin afhent fylkinu að gjöf. Fjarverandi var forseti nefndarinnar. — Myndina afhjúpaði Stefanía leikkona Guðmundsdóttir frá Rvík.

Að lokum komst svo minnisvarðinn upp, og er hin langfegursta og tilkomumesta myndastytta, er reist hefir verið í Winnipeg. Hún stendur í hinum fegursta reit borgarinnar, fram við eina fjölförnustu götuna. Horfir forsetinn gamli austur — austur yfir hinar víðáttumiklu canadísku bygðir og öræfi, austur mót upprennandi sól, út til eyjarinnar fornu í norðursænum. Baki snýr hann við Victoríu hinni Vænu, er situr þar kórónuð á stalli í öllum drotningarskrúða, fyrir hallardyrum, með veldissprotann í annari hendi en ríkishnöttinn í hinni, og horfir þreytulegum augum á uxamerki ríkisins—og þá sem undir því strita. Er nú tilgangi þeim náð, er vakti fyrir þeim, sem að samskotunum stóðu upphaflega, — "að íslenzk þjóð fái horft á fyrirmynd sér til frjálsmannlegrar eftirbreytni í baráttu lífsins".

Hafa Íslendingar aldrei haft vinsælla né þjóðlegra verk með höndum en þetta minnisvarðamál. Sýndi það sig strax í byrjun með þeim undirtektum er það fékk, að safnast skyldi svo að segja af sjálfsdáðum — og fyrirhafnarlítið, á rúmum fimm mánuðum, nær þrjár þúsundir dollara, með eintómum smágjöfum hvarvetna frá, á þrjú þúsund mílna löngu svæði yfir þvera álfuna. En auk þessa fjár, er var mikið og frá mörgum, svo að eigi hafa jafn margir stutt að nokkru fyrirtæki meðal Íslendinga, hafði minnisvarðamál þetta aðra og stærri þýðingu fyrir vestur-íslenzka þjóðarbrotið. Það, sem ritað var og rætt um æfistarf Jóns Sigurðssonar og sjálfstæðiskröfurnar, er hann gerði fyrir þjóðarinnar hönd, kom mörgum til þess að kynna sér sögu landsins, en það leiddi aftur til þjóðernislegrar vakningar. Má enn víða

16) "Hkr." 23. marz 1921. "Lögb.", 24. marz 1921.

finna vott þeirra áhrifa og það meðal yngri kynslóðarinnar.

Vorið (30. maí) 1909 var stofnað Ungmennafélag í sambandi við Únítarasöfnuðinn. Hefir félagsskapur þessi verið eingöngu bundinn við íslenzk ungmenni og fundahöld öll farið fram á Íslenzku. Hefir félagið gengist fyrir því, að sýndir hafa verið sjónleikir á Íslenzku og notið þar aðallega hjálpar Árna Sigurðssonar, er talinn er með beztu íslenzkum leikendum vestan hafs. Vestur flutti hann af Akureyri sumarið 1910. Má telja þessa helzta: "Lénharður fógeti" eftir Einar H. Kvaran (1914), "Heimkoman" eftir H. Suderman (1915), "Iðjuleysinginn" (1917), "Afturgöngur" og "Stoðir samfélagsins" (1916—'18), eftir Henrik Ibsen. Þrjú síðustu ritin lét félagið þýða úr Ensku og Norsku.

Haustið 1915 hafði heimsstyrjöldin staðið yfir rúmt ár. Voru þá margir Íslendingar gengnir í Canadíska herinn og fjöldi þeirra komnir austur um haf til Englands og Frakklands. Byrjað var þá að safna gjöfum til enskra og canadískra hermanna, er austur voru komnir og gengust fyrir því hin og önnur félög innan innlendu safnaðanna í Winnipeg. Vakti þá ungfrú Steinunn Stefánsson (dóttir Jónasar Stefánssonar frá Þverá í Blönduhlíð) máls á því, að hið sama væri gert í þarfir íslenzkra hermanna, og vildi hún að íslenzku ungmennafélögin tækju sig fram um þetta. Hún var þá fregnriti dagblaðsins "The Manitoba Free Press" og því kunnugast, hvernig með þetta skyldi fara. Í Ungmennafélaginu hafði hún staðið frá því það var stofnað. Hreyfði hún máli þessu fyrst við forseta Ungmennafélagsins, Hannes Pétursson, og þau svo bæði við formenn "Bandalaganna" íslenzku, er tóku þessu vel. Voru þá tilnefndir tveir fulltrúar frá hverju félagi í sameiginlega nefnd er hafa skyldi þetta með höndum; frá Bandalagi Fyrsta lúterska safnaðar: Páll (Pálsson Sigurgeirssonar) Bardal, er var forseti Bandalagsins, og ungfrú Aurora (Jónsdóttir) Vopni; frá Tjaldbúðarkirkju: Pétur Thomson og Skúli Bergmann, og frá ungmennafélagi Unitarasafnaðarins: Steinunn Stefánsdóttir og Hannes Pétursson. Forseta kaus nefndin sér Páll Bardal, ritara Steinunni Stefánsson og féhirði Hannes Pétursson. Tók nefndin því næst til starfa. Samkomur voru haldnar til arðs þessu fyrirtæki og safnaðist töluvert fé. Safnað var gjöfum frá einstökum mönnum innan bæjar og frá verkefni og tilgangi nefndarinnar er skýrt með ítarlegri grein, sem birtist í íslenzku blöðunum, er út komu 20. og 21. október. Er þar heitið á fólk alment að styrkja nefndina í þessu verki. Undir greinina eru ritaðir forseti og féhirðir nefndarinnar. Er þess getð, að fólk í hinum innlendu kirkjum í bænum, hafi þá á undanförnum vikum verið að safna af kappi ýmsum smá-nauðsynjavarningi er það ætli sér að senda sem jólaglaðningu til hermanna frá Manitoba, er komnir væru til Evrópu. Vilja þeir ekki, að Íslendingar verði eftirbátar í þessu, en sýni, að þeim taki jafn-sárt til sona sinna og ættingja sem öðrum. Er gert ráð fyrir að útbúa sérstakan böggul fyrir hvern mann og senda með pósti til Englands. Áætlar nefndin, að hver böggull skuli eigi minna nema en tíu dollurum, í sokkaplöggum, vetling-

um, tóbaki og sætindum o. fl., og sé þó ótalið burðargjald. Eru íslenzkir kaupmenn beðnir að senda nefndinni vetlinga, sokka og annað þess háttar, er eigi fáist lengur keypt í bæjarverzlunum og lofast hún til að borga það fullu verði. Er þess og getið, að hraða þurfi þessum gjafasendingum, ef þær eigi að komast í hendur móttakenda fyrir jól. Skorað er á almenning, að senda svo fljótt sem auðið er til ungfrú Steinunnar Stefánsson nöfn og áritan allra íslenzkra hermanna, er komnir eru austur um haf, svo enginn verði eftir skilinn. Þá er og fólk beðið að gefa til þessa fyrirtækis, ullarsokka, vetlinga, trefla og annað þesshátttar, er komið geti þeim mönnum vel er úti þurfi að vera, hverju sem viðrar; ennfremur peninga, þeir sem það vilja, því kaupa þurfi margt, er fari til þessara jólagjafa. Gert er ráð fyrir, að eigi verði gjafabögglarnir færri en hundrað, því að um hundrað Íslendingar muni austur farnir. Máli þessu var vel tekið og greiðlega, svo að á skömmum tíma var alt fengið, er um var beðið — og allnokkurt fé umfram. Var þetta upphafið að hinni miklu fjársöfnun í þarfir íslenzkra hermanna er eftir þetta var höfð á ári hverju meðan ófriðurinn stóð. Fyrir sameinuðu nefndinni vakti aðeins það eitt, að hinum burtförnu hermönnum væri sýnd þjóðleg ræktarsemi, og þeir eigi gerðir varskiftir, er öðrum væri sómi sýndur og vinarþel. Fé það, sem afgangs var, lögðu þeir forseti og féhirðir inn á banka. Hafði forstöðunefndin um tíma í huga að efna til sjóðs til styrktar þeim, er til baka kæmu úr stríðinu, fatlaðir eða særðir. Var þá eigi búist við, að ófriðurinn héldist jafn lengi og raun varð á. En síðar var frá því horfið, enda ekkert gert til þess, að auka sjóðinn. Ótal félög voru stofnuð með líku markmiði, og peningarnir, $98.60, fengnir í hendur einu þeirra — "Jón Sigurðssonar" félaginu, er var öflugast og fjölmennast, og hafði almennastan tilgang.

Frá því hefir áður verið sagt, að efnahagur var þröngur framan af árum; áttu fæstir mikið afgangs ferðakostnaði, er vestur fluttust, en það, sem til var, vildi fljótlega ganga til þurðar. Treystu flestir á það, að fá unnið fyrir sér og sínum, ef heilsan ekki bilaði, þegar komið væri í allsnægtalandið. Trúin á mátt og megin var mikil og traust og jafnsterk lífshvötinni sjálfri. Með því helzta, sem dró menn til Winnipeg á þeim árum, var vinnan. Þótt bærinn væri smár, þá var hann þó í uppgangi, og þar var því fremur atvinnu að vænta en úti í óbygðunum. En vinnan, er innflytjandanum stóð til boða, var helzt sú, er aðrir vildu eigi gera, er nokkurs máttu sín, erfið og illa launuð, vinnutíminn langur og rekið óspart á eftir. En svo rak þörfin á eftir líka, og oft vægðarlausara en verkstjórinn. Til vinnunnar kunnu menn lítið og notuðu verkveitendur það sér í hag. Flestir kunnu þó að moka, moka mold og aur, það höfðu þeir gert á Íslandi stöku sinnum, og að bera á öxlinni klyfjar af kalki eða múrsteini, til þess þurfti ekkert nema krafta, en þá höfðu margir í sæmilegum mæli. Atvinnugreinarnar helztu, er til boða stóðu, voru skurðgröftur og aurrennulagningar í strætum borgarinnar, og stein- og kalkburður við stórhýsasmíðar. Vinna

þessi stóð vanalegast yfir sumarmánuðina, því veðráttan að vetrinum leyfði hana ekki, og var hún að því skapi örðugri sem menn þoldu ver hitann. Verst var þó vinnan við stórbyggingarnar, að standa hálfboginn yfir skóflum í steikjandi sólarhitanum og hræra saman sandinn og kalkið í vegglímið, eða roga því á öxlinni upp margar mannhæðir. Það tók á þá, sem þollitlir voru. Eina bótin, að þetta var aðeins til bráðabyrgða, meðan verið var að átta sig, kynnast og koma sér fyrir, meðan verið var að komast upp á lagið með að vinna önnur verk geðfeldari, léttari og betur launuð. Smákvæði eftir skáldið. J. Magnús Bjarnason, ort um þetta leyti, lýsir mæta vel, hversu menn fundu til þessarar áþjánar, og hversu þeim var í skapi yfir því, að þurfa að vera til neyddir sökum efnaleysis og vanþekkingar, að gera öll verstu verkin:

"Hann lifir, til að moka, og mokar,
og mokar til þess að lifa,
en erfiðið þyngist og þyngist,
og þungt gerist rekunni að bifa.

Þó taugar hans togni og hnýti
og trautt hann á fótunum standi,
skal hann samt moka og moka
mold og leðju og sandi.

En hví skal hann moka og moka
mold og leðju og sandi?
Því hann er fjölskyldufaðir,
framandi í ókunnu landi."

En það eðlilega fylgdi því, að vera framandi og fákunnandi, að í hlutskifti þeirra féllu þau verkin, er minsta kunnáttu útheimtu og erfiðust voru. "En þeir ólust þó upp yfir jörð, þessir menn". Það lyfti þeim upp úr gröfunum. Var því spáð um það leyti af skáldinu, að sá tími kæmi, að þeir mundu ekki hlýta þeirri verkaskiftingu að til lengdar myndu þeir eigi þola að búa á álna dýpi fyrir neðan yfirborð jarðar. "Þeir þola ekki að kviksetjast, klóra sig upp úr kreppunni og skurðunum senn." En langt virtist það eiga í land. En tíminn kom, og jafnvel fljótar en varði, og er nú orðið langt síðan, að hinir síðustu hurfu úr lokræsunum og stigu upp á yfirborð jarðar. Heyrist nú á rússnesku eða Rómversku mælt niðri í jörðinni, en oft bar það við áður, að þaðan heyrðust koma íslenzk orð og eigi áherzlulaus.

Með þeim málum, sem blöðin íslenzku brýndu hvað mest fyrir mönnum á fyrstu árunum, var að verkamenn mynduðu samtök sín á meðal, til sóknar og styrktar í atvinnuleitinni. Einkum var það Eggert Jóhannsson, er um þetta ritaði, og benti á, hvílík nauðsyn þetta væri. Eru margar ritgerðir eftir hann um þetta efni í Heimskringlu á árunum 1887—'90. En eigi var jafn auðvelt og virðast mátti, að stofna þannig lagaðan félagsskap. Ef þörfin hefði verið meiri eftir verkamönnum hjá verkveitendum en vinnuþörfin var hjá vinnuleitendum, hefði verið öðru máli að gegna. En því var ekki að heilsa. Atvinna var rýr og og lítið að fá að gera frá 1883 til aldamóta. Taka varð þeirri vinnu, sem bauðst, og jafnvel á því kaupgjaldi, sem boðið var, hvort sanngjarnt var eður eigi. Það var eigi til hugsandi, að kaupgjald fengist hækkað að mun, meðan svo stóð. En

hitt mátti takast, að menn fylgdust að, þegar um vinnu var að ræða svo allir sætu að sömu kjörum. — Með því augnamiði er því farið af stað með félagsmyndun við ársbyrjun 1890. Gengust fyrir því örfáir menn í fyrstu — um tólf manns. Þar á meðal Gunnar Árnason frá Leirá í Borgarfirði, Jóhannes Jósephsson úr Leirársveit syðra, Jóhannes Gottskálksson af Tjörnesi í Suður-Þingeyjarsýslu, Sigurður Árnason frá Höfnum í Húnaþingi, Böðvar Gíslason úr Laxárdal í Dalasýslu. — Bráðabirgðastjórn er kosin, Sigurður Árnason forseti og Böðvar Gíslason skrifari. Boða þeir svo til almenns fundar 3. apríl 1890 í Íslendingafélagshúsinu. Skorað er á verkamenn að koma og ganga í félagið. Skýrt er frá, að kosin verði stjórnarnefnd fyrir næstkomandi ár. Á fundinum er þess getið, að innritaðir séu um 60 manns. Forseti er kosinn Eiríkur Sumarliðason (úr Borgarfirði, þá fyrir stuttu kominn til Winnipeg), Sigurður Árnason skrifari, Böðvar Gíslason féhirðir, en fulltrúi í hið sameinaða ráð iðnaðar- og handverksmanna í Winnipeg ("Trades and Labor Council of Winnipeg") Jón Júlíus. Reglugerð er samþykt fyrir félagið. Er það með öllu óhátt innlendum félögum af samskonar tagi, og í því fá staðið aðeins þeir Íslendingar, er stunda daglaunavinnu og teljast til erfiðismanna. Gjöld eru lögð á hvern félagsmann, 10c á mánuði hverjum, og skulu fundir haldnir aðrahvora viku. — Eigi getur félagsins fyr en um haustið, að það boðar til fundar 22. nóvember, til þess að ræða um, hvort eigi sé gerlegt, að fá einhvern Íslending til þess að taka útnefningu og sækja um kosningu í bæjarráðið. Fyrir kjöri fundarins varð Árni kaupmaður Friðriksson, er áður hafði setið í bæjarráði, en taldist undan. Var svo enginn tilnefndur, en mikið rætt um, að Íslendingar þyrftu að hafa þar forsvarsmann. Frá því var skýrt á fundinum, að lítil von væri til að komið yrði Íslendingi í þessa stöðu, því menn hefðu vanrækt að komast á kjörskrá og ekki nema lítill hluti skrásettur. Var þá skipuð nefnd til þess að fá þetta leiðrétt. Sumarið eftir var meira um vinnu en verið hafði. Var þá verið að reisa hið mikla gistihús Norður Kyrrahafs járnbrautarfélagsins (Manitoba Hotel og Nor. Pac. Terminals, — brann veturinn 1898). Þá var og grafið hið mikla lokræsi á Colony St., og hlaðið innan með múrseini. Fyrir verki því stóð félag, er nefnist Thos. Kelly & Sons. Voru þeir feðgar írskir og þóttu fremur knífnir og vinuharðir. Fjöldi Íslendinga vann hjá þeim. Stóð þá Verkamannafélagið í mestum blóma. Félaginu höfðu bæzt margir talsmenn, þar á meðal Gestur Pálsson ritstjóri o. fl. Var það eigi sem bezt í samræmi við lög félagsins, þótt eigi sé al-fjarri að skoða ritstjóra sem erfiðismenn. Missætti varð með Kelly og félagsmönnum út af kaupgjaldi, er mönnum þótti of lágt. Gerðu Íslendingar því verkfall hinn 21. júlí og kröfðust hærri launa. Er þetta hið fyrsta verkfall, sem þeir hafa gert svo sögur fari af. Fóru þeir að öllu með spekt, en svo vel héldu þeir saman, að eigi tókst Kelly að sundra þeim, né með fagurmælum að fá nokkra til að byrja á verki fyr en öllum var heitið launaviðbótinni og vinnunni. Í félaginu stóðu þá um 150 manns. Til

milligangara valdi félagið Jón Júlíus, og að þrem dögum liðnum var verkfallinu lokið; verkamenn unnið sigur og fengið það, sem fram á var farið. Úr félagssjóði var hverjum félagsmanni goldið kaup meðan á þrefi þessu stóð, $5.00 fyrir allan tímann. Deilur spunnust út af ýmsum ráðstöfunum er félagsstjórnin gerði meðan á verkfallinu stóð, og var einkum ráðist á forseta félagsins, Jón Júlíus, en fyrir hans hönd og stjórnarnefndarinnar svöruðu Gestur ritstj. Pálsson, Stephen Thorson, er þá var ritari félagsins, og Magnús Þorvarðarson. Virtust kærurnar á litlu bygðar og mest út af lítilfjörlegum fjárveitingum til þeirra, er gengu á milli um launasamninga.

Árið 1891 og '92 bætast félaginu enn nýir kraftar; gengu þá í félagið Jón J. Bíldfell (nú ritstjóri Lögbergs), Jóhann Bjarnason (nú prestur við Árborg), Benedikt Frímannsson frá Vatnsenda í Húnaþingi, Þorbergur Fjeldsted frá Hvítárvöllum í Borgarfirði o. fl. Vorið 1893 ráðast nokkrir félagsmenn í vinnu við skurðgröft austur á Rauðárbakka, á svonefndum Douglas-tanga. Var grafinn skurður frá hveitimylnu Ogilvie-félagsins og ofan í á. Þetta var síðla í marzmánuði. Skurðurinn var djúpur og jörð frosin nema í grend við mylnuna. Verkstjórn og vinnu-umboð hafði írskur maður, er Lee hét. Eigi hafði hann látið gera innan í skurðinn, svo hættulaus væri. Hinn 6. apríl vildi svo það slys til, að skurðurinn hljóp saman yfir fjóra Íslendinga og einn enskan mann, er niðri voru. Voru þeir grafnir upp, en þá var einn Íslendingurinn dáinn, Benjamín Jónsson, Jónssonar prests í Reykjahlíð, en þrír svo meiddir, að flytja varð samstundis á sjúkrahús bæjarins: Helgi Eggertsson, ungur maður um tvítugt, er andaðist þar innan fárra daga, Árni Þórðarson úr (Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu) og Ólafur Hannesson (úr Húnavatnssýslu). Lét bæjarráðið yfirheyra Lee út af slysi þessu, en engri sekt var lýst á hendur honum af dómnefndinni, en hann talinn sýkn allra saka. Undu Íslendingar hið versta úrslitunum. Var þá forseti félagsins Jón J. Bíldfell. Kvaddi hann til fundar og varð það að samþyktum, að leita laga, ef koma mætti ábyrgð fram á hendur Lee, eða að minsta kosti að neyða hann til að greiða ekkju og börnum Benjamíns, (var kona hans Þuríður Jónsdóttir systir Jóns alþm. Jónssonar frú Múla) einhverjar skaðabætur. Var leitað ráða lögfræðinga, en þeir töldu hæpið, að nokkuð hefðist með lögsókn eftir yfirheyrsluna, er eytt hefði málinu. Nefnd var skipuð til að standa fyrir samskotum: Jón J. Bíldfell, Jóhannes Gottskálksson, Jónas Daníelsson (af Ísafirði), Vagn Eyjólfsson Lund (af Austfjörðum) og Þorb. Fjeldsted. Vakti þetta mikið umtal. Var haft eftir Lee, að það varðaði litlu þó nokkrir Íslendingar féllu úr sögunni, það væri nóg af þeim samt. Um atburð þenna orti Jón Ólafsson, er þá var ritstjóri "Heimskringlu", kvæðið: "Morðið" (Ljóðm. 3. útg., bls. 200).

"Við förum ekki ofan í þessi göng"
—"svo undir eins snáfið þið burt!"
En heima er fjölskyldan þurfandi í
þröng
— en þungt er að hlýða þeim furt.
"Nú burt! — Með ykkur eg ekkert
vil hafa."

— — — það er engin mót voðanum hlíf;
Þeir þögulir halda' o'ní göngin að grafa
og gefa' uppá hættu sitt líf.

Sem berfættir menn eigi að ganga yfir glæður
svo ganga þeir fram — fyrir vesala borgun.
— — —
Svo hrynur alt saman og sumir þeir festast
og sumir þar skerast og beinbrotna og lestast.
Einn þeirra gefur upp andann og deyr
meðan annar er dauðvona grafinn úr leir."

Eftir 1896 fer þeim Íslendingum stöðugt fækkandi er að skurðagreftri vinna. Einn eftir annan hefir sig upp á bakkann unz þeir að lokum komast allir upp. En nokkrir staðnæmast þar og hirða eigi um að fara lengra. Hafa þeir verið settir verkstjórar yfir hinum, sem svo síðar hafa tekið við. Því eftir sem áður heldur vinnan sjálf áfram að vera hlutskifti hins fátæka og framanda, er álútur við rekuna, verður að grafa eftir málsverði sinum og sinna góða grafardýpt ofan í jörðina.

Í félaginu munu hafa staðið, þá flest var, um 150 manns. Eftir 1893 fer að draga úr því. Koma líka upp deilur um það, hvort í sama félaginu skuli standa þeir, sem vinna við jarðgröft, og hinir, er við húsabyggingar vinna. Fanst þeim, er við húsabyggingar unnu, að þeir ættu að hafa félagsskap út af fyrir sig, töldu það hærri stöðu. Kölluðu þeir sig "byggingamenn". Þá munu og nokkrir hafa myndað svonefnt "Byggingarmannafélag". Samkomuhús Íslendingafélagsins (Framfarafélagsins) hafði Verkamannafélagið keypt, stækkað og endurbætt, en gefa varð það frá sér kaupin, er félagsmönnum fækkaði. Síðasta kjörfund heldur félagið vorið 1896. Er Guðgeir Eggertsson kosinn forseti, Guðvaldi Eggertsson ritari og Gunnar Árnason féhirðir. Eru þá fáir eftir. Nokkru seinna er það uppleyst og stóðu þá eftir í því aðeins 6 manns, eða helmingi færri en stofnað höfðu í fyrstu. Voru þá margir félagsmenn fluttir búferlum úr bænum, en hinir, sem eftir sátu, treystust eigi til að halda því uppi lengur, hafa ef til vill síður fundið þá til félagsþarfarinnar en áður fyrri, eftir að atvninubrögð þeirra breyttust og þeir gátu lagt stund á annað. En þótt félagið stæði eigi lengur en þetta, — um átta ár — vann það stórmikið gagn og átti eigi minsta þáttinn í því, að bæta kjör og breyta hag íslenzkra verkamanna. Það aflaði þeim álits og virðingar í augum hinnar innlendu þjóðar. Sýnt var og sannað, að eigi þyrfti að bjóða Íslendingum alt, þótt framandi væru og fákunnandi, og að annar vegur mundi vænni til samkomulags við þá en ætla að þröngva þeim til kosta. Það þroskaði hjá þeim sjálfstæði og vakti hjá þeim virðingu fyrir sjálfum sér, svo að þeir urðu ógjarnari á að smjaðra fyrir verkstjórunum eða færast í vinnudýrahaminn, sem fela virðist all-víða mannsmyndina hjá verkalýð stórborganna.

Frh.

# Vestigia -- eða Sporin

Eftir **Bliss Carman**

---

Að leita guðs mér löngun brann
einn leyfisdag og fann ei hann.
En sem um myrka mörk mig bar,
á milli kletta lilja þar
skein rauð, og—hans eg fótspor fann.

Í einum svip, mér óvænt þá,
úr auðn eg heyrði, er dýpra lá, —
er þröstur úti' í eyðifirð
söng einn í helgri rökkurkyrð —
rödd guðs um loftið líða hjá.

Er undrun fékk mér, hversu hér
sinn himin guð oss opna fer,
eg fann í blæ, sem bærði vart
hjá bekknum espilaufsins skart,
hans hönd strauk blítt um höfuð mér.

Um kvöldið er eg heimför hóf
og heilann um mín námspor gróf
og dulmál óskýrð anda manns —
jeg eygði ljóma af skikkju hans
í dýrð, er síðblik sólar óf.

Er heim kom, tók mig hugsun ný:
eg hlutdeild mætti eiga í því,
að Fegurð verði frelsun þjóð,
og fann við hita af andans glóð,
að guð var sjálfs mín sálu í.

**Jón Runólfsson.**

**Aths.** — Sökum þess, hve kvæði þetta barst oss seint, var ekki hægt að koma því á efnisskrá Tímaritsins. — **Ritstj.**

# Annað ársþing Þjóðræknisfélags Islendinga í Vesturheimi.

---

Það var haldið í Winnipegborg daganna 21., 22. og 23. febr. þ. á., samkvæmt þingboði því, er blöðin höfðu flutt. Þingið setti forseti félagsins, Rögnv. Pétursson, í Goodtemplarahúsinu kl. 2 e. h. hins fyrsta dags. Var fyrst sunginn sálmurinn: "Ó, blessa, guð, vort feðrafrón". Síðan flutti séra Albert Kristjánsson, þingmaður fyrir St. George kjördæmið, stutta bæn.

Las þá ritari, Dr. Sig. Júl. Jóhannesson, þingboð, og forseti auglýsti, að skýrslur embættismanna yrðu fram lagðar. Á meðan á því stóð, og síðar, rituðu flestir fundarmenn nöfn sín á nafnaskrá þingsins. Forseti las fyrst sína skýrslu, ítarlega og vel samda. Lýsti hann þar störfum félagsins á árinu, og drap á ýms mál hálfkláruð og ókláruð, er fyrir lægju.

Á síðasta þingi hafði stjórnarnefndinni verið falið, að koma af stað barnakenslu í Íslenzku með skólahaldi og umferðarkenslu, og, ef tiltækilegt sýndist að láta semja og gefa út lesbók, er tæki við af stafrofskveri. Deildin Frón kom af stað laugardagsskóla í Winnipeg, og eiga Goodtemplarar sérstakar þakkir skilið fyrir ókeypis húslán — og aðra aðhlynningu að skólahaldinu. Ennfremur stofnaði varaskrifari félagsins, Ásgeir I. Blöndahl skóla í Wynyardbæ, og ber að þakka Immanuelsöfnuði og presti hans fyrir ókeypis lán á kirkjunni til skólahaldsins. Kenslubókin hefir enn ekki verið samin og umferðarkensla ekki upp tekin, en undirbúningur nokkur hefir þó verið hafður, erindreki verið sendur um borgina til að leita álits og undirtekta foreldra og húsráðenda o. s. frv. Urðu þær svo góðar, að ástæða virðist til að byrja á umferðarkenslu sem fyrst. Ákvæði síðasta þings um stofnun íslenzks listamóts í sambandi við ársþingið hefir ekki verið hreyft, en þó er sú bót í máli, að frú Stefanía Guðmundsdóttir og prófessor Sveinbjörn Sveinbjörnsson, hafa bæði lofað að aðstoða við samkomu félagsins með íslenzkum leik og frumsömdum íslenzkum sönglögum. — Tímaritið verður fullprentað áður þingi þessu lýkur, og má aðallega þakka tveim mönnum úr nefndinni, hve greiðlega það hefir gengið, herra Ásm. P. Jóhannssyni, er borgið hefir fjárhag fyrirtækisins með auglýsingasöfnun og innheimtu fyrir þær, — og herra Gísla Jónssyni, er tók að sér að prenta ritið í hjáverkum sínum, og sparaði félaginu með því fulla 600 dollara, miðað við prentunartilboð þau, er nefndinni bárust. — Að útbreiðslu félagsins var talsvert unnið á árinu. Erindrekar voru sendir út um bygðir til að safna nýjum meðlimum, og selja Tímaritið; heimadeildir verið stofnaðar á einum eða tveim stöðum. Um námsmannaskifti við háskóla Íslands og viðurkenning íslenzkunnar við Manitoba-

háskólann, hafa enn engin ákvæði verið tekin.

Fjármálaritari Gísli Jónsson las stutta skýrslu, staðfesta af yfirskoðunarmönnum, sem meðal annars sýndi, að félagatal var við byrjun ársins 1920 480, en við árslok 570; og svo margir bæzt við, síðan bók var lokað, að óhætt mætti telja félagsmenn um eða yfir 700.

Skjalavörður Finnur Johnson las upp skýrslu sína, er meðal annars bar með sér, að 900 eintök hefðu selzt af 1. árgangi Tímaritsins, auk þess er sent var til Íslands, sem enn hefir engin skýrsla fengist yfir.

Gjaldkeri, Á. P. Jóhannsson, las upp og lagði fyrir fundinn prentaða fjárhagsskýrslu félagsins fyrir árið, endurskoðaða. Ber hún með sér, að fjárhagur félagsins er í góðu ástandi, og er órækur vottur ágætrar frammistöðu gjaldkerans. Til góða frá fyrra ári voru $271.23, en við árslok 1920 voru í vörzlum féhirðis $754.81, og auk þess óinnheimt fyrir auglýsingar umfram skuldir $346.50, en skuldlausar eignir eru áætlaðar samtals lítíð eitt innan við þrjú þúsund dollara.

Allar þessar skýrslur voru teknar fyrir hver út af fyrir sig og samþyktar eftir nokkrar umræður, var forseta og gjaldkera auk þess greitt þakklætisatkvæði.

Séra Guðm. Árnason gaf munnlega skýrslu um útbreiðslustarf sitt í þarfir félagsins. Hafði hann ferðast um Narrows- og Lundar-bygðir í 20 daga, og fengið um 100 nýja félagsmenn. Kvað hann fáa andstæða félagsskapnum, en marga mjög áhugalitla. Var skýrsla þessi meðtekin og séra Guðmundi þakkað fyrir unnið starf.

Í dagskrárnefnd höfðu verið skipaðir þeir séra Guðm. Árnason, Ásgeir I. Blöndahl (vararitari) og Gísli Jónsson. Lögðu þeir fram tillögu, að dagskrá skyldi standa óbreytt að öðru leyti en því, að embættismannakosningar yrðu ákveðnar kl. 3 e. h. daginn eftir; var það samþykt.

Þegar á öndverðum fundi, eða næst á eftir skýrslu forseta, gaf ritari munnlega skýrslu. Mintist hann að engu starfsemi sinnar á árinu, en bar ýmsar kærur á meðnefndarmenn sína. Meðal þeirra var ein sú, að ritari hefði ekki, þrátt fyrir ítrekaða beiðni, fengið lykil að pósthólfi félagsins, sem sér hefði þó borið fyrstum allra. Önnur var sú, að stjórnarskráin ákveði, að ritari skuli skrifa öll bréf félagsins. Þessu hefði ekki verið fylgt. 3. Stjórnarskráin ákveði, að skrifari og forseti sjái um prentun alla fyrir félagið, en núverandi ritara hafi ekki verið sýnd ein einasta grein, er í Tímaritið hefði verið tekin. 4. Nefndin hefði ákveðið að halda fastafundi. Það hefði farist fyrir og sér því ómögulegt að sækja fundi fyrir ónógan fyrirvara. Gat þetta af sér talsverðar umræður síðar, og var kosin þriggja manna nefnd til þess að rannsaka þessar kærur. Kosnir voru Arngrímur Johnson, Björn Pétursson og Ásgeir I. Blöndahl. Síðar afsökuðu sig hinir tveir síðarnefndu, en hinn fyrsti gat ekki starfað sökum annríkis síns og stjórnarnefndarinnar, er undir kærunni lá.

Þá var tekin til umræðu stjórnarskrá félagsins. — Þessar stjórnarskrárbreytingar lágu fyrir frá síðasta þingi, og voru teknar lið fyrir lið og að síðustu samþyktar:

"1. Breyting við 6. gr. III. kafla, þannig, að í stað orðanna: "heimilt að halda eftir einum fjórða hluta árstillagsins", o. s. frv., komi: "heimilt að halda eftir helmingi árstillagsins."

2. Þessu sé bætt við 3. gr. II. kafla: "En því aðeins er embættismaður löglega kosinn, að hlotið hafi einfaldan meirihluta allra greiddra atkvæða."

3. Í 6. gr. IV. kafla stendur: "Með því að breytingartillaga hafi verið borin upp og rædd á aðalfundi félagsins árið áður". Í stað þess komi: "Með því að sá, eða þeir, sem eftir breytingum óska, geri stjórninni aðvart að minsta kosti þrem mánuðum fyrir aðalfund".

Klukkan átta að kvöldi hins fyrsta þingdags safnaðist fjölmenni saman í fundarsalinn, og flutti þá séra Rögnv. Pétursson fyrirlestur um íslenzka málshætti. Var hann hinn fróðlegasti og skemtilegasti og kendi þar margra grasa kjarngóðra frá fornri og nýrri tíð. Var ræðumanni greitt þakklætisatkvæði að erindislokum.

Því næst var tekið fyrir næsta mál á dagskrá: Minnisvarðamál Jóns Sigurðssonar. Forseti las upp bréf frá minnisvarðanefndinni. Kom þar í ljós, að af hinni upprunalegu 15 manna nefnd eru eftir aðeins 9. Nefndin kvaðst ófús á að fá málið í hendur Þjóðræknisfélaginu að svo stöddu. Formaður hennar, Árni Eggertsson, lýsti því yfir, að hann hefði fengið líkan af fótstalli fyrir myndastyttuna frá listamanninum Einari Jónssyni, og væri það í höndum fulltrúa Manitobastjórnarinnar til yfirlits. Bað hann um frest í málinu til miðvikudags, því þá yrði hann reiðubúinn að gefa greinilega skýrslu. Var það veitt.

Þá var tekið fyrir útgáfumál rita og bóka. Urðu um það all-langar umræður. Töldu flestir brýna þörf á útgáfu lestrarbókar fyrir unglinga, sniðna eftir þörfum Vestur-Íslendinga. Var það sumra álit, að hæfir menn til að skrifa slíka bók væru lítt fáanlegir og kostnaðurinn sem næst ókleyfur. Aðrir töldu engan hörgul slíkra manna og peninga mundi ekki verða vant, ef til kæmi. Var kosin þriggja manna nefnd til að íhuga málið. Í hana voru settir: Séra Guðm. Árnason, Finnur Johnson og Stefán Einarsson.

Daginn eftir (22. febr.) var fundur settur kl. 2,20 e. h. Þegar fundargerðir höfðu verið lesnar, ræddar og afgreiddar, voru teknar fyrir ritarakærurnar. Kom þá í ljós, sem áður er á vikið, að nefndin hafði ekki getað afgreitt störf sín. Vildu sumir, að gengið væri strax til kosninga, því liðið var mjög að þeim tíma. Komu þá fram sterkar raddir um, að slíkt væri óviðeigandi og rangt, unz nefndin hefði svarað kærunum og þvegið hendur sínar frammi fyrir þingheimi. Varð því úr, að ný nefnd var kosin: Ólafur Bjarnason, Ásgeir I. Blöndahl og séra G. Árnason. Skyldi hún ljúka störfum sínum þá þegar, en kosningum frestað unz úrslit rannsóknanna væru sén. Boðaði nú hin nýkosna rannsóknarnefnd alla stjórnarnefndina á leynifund með sér og spurði hana spjörunum úr. Meðan á þessu stóð, var Árni Eggertsson settur fundarstjóri, en P. S. Pálsson ritari. Var þá rætt um íslenzkukenslu. Séra Jónas A. Sigurðsson var málshefjandi, og kvað þetta lífið og sálina í þjóðræknisstarfi félagsins, börnin ættu heimtingu á að vera ekki svift þeim arfi;

væri það menningarlegt tap að fara á mis við íslenzkunám. Sem svar við fyrirspurn, kvað hann heppilegast, að forstöðumaður Jóns Bjarnasonar skólans riði á vaðið með fyrirlestrum um íslenzk mál. Vildu jafnvel sumir, að sá skóli kæmist undir yfirráð Þjóðræknisfélagsins, og að beitst væri fyrir á næsta kirkjuþingi, að fá þá menn í skólaráðið, er málinu væru hlyntir. Töldu aðrir það fela í sér getsakir til núverandi skólaráðs. Enn aðrir vildu, að félagið kæmi af stað og héldi sér við umferðakenslu á heimilum Íslendinga, foreldrum að kostnaðarlausu. Var á endanum sett í það 5 manna nefnd, og hlutu þessir kosningu: Séra Jónas A. Sigurðsson, Jón J. Bíldfell, Friðrik Guðmundsson, Ásgeir I. Blöndahl og Gísli Jónsson.

Nú var lesin upp skýrsla frá lesbóknefndinni og samþykt. Fer hún fram á, að stjórnarnefndinni sé falið, ef henni sýnist mögulega tiltækilegt, að láta semja hentuga lesbók fyrir vestur-íslenzka unglinga, sniðna eftir hérlendum staðháttum, og sé að því leyti hentugri en bækur þær, er vér eigum kost á að heiman. En með því að heyrst hafi, að einstakur maður hafi slíka bók í undirbúningi, þá sé stjórninni falið að grenslast eftir slíku, og álíti hún fýsilegt, leita samvinnu hans í því máli. En sökum hins afarháa prentkostnaðar nú á dögum, skuldbindur þingið ekki stjórnarnefndina til slíkrar bókarútgáfu, nema nefndin álíti félaginu það fært fjárhagslega.

Þegar hér var komið sögunni, hafði rannsóknarnefndin í kærumáli ritara lokið störfum sínum, og lagði fram ítarlega skýrslu ásamt nefndaráliti. Kemst hún að þeirri niðurstöðu, að nefndina beri að víta fyrir þá vanrækslu, að afhenda ekki ritara lykil að pósthólfi félagsins, en að öðru leyti séu kærurnar á litlum eða engum rökum bygðar.

Nú var gengið til kosninga. Stungið var upp á þáverandi forseta, séra Rögnv. Péturssyni, og séra Jónasi A. Sigurðssyni. Var útnefningunni brátt lokið með atkvæðagreiðslu. En séra R. P. skoraðist undan embætti í félaginu, og var þá séra Jónas A. Sigurðsson sjálfkjörinn forseti félagsins. Því næst var stungið upp á ýmsum fyrir varaforseta, en allflestir báðust undanþágu. Var nú ókyrð dálítil á fundinum. En með því líka, að komið var undir kvöldverðartíma, varð það að samþykt, að áframhaldi kosninga skyldi frestað til kl. 4 daginn eftir.

Að kvöldinu var afar fjölmenn samkoma undir stjórn heimadeildarinnar "Frón"; samkomunni stjórnaði forseti deildarinnar, hr. Páll S. Pálsson. Voru þar saman komnir um 500 manns. Hélt séra Jónas A. Sigurðsson langa og snjalla ræðu um íslenzka tungu. Frú Stefanía Guðmundsdóttir og leikflokkur hennar sýndu íslenzkan ljóðleik, "Sumargleðina", eftir Guðm. Guðmundsson. Próf. Svb. Sveinbjörnsson lék á hljóðfæri íslenzka "rapsódíu" eftir sjálfan sig. Mrs P. S. Dalman söng og tvö lög eftir prófessorinn. Lesið var kvæði eftir St. G. Stephansson, "Goðorðsmaðurinn", ort eftir beiðni forstöðunefndarinnar. Auk framantaldra skemtu þessir með söng og hljóðfæraslætti: Próf. S. K. Hall, Miss Nina Paulson, Mr. og Mrs. Alex Johnson og Bj. Björnsson. Veitt var rausnarlega í neðri sal hússins og dans stóð langt

fram yfir miðnætti. Ennfremur áttu þeir bræður, Einar P. Jónsson og Gísli Jónsson, að skemta með kvæðum og söngvum, en tæpum klukkutíma áður en samkoman hófst, barst þeim sú sorgarfregn, að faðir þeirra hefði andast þann sama dag, og fórst því fyrir hluttaka þeirra við skemtiskrána.

Næsti fundur var haldinn kl. 10 f. h. daginn eftir (23. febr.). Voru þá tekin til meðferðar útbreiðslumál. Höfðu þau lítið eitt borið á góma daginn fyrir. Komu fram ýmsar skoðanir um tilhögun á útbreiðslu félagsins. Töldu sumir heppilegast, að stofnað væri sem mest af heimadeildum víðsvegar út um bygðirnar, aðrir að ársgjöldin yrðu lækkuð; enn aðrir, að fyrirlesarar yrðu sendir út til að vekja áhuga á málefninu. Sumir vildu, að ársgjaldið yrði mismunandi hátt, og að Tímaritið yrði gefið félagsmönnum; þá enn aðrir, að kosinn yrði útbreiðslustjóri, er starfaði í samráði við nefndina. Urðu um aðferðirnar mjög skiftar skoðanir, en flestum kom saman um, að öfluga útbreiðslustarfsemi þyrfti að setja á fót. Var að lokum kosin þriggja manna nefnd í þetta mál, og hlutu þessir kosningu: Árni Eggertsson, A. S. Bardal og J. Húnfjörð. — Lögðu þeir síðar fram nefndarálit þess efnis, að fela stjórnarnefndinni að gera alt, sem í hennar valdi stæði, til þess að afla félaginu útbreiðslu, með stofnun deilda, og því, að senda hæfa menn í fyrirlestraerindum út um bygðirnar. Verkefni deildanna ætti fyrst og fremst að vera það, að kenna Íslenzku. Var þetta nefndarálit samþykt.

Þá kom til umræðu útgáfa Tímaritsins. Voru þeir Gunnl. Tr. Jónsson, Ásgeir I. Blöndahl og Á. P. Jóhannsson kosnir í nefnd til að bera fram tillögur um tilhögun útgáfunnar. Lagði hún fram tillögur um: að Tímaritið sé gefið út eins og að undanförnu, að stjórnarnefndin ráði séra Rögnv. Pétursson fyrir ritstjóra þess fyrir þetta ár, að stjórnarnefndin ákveði verð ritsins, að fundurinn sjái sér ekki fært að leggja til að Tímaritinu sé útbýtt ókeypis til meðlima. Voru allir liðir nefndarálitsins samþyktir eftir nokkrar umræður.

Næst var rætt um samvinnu og mannskifti milli Austur- og Vestur-Íslendinga. Var í það mál sett fimm manna nefnd, þeir Árni Eggertsson, Sig. Júl. Jóhannesson, séra Rögnv. Pétursson, Finnur Johnson og Björn Pétursson. Var þeim falið að innibinda í áliti sínu nemendaskifti og styrk til íslenzkunáms. Ályktanir þessarar nefndar voru: 1. Að félagsstjórnin leiti álits félagsins Íslendings í Rvík, hvernig það félag hugsi sér samvinnu við félag vort, og að leitast sé við, að hafa sem bezta samvinnu milli þessara tveggja félaga. Ennfremur, að æskilegt sé að þeir menn, er hingað yrðu sendir eða héðan í þjóðræknIserindum, séu ráðnir með vitund og samþykki beggja félaganna. 2. Félag vort vill hvetja og styðla að því, að íslenzkir námsmenn hér sæki háskóla Íslands til að njóta þar fræðslu í Íslenzku og þjóðlegum fræðum. Þetta nefndarálit var samþykt.

Nú gaf Árni Eggertsson skýrslu þá, er hann hafði lofað í minnisvarðamálinu. Kvað hann það ákveðið, að Manitobastjórnin veiti Íslendingum veglegan stað undir myndastyttuna á þinghússvellinum. Var samþykt til-

laga þess efnis, að skora á Árna Eggertsson að kalla saman almennan fund í marzmánuði, til þess að gera út um þessi mál. Önnur tillaga var og samþykt þess efnis, að líkneskið væri flutt á einhvern þann stað, sem almenningi gæfist kostur á að sjá það nú þegar.

Þá var lagt fram og samþykt nefndarálit í kenslumálum, og ræður það til, að nú þegar sé hafin umferðarkensla í Winnipeg með eins mörgum kennurum og kringumstæður leyfa, og að félagsstjórninni sé heimilað að styrkja með fjárframlögum deildir þær, er gangast vildu fyrir Íslenzkukenslu innan sinna vébanda.

Var þá gengið til kosninga: Forseti séra Jónas A. Sigurðsson (áður kosinn), varaforseti Jón J. Bíldfell, skrifari Gísli Jónsson, varaskrifari Ásgeir I. Blöndahl, fjármálaritari Fred Swanson, varafjármálaritari P. S. Pálsson, féhirðir Á. P. Jóhannsson, varaféhirðir Ólafur Bjarnason, skjalavörður Finnur Johnson; yfirskoðunarmenn Björn Pétursson og Friðr. Guðmundsson.

Að þessu búnu tók hinn nýi forseti, séra Jónas A. Sigurðsson, forsetasæti og mælti þakklætisorðum til fráfarandi forseta. Var honum og greitt þakklætisatkvæði með dynjandi lófaklappi og því, að allir stóðu á fætur.

Því næst var lesinn upp síðasti liður dagskrárinnar: Ný mál. Hin helztu þeirra voru breytingartillögur við stjórnarskrána. Hin fyrri um lækkun ársgjaldsins og önnur um tölu greiddra atkvæða, þegar um stjórnarskrárbreytingar er að ræða.

Þá bar Ásgeir I. Blöndahl upp tilboð frá heimadeildinni "Fjallkonan" í Wynyard, um að næsta þing yrði haldið þar. Ekkert ákvæði var tekið, því til þess þarf lagabreytingar. En boðið var þakkað.

Fleiri mál voru eigi afgreidd, en ákveðið að fresta fundi þangað til eftir kvöldverðartíma.

Kl. 8 að kvöldinu var aftur komið saman í Goodtemplarahúsinu. Var það kvöld, samkvæmt áður auglýstri dagskrá, helgað minningu séra Matthíasar Jochumssonar. Varaforseti stýrði fundi. Margt manna var þar saman komið. Hófst samkoman með því, að forseti bað prófessor Svb. Sveinbjörnsson að leika á hljóðfærið þjóðsöng Íslands, "Ó, guð vors lands". Stóð allur þingheimur á meðan og söng kvæðið. Því næst hélt forseti félagsins, séra Jónas A. Sigurðsson, ágæta ræðu um séra Matthías. Mintist hinna víðtæku ritstarfa hans, áhrifa hans á íslenzkar bókmentir, persónulegrar viðkynningar við skáldið, fjölhæfni hans og ljúfmensku· Var gerður að því hinn bezti rómur. Þá mintist ritari stuttrar æskuminningar skáldsins og las upp tvö kvæði eftir hann, "Bragamál" og "Í Hróarskeldudómkirkju". Þessu næst talaði Dr. Sig. Júl. Jóhannesson. Lagði hann mesta áherzlu á sorgarljóð skáldsins, og boðskap þann, er hann kvaðst geta lesið út úr ljóðum hans, boðskap frjálslyndis, víðsýni, kærleika og bróðurhuga til manna og málleysingja. Kryddaði hann mál sitt óspart með kvæðabrotum eftir skáldið. Fékk erindi hans hina beztu áheyrn. Þá las séra Rögnv. Pétursson upp yfirlýsingu, er stjórnarnefndin hafði semja látið. Var hún borin undir atkvæði fundarins og samþykt. Yfirlýsingin hljóðar svo:

"Hinn 15. desember síðastliðinn barst oss Íslendingum í Winnipeg sú

sorgarfregn, að skáldið mæta og góða, séra Matthías Jochumsson, væri andaður. Snart frétt þessi hjörtu allra vor, jafnt yngri sem eldri. Með honum er til moldar genginn sá maður, er var hverju barni þjóðarinnar kær, — öðlingur sá, er elskaði ættjörðu og þjóð — alla samtíðar og sögunnar menn, er þjóð vorri hafa til sæmdar verið — já, alla menn, hrausta sem hrjáða, volaða sem volduga, ríka sem snauða — það skáld, "er svo vel söng, að sólin skein í gegnum dauðans göng" — höfundur þeirra ljóða, er kveðin voru við vöggu vora og voru oss þá kend, er vér kunnum nokkuð að nema. Nú, þegar ársþing vort, þjóðrækinna Íslendinga vestan hafs, stendur yfir, ætti atburður þessi að vera oss ofarlega í huga. Viljum vér því með þingsályktun þessari votta ættmennum hans og heimaþjóð hjartanlega samhygð vora og hluttekningu, en skáldinu horfna þakklæti vort og vinarkveðju við burtförina."

Að lokum voru þessir menn bornir upp fyrir heiðurfélaga í Þjóðræknisfélaginu og samþyktir af þingheimi: Stephan G. Stephansson, Vilhjálmur Stefánsson, prófessor Svb. Sveinbjörnsson, prófessor Halldór Hermannsson, frú Stefanía Guðmundsdóttir.

Þökkuðu þá forseti og varaforseti drengilega liðveizlu öllum, er sótt höfðu þingið og stutt að málum þess. Var að lokum sungið "Eldgamla Ísafold", og þingi slitið.

**Gísli Jónsson.**



# Fjárhagsskýrsla Þjóðræknisfélagsins yfir árið 1920.

## I. Aðalreikningur.

INNTEKTIR

| | | |
|---|---|---|
| Til góða frá fyrra ári | | $ 271.23 |
| Viðtekið frá fjármálaritara, G. Jónssyni | | 312.30 |
| | | $ 583.53 |

ÚTBORGANIR

| | | |
|---|---|---|
| Finnur Johnson (skriffömg) | $ 4.15 | |
| Sr. J. A. Sigurðsson (fargj. á aðalf. 1920) | 25.00 | |
| Símskeyti til "Fálkanna", Antwerp | 3.75 | |
| Icel. Good-Templars í Wpg. (húsaleiga) | 50.00 | |
| Pósthólf | 4.00 | |
| Útborgað í sambandi við séra K. Helgason | 11.05 | |
| Columbia Press (auglýsing) | 5.75 | |
| 31. desember til jafnaðar | 479.83 | |
| | $583.53 | $ 583.53 |

## II. Fjárhagur Tímaritsins.

| | | |
|---|---|---|
| Fluttur afgangur frá reikningi að framan | | $ 479.83 |
| Inn komið fyrir auglýsingar í 1. árgang | | 1250.40 |
| Inn komið fyrir auglýsingar í 2. árgang | | 194.25 |
| Inn komið fyrir söluá 1. árgangi | | 676.22 |
| Gjöf frá séra Rögnv. Péturssyni | | 20.00 |
| | | $2620.70 |

ÚTBORGANIR

| | | |
|---|---|---|
| Skuld frá fyrra ári | $ 99.67 | |
| Columbia Press borgað upp að fullu fyrir prentun 1 árg. Tímaritsins o. fl. | 1039.40 | |
| G. Jónsson, prentun á bréfsefnum og kvittanabókum | 25.00 | |
| Umbúðir og flutningur á Tímaritinu til Íslands | 29.25 | |
| Ritlaun 1. árg. Tímaritsins | 172.37 | |
| G. Jónsson, niðurb. fyrir prentun á 2 árg. Tímaritsins | 500.00 | |
| 31. des. 1920 — Í sjóði | 754.81 | |
| | $2620.70 | $2620.70 |

### III. Óinnheimt og óútborgað.

ÚTISTANDANDI

| | | |
|---|---|---|
| Óinnheimt fyrir auglýsingar í 2. árg. Tímaritsins .... .... .... .... .... | | $1321·50 |

ÓBORGAÐ

| | | |
|---|---|---|
| Áætluð ritlaun fyrir 2. árgang .... .... .... .... .... .... .... .... | $ 200.00 | |
| Áætlað óborgað prentverk fyrir 2. árg. Tímaritsins .... .... | 775.00 | |
| Til jafnaðar .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | 346.50 | |
| | $1321.50 | $1321.50 |

### IV. Fjárhagur félagsins.

| | |
|---|---|
| Peningar í vörzlum féhirðis .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... .... | $ 754·81 |
| Útistandandi fyrir auglýsingar umfram skuldir .... .... .... .... .... .... | 346·50 |
| | $1101.31 |

### Skuldlausar eignir.

| | |
|---|---|
| Óinnheimt og óselt af 1. árg. Tímartsins, 1427 eint., áætlað verð að frádregnum kostnaði, að helmingur seljist .... .... .... .... .... .... | $ 535.50 |
| Óseldur 2. árg. Tímar., 2000 eint., áætlað að 80% seljist fullu verði | 1200.00 |
| Skriffföng, skírteini, bækur og myndamót félagsins .... .... .... .... .... | 150.00 |
| | $2986·81 |

Á. P. **Jóhannsson**, féhirðir

### Vottorð endurskoðunarmanna.

Winnipeg, 15. febrúar 1921.

Hér með vottast að við undirritaðir höfum nákvæmlega yfirskoðað ársreikning Þjóðræknisfélags Íslendinga í Vesturheimi, ásamt skjölum þeim og skilríkjum þar að lútandi, og finnum hann réttan vera.

**Svbj. Árnason, Einar P. Jónsson**
endurskoðunarmenn.

# Félagatal fyrir árin 1920 og 1921.

**Heiðursfélagar.**
Séra Kjartan Helgason
prófastur
í Hruna í Árnessýslu
Stephan G. Stephansson
skáld.
Bóndi við Markerville
Alta.
Vilhj. Stefánsson L.L.D.
landkönnunarmaður.
3755 Broadway,New York
Próf. Halld. Hermannson
bókavörður við Fiske-
safn Cornell háskólans
Ithaca, N. Y.
frú Stefanía Guðmundsd.
leikkona.
Reykjavík Ísland.
Próf. Svb. Sveinbjörnsson
tónskáld.
Winnipeg, Man.

**Árborg, Man.**
Sæunn Anderson.
Kristján Bjarnason.
Jóhannes K. Benson.
Magnús Borgfjörð.
Séra Jóhann Bjarnason.
Dr. S. E. Björnsson.
Arnrún Einarsson.
Mrs. S. Einarsson.
Stefán Einarsson.
Hörður Einarsson.
Sigursteinn Einarsson.
Mrs. G. Elíasson.
Marelíus Erlendsson.
Halldór S. Erlendsson.
Högni Einarsson.
Jóhanna Friðgeirsson.
Davíð Guðmundsson.
Þórarinn Gíslason.
P. S. Guðmundsson.
Björn J. Hansen.
Sigrún Hansson.
Sig. J. Hlíðdal.
Ingimar Ingjaldsson.
Njáll S. Johnson.
Jón J. Jónsson.
John A. Jónasson.
Karl Jónasson.
Percy C. Jónasson.
Valdimar Jóhannesson.
Guðm. Jóhannesson.
Ólína Johnston.
Böðvar H. Jakobsson.
Edward L. Johnson.
Snæbjörn S. Jónsson.
J. A. Jónasson.
Baldwin Jónsson.
Grímur Laxdal.
Bjarnþór J. Lífman.
Gestur S. Oddleifsson.
Gestur Oddleifsson.
Jón Pálsson.
A. F. Reykdal.
Sigurjón Sigurðsson.
Björgvin Vopni.
Gunnar Þórðarson.

**Bifröst, Man.**
Jóhannes Bergman.
Eiríkur Bárðarson.
Guðm. O. Einarsson.
Hjálmar Jóhannesson.
Eiríkur Jóhannsson.
Guðm. Sigvaldason.

**Brown, Man.**
Sigurjón Bergvinsson.
Thorkell Bergvinsson.
Miss. Valgerður Ísaksson
Herbert Jónsson.
Jónína Jónsson.
Arnór Jóhannsson.
Björgvin Halgrímsson.
Árni H. Helgason.
Guðm. J. Húnfjörð.
Jón J. Húnfjörð.
J. S. Gillis.
Lovísa Gíslason.
T. J. Gíslason.
J. M. Gíslason.
Helgi Kristjánsson.
Júlíana Kristjánsson.
Lovísa Kristjánsson.
Th. B. Líndal.
Árni Ólafsson.
Gísli Ólafsson.
Halldór Ólafsson.
Ólafur A. Ólafsson.
Freyja Ólafsson.
T. O. Sigurðsson.
Inga Tomson.
Árni Thomasson.
Pálína G. Thorláksson.

**Churchbridge, Sask.**
Séra J. A. Sigurðsson.
Magnús Hinriksson.
Pálína M. Jónsson.
S. Helga J. Jónsson.
Björn Th. Sigurðsson.
Stefanía Sigurðsson.
Jón Sigurðsson.
Elín Guðrún Sigurðsson.

**Dafoe, Sask.**
Jón Jónsson frá Mýri.
Thorlákur Jónasson.
Petrea Th. Jónasson.
Björn Jónsson.
Kristján Johnson.
Jón Jónsson.
Bjarni J. Ólafsson.
G. J. Ólafsson.

**Framnes, Man.**
Bergur J. Hornfjörð.
Tryggvi Ingjaldsson.
Daníel Pétursson.
Mrs. D. Pétursson.
Sigurf. Sigurðsson.
Páll Th. Stefánsson.
Thorgrímur Sigurðsson.
Guðm. Vigfússon.

**Foam Lake, Sask.**
Jón Einarsson.

**Goulbourne, Man.**
Guðrún Thorkelsson.
H. Thorkelsson.

**Geysir, Man.**
Thomas Björnsson.
F. V. Friðgeirsson.
Jón S. Nordal.
Jón Skúlason.
Friðf. Sigurðsson.
Svanberg Sigfússon.
Valdimar Sigvaldason.

**Gimli, Man.**
C. O. L. Chiswell.
Einar Gíslason.
Gísli Sveinsson.
Mrs. Kr. Stefánsson.
Bergþór Thordarson.
Guðni Thorsteinsson.
Hjálmur Thorsteinsson.

**Grand Forks, N. D.**
Dr. G. J. Gíslason.

**Gull Lake, Sask.**
Jóhann Stefánsson.

**Hayland, Man.**
Davíð Gíslason.
J. B. Helgason.
Sigurður B. Helgason.
Björn B. Helgason.
Ólafur Magnússon.
Kristján Pétursson.
Jón Pétursson.
Séra Adam Þorgrímsson.

**Hove, Man.**
S. Eyjólfsson.
Vilbald Frímann.
K. L. Gíslason.
Finnur Johnson.
Sveinn Jónsson.
Andrés J. Skagfeld.
Steini S. Skagfeld.
B. Stanley Skagfeld.
Anton Sigurðsson.
Björn Sigurðsson.
Jóhanna Sigurðsson.
Jóhannes Sigurðsson.
Halldóra Vigfússon.
J. K. Vigfússon.
Kristján Vigfússon.

**Hólar, Sask.**
Halldór J. Stefánsson.

**Hnausa, Man.**
Mrs. Guðrún S. Einarson
Kristbjörg Johnson.

**Hensel, N. D.**
Magnús Ásgrímsson.
Fred. Bjarnason.
Fred. J. Erlendsson.

**Hallson, N. D.**
Pétur Jónsson.

**Kandahar, Sask.**
Th. A. Björnsson.
Kristín Eyjólfsson.
S. B. Guðnason.
Andrés Helgason.
J. B. Josephson.
Guðjón J. Sveinbjörnson
Svb. J. Sveinbjörnsson.

**Leslie, Sask.**
Björgvin Guðmundsson.
Joe Johnson.
M. Magnússon.

**Lillesve, Man.**
Jón Kristjánsson.

**Lundar, Man.**
Kristján Daníelsson.
Snæbjörn Einarsson.
Jón Guðmundsson.
Sigurður Gíslason.
Vigfús Guttormsson.
Halld. Halldórsson.
M. Halldórsson.
Alex A. Johnson.
Friðrik A. Johnson.
Sigríður Johnson.
Thorsteinn Johnson.
Valdemar K. Johnson.
Katrín Johnson.
Páll Johnson.
Kjartan Johnson.
Mrs. Oddfríður Johnson
Hermann Johnson.
Séra A. E. Kristjánsson.
Mrs. Anna Kristjánsson.
Nanna Kristjánsson.
Hjálmar Kristjánsson.
Sigrún Kristjánsson.
Daníel Líndal.
Sigurður Magnússon.
Oddur G. Magnússon.
Helgi Oddsson.
Jóhann S. Sigurðsson.
Bergþóra K. Sigurðsson.
Sigurður T. Sigurðsson.
Halldóra D. Sigurðsson.
Sigurður J. Sigurðsson.
Ragnheiður Sigurðsson.
Grímúlfur J. Sigurðsson.
Sigmundur Sigurðsson.
Mrs. A. Sigurðsson.
Skúli Sigfússon.
Jón Straumfjörð.
Eiríkur Scheving.
Guðjón Thorkelsson.
T. O. S. Thorsteinsson.

**Í bygðunum kringum Markerville, Alta.**
Jóhann Björnsson.
Sigurást Björnsson.
Sigurlaug Bardal.
Júlíus Bardal.
Sigurður Benidiktsson.
Helga Benidiktsson.
Mrs. Jón Benidiktsson.
Jón Benidiktsson.
Fjóla Benidiktsson.
Josey Benidiktsson.
Christinn Christinsson.
Vésteinn H. Dofri.
Hóseas Eiríksson.
A. S. Einarsson.
E. Th. Einarsson.
Mrs. Helga Einarsson.
Hróbjartur Einarsson.
F. H. Einarsson.
Albína Einarsson.
B. Einarsson.
Miss F. Einarsson.
Jónas J. Húnfjörð.
Ben. Húnfjörð.
Bjarni Húnfjörð.
Jónas Þ. Húnfjörð.

Hannes H. Húnfjörð.
Pétur Hjálmsson.
Hermann B. Hillman.
J. S. Johnson.
Mrs. J. S. Johnson.
Thory Johnson.
J. A. S. Johnson.
Niculás S. Johnson.
Mrs. Sigríður Johnson.
Sigurður Johnson.
St. K. O. Johnson.
Adaline Johnson.
May Johnson.
Eleanora Johnson.
Hróm. K. Jóhannsson.
Halldór J. Jóhannsson.
Sigtr. Jóhannsson.
Miss M. K. Jóhannsson.
Christján Jóhannsson.
Siggeir Jóhannsson.
Christján Jóhannesson.
Miss Guðrún Maxson.
Peter Maxson.
Stephan Maxson.
Mrs. Sigrún Plummer.
Tómas Rafnsson.
Jarðþrúður G. Rafnsson
Guðbjörn Sveinbjörnson
Jóhann Sveinsson.
Mrs. Steinunn Sveinsson.
Mrs. G. Stephansson.
Guðmundur Stephansson
Mrs. Bald. Stephansson.
Baldur Stephansson.
Jakob K. Stephansson.
Rósa Stephansson.
Miss Jóný Stephansson.
Mrs. Helga Stephansson.
Edwin Stephansson.
Ethel Stephansson.
Florence Stephansson.
Lillie Stephansson.
Jakobína Stephansson.
Benidikt Stephansson.
Jón Stephansson.
Helga Stephansson.
Hrefna Stephanson.
Stephan Stephansson.
Sigurlína Stephansson.
Bjarnína Sigurðsson.
Jórunn G. Sigurðsson.
Ófeigur Sigurðsson.
Jóhann Thorpe.

**Markland, Man.**

Thórður S. Sigurðsson.
Ragnar Sigurðsson.

**Mary Hill, Man.**

Bergsveinn Eiríksson.
Jón Sigurðsson.

**Minneota, Minn.**

Gunnar B. Björnsson.
Séra Gutt. Guttormsson.

**Mountain, N. D.**

Þorleifur Ásgrímsson.
Joseph Myres.
Arnlj. Ólafsson.
Þorl. Þorfinnsson.

**Narrows, Man.**

S. Baldvinsson.

**North Star, Man.**

Árni H. Hallgrímsson.

**Oak Point, Man.**

Séra Guðm. Árnason.
Mrs. Sigríður Árnason.
Helga Árnason.
Hrefna Árnason.
Einar Árnason.
Daníel Halldórsson.
Jóhann Johnson.

**Oak View, Man.**

S. Ó. Eiríksson.
S. Sigfússon.

**Otto, Man.**

Stefán Baldvinsson.
S. Benidiktsson.
J. Magnús Bjarnason.
Thorhallur Halldórsson.
Nýbjörg Halldórsson.
Gestur V. Jónasson.
Mrs. Margrét Jónasson.
Margrét S. Jónasson.
Kári Johnson.
Jónatan Johnson.
Sigfús Sigurðsson.
Kristján Þorvarðarson.
Þorsteinn Þorsteinsson.
Brynjólfur Þorláksson.

**Pembina, N. D.**

Guðm. B. Árnason.
Thor. Bjarnason.
Jóhann Burns.
Júlíus W. Burns.
Concordia Eymundsson.
Fríða Eggertsdóttir.
Eggert B. Eyford.
H. Halldórsdóttir.
Rannveig Johnson.
Guðmundur Johnson.
Björg Johnson.
Ingibjörg Leifur.
G. V. Leifur.
Guðm. G. Olson.
Sigurjón Paulson.
Óli Paulson.
Sigríður Pálsdóttir.
Geo. Peterson.
Mrs. Geo. Peterson.
John W. Peterson.
Karl Stefánsson.
Ingibjörg Thorgrímsson.
G. Thorgrímsson.
Elín D. Thorgrímsson.
Þorbjörg Thorgrímsson.
Vilmar T. Thorgrímsson.

**Porter, Minn.**

Bjarni Guðmundsson.

**Riverton, Man.**

Fred. Axford.
Sigtr. Briem.
Jóhann Briem.
Marino Briem.
S. Coghill.
Gutt. J. Guttormsson.
Skúli Hjörleifsson.
Guðjón E. Johnson.
Þorgrímur Jónsson.
Sigurbjörn Sigurðsson.
S. Thorvaldson.
Th. Thorvaldson.
Th. Thórarinsson.

**Silver Bay, Man.**

Árni Árnason.
E. Árnason.
S. Árnason.

Hildur Árnason.
Guðný Árnason.
Jón Björnsson.
Mrs. Sigríður Björnsson.
Hallur Hallsson.
Th. Björn Jónasson.
Ólafur Magnússon.
Sigurg. Pétursson.
Mrs. María Pétursson.
Ólafur Thorlacius.

**Siglunes, Man.**
B. J. Arnfinnsson.
John Hávarðsson.
J. Jónsson frá Sleðbrjót.
Páll Jónsson.
Mrs. H. G. Runólfsson.

**Stony Hill, Man.**
Guðbr. Jörundsson.

**Springwater, Sask.**
Árni Sigurðsson.

**Selkirk, Man.**
Jónas Jónasson.
Mrs. Jóhanna Jónasson.
Sr. N. Stgr. Þorláksson.

**Tantallon, Sask.**
J. G. Eiríksson.
Einar H. Eiríksson.
Erl. G. Ingjaldsson.
E. S. Ingjaldsson.
John Júlíus Johnson.
Snorri Jónsson.
Júlíus Johnson.
S. S. Johnson.
Ragnheiður Johnson.
H. J. Magnússon.
S. Magnússon.
Guðm. Ólafsson.
Sigurður D. Ray.
Helgi Thorsteinsson.
Jón T. Thorsteinsson.
Tryggvi Thorsteinsson.
N. Vigfússon.

**Edmonton, Alta.**
Ó. T. Johnson.
Mrs O. T. Jónsson.

**Tacoma, Wash.**
E. S. Guðmundsson.

**Thornhill, Man.**
J. B. Johnson.
G. Th. Oddsson.
Thorsteinn Líndal.

**Vestfold, Man.**
Guðbjörn Goodman.
Helgi Olson.

**Vogar, Man.**
A. J. Arnfinnsson.
Guðm. Jónsson.
Jóhannes Jónsson.
John H. Johnson.
E. G. Johnson.
J. S. G. Johnson.
Oscar Johnson.
A. Sveistrup.
Mrs. S. Stephansson.

**Víðir, Man.**
Steindór Árnason.
Marteinn M. Jónasson.
Hjörtur J. Jónasson.
Magnús Jónasson.
Einar Jónasson.
Björn I. Sigvaldason.
Miss Anna Sigvaldason.

**Winnipeg, Man.**
Victor B. Anderson.
Sigurður Anderson.
Sigtr. Arason.
Sigtr. Ágústsson.
Sveinbj. Árnason.
Hjálmur Árnason.
J. S. Árnason.
Kr. J. Austmann.
Ólöf G. Austmann.
Ólafur Arnljótsson.
Snæbjörn Arnljótsson.
Thorst. Ásgeirsson.
Halldóra Anderson.
Árni Anderson.
Ásta Austmann.
Þóra Austmann.
Jón Austmann.
John Ásgeirsson.
Gunnar Árnason.
Vilbjörg Anderson.
Pétur Anderson.
Guðlaug K. Anderson.
Gyða Anderson.
Ólína Anderson.
Pétur Stefán Anderson.
Egill J. Ó. Anderson.
Stefán Abrahamsson.
Dr. B. J. Brandson.
Mrs. B. J. Brandsson.
H. A. Bergman.
A. S. Bardal.
P. S. Bardal.
Lára M. Bjarnason.
Jón J. Bíldfell.
H. S. Bardal.
Ólafur Bjarnason.
Oddrún Bjarnason.
Kjartan Bjarnason.
Ingibjörg Björnsson.
Bjarni Björnsson.
S. B. Benediktsson.
Mrs. Guðrún Borgfjörð.
Guðm. M. Bjarnason.
Gísli Blöndal.
Richard Beck.
Ragnh. Davíðsson.
Jónas J. Daníelsson.
W. A. Davíðsson.
R. J. Davíðsson.
Guðv. Eggertsson.
Ólafur Eggertsson.
Árni Eggertsson.
Bjarni Finnsson.
Mrs. P. Fjeldsted.
Pétur Fjeldsted.
G. J. Goodmundsson.
Mrs. I. Goodmundson.
Hjálmar Gíslason.
G. R. Guðmundsson.
Gunnar Guðmundsson.
Guðm. Th. Gíslason.
Hallbera Gíslason.
Sigurgrímur Gíslason.
Össurlína Guðbjartsson.
Jóh. Gottskálksson.
Jón H. Gíslason.
Friðrik Guðmundsson.

Miss Elín Hall.
Miss Theodora Herman.
Páll Hallsson.
L. J. Hallgrímsson.
Guðj. H. Hjaltalín.
Jónas Hinriksson.
Ásta G. Höskulds.
G. B. Ingimundarson.
Á. P. Jóhannsson.
Mrs. Sigr. Jóhannsson.
Jónas W. Jóhannsson.
Kári W. Jóhannsson.
Grettir L. Jóhannsson.
Sigfús Jóelsson.
Mrs. A. W. Jóelsson.
Eiríkur Jóelsson.
Oddný Jóelsson.
D. F. Jóelsson.
Thorarinn Johnson.
Finnur Johnson.
Finnur Johnson.
Mrs. Guðr. Johnson.
Jóhannes Johnson.
Gísli Jónsson.
Mrs. Guðr. Jónsson.
Bergþóra Jónsson.
Helgi Jónsson.
Gyða Jónsson.
Ragna Jónsson.
Gunnl. Jóhannsson.
Mrs. Guðr. Jóhannsson.
Guðr. A. Jóhannsson.
Haraldur Jóhannsson.
G. K. Jónatansson.
Sig. Júl. Jóhannesson.
Mrs. S. J. Jóhannesson.
Málmfríður Jóhannesson
Svanhvít Jóhannesson.
Björn B. Jónsson.
Elín Johnson.
Stefanía Johnson.
B. K. Johnson.
Thorður Johnson.
Anna Johnson.
Einar P. Jónsson.
Mrs. E. P. Jónsson.
Sigrún M. Jónsson.
Arngr. Johnson.
J. Jóhannesson.
Albert Johnson.

J. K. Johnson.
Guðríður H. Johnson.
G. Á. Jóhannsson.
Gunnl. Tr. Jónsson.
Mrs. Sigrún Johnson.
Björn Johnson.
S. J. Jóhannesson.
Ásmundur Jóhannsson.
Halldór Jóhannsson.
Stefán Jóhannsson.
Valgerður Johnson.
C. B. Júlíus.
Jón Jónatansson.
Hlaðgerður Kristjánsson
Kr. Kristjánsson.
Friðrik Kristjánsson.
Hannes J. Líndal.
Halld. Methusalems.
Magnús Markússon.
M. Magnússon.
Séra Rún. Marteinsson.
Ingunn Marteinsson.
Guðm. Magnússon.
Bjarni Magnússon.
Rósa Magnússon.
Agnar R. Magnússon.
J. W. Norman.
Nik. Ottenson.
S. F. Ólafsson.
Mrs. Jóhanna Ólafsson.
Sig. Oddleifsson.
Mrs. Guðl. Oddleifsson.
Edw. W. Oddleifsson.
Axel L. Oddleifsson.
Jórunn Ólafsdóttir.
Arnl. B. Olson.
Rögnv. Pétursson.
Hólmfríður Pétursson.
Thorv. Pétursson.
Margrét Pétursson.
Ólafur Pétursson.
Björn Pétursson.
Magnús Peterson.
Hannes Pétursson.
Tilly Pétursson.
Ólafur Pétursson.
Björn Pétursson.
Pétur B. Pétursson.
Miss Margrét Pálsson.
Páll. S. Pálsson.

Mrs. P. S. Pálsson.
Magnús Paulson.
Guðný Paulson.
Hjörtur Richter.
S. D. B. Stephanson.
Mrs. Ingv. Stephanson.
H. Sigurdson.
E. Sumarliðason.
Ovida Swainson.
Ida D. Swainson.
Joel Theod. Swainson.
Friðrik Sveinsson.
Sigríður Sveinsson.
John Sigurdson.
Sigurb. Sigurjónsson.
Hildur Sigurjónsson.
Sigríður Sigurjónsson.
Lára Sigurjónsson.
Elis E. Sigurjónsson.
Jón Sigurjónsson.
Jóhann Sigurjónsson.
Óskar Sigurðsson.
J. J. Swanson.
E. H. Sigurðsson.
Guðm. Sigurjónsson.
J. J. Samson.
Sigurður Sigurðsson.
Helgi Sigurðsson.
Hreiðar Skaftfeld.
Guðbjörg Sigurðsson.
Bárður Sigurðsson.
Mrs. J. Sigmundsson.
Jódís Sigurðsson.
Sigurlaug Sigurðsson.
Thorgils Thorgeirsson.
Jón Tómasson.
Charles G. Thorson.
Einar Thorgrímsson.
Guðjón Thorvaldsson.
Soff. Thorkelsson.
Mrs. Jóh. M. Thorkelsson
Árni Thorlacius.
Kr. Thorsteinsson.
Ó. S. Thorgeirsson.
Jón Thordarson.
Þ. Þ. Þorsteinsson.
Mrs. Goðm. Þorsteinsson
John J. Vopni.
John A. Vopni.
Sigurður Vigfússon.
Chr. Vopnfjörð.

**Winnipegosis, Man.**

Karítas Brynjólfsson.
Jónas Brynjólfsson.
Brynhildur Björnsson.
Ármann Björnsson.
Margrét Eiríksson.
Katrín Egilsson.
Guðmundur Egilsson.
Guðrún Friðriksson.
Stearn Friðriksson.
Þyri Friðriksson.
Guðjón Guðmundsson.
Elízabet Goodman.
Kári Goodman.
Guðjón Goodman.
Guðm. Guðmundsson.
Finnbogi Hjálmarsson.
Guðm. Hannesson.
Ólöf Johnson.
Kristín Jónasson.
Aðalbjörn Jónasson.
Guðmundur Jónasson.
Ágúst Johnson.
Ólafur Jóhannesson.
G. K. Jónatansson.
Thórsteinn Jónsson.
Vilh. Ó. Jóhannesson.
Friðrik H. Jónsson.
Ottó Kristjánsson.
Hannes Kristjánsson.
Sigríður Magnússon.
Friðf. St. Magnússon.
Guðmundur Ólafsson.
Sigurður Oliver.
Guðrún Oliver.
Jón Rögnvaldsson.
Kristín Schaldemose.
Hjálmtýr Thorarinsson.
Alex. Thorarinsson.

**Wynyard, Sask.**

Mrs. Jóna Axdal.
Mrs. Guðrún J. Axdal.
Th. S. Axdal.
Sigurjón J. Axdal.
H. I. Axdal.
Björg Axdal.
Sigurður Axdal.
Óli Bardal.
Thorhallur Bardal.
Páll Bjarnason.
Dóra Bjarnason.
S. S. Bergmann.
Aðalsteinn Bergmann.
Júlíus Bjarnason.
Ásgeir I. Blöndahl.
Fanny Blöndahl.
Hulda Blöndahl.
Hilmar Blöndahl.
Aldmar Blöndahl.
Kristján Bergþórsson.
Anna Bergþórsson.
Friðrik Bjarnason.
E. Vilborg Björnsson.
S. J. Eyríksson.
Mrs. S. J. Eyríksson.
Paul Eyjólfsson.
G. J. Guðmundsson.
Arnþrúður Goodman.
Sigtryggur Goodman.
Kristín Guðmundsson.
V. Gíslason.
Halldóra Gíslason.
G. Gíslason.
Thorsteinn Gauti.
Valdimar G. Gíslason.
Sigríður Guðjónsson.
Ásg. Guðjónsson.
Guðm. G. Goodman.
Steinþór Gunnlaugsson.
Óli J. Halldórsson.
O. Hall.
Mrs. Kristrún Hall.
Thorbergur Halldórsson.
Ástvaldur Hall.
Mrs. Ásbjörg Jóhannsson
John Jóhannsson.
Miss Thora Jóhannsson.
Gunnar Jóhannsson.
Halldór Johnson.
Mrs. Dómh. Johnson.
Guðmundur Jónsson.
Gunnsteinn Johnson.
Þuríður Johnson.
John Johnson.
Thor. I. Jensen.
Theodor Johnson.
Ólína Johnson.
H. B. Johnson.
Páll Johnson.
Sigrún Johnson.
Ó. Jónasson.
Jóseph Jósafatsson.
N. B. Josephson.
Guðný Josephson.
Thorlákur Jónasson.
Ragúel Johnson.
Brynjólfur Johnson.
H. Kristjánsson.
Guðný Kristjánsson.
Hannes Kristjánsson.
Jón Kristjánsson.
Carl Magnússon.
J. H. Líndal.
Stephan Magnússon.
Jakob J. Norman.
Kristinn Pálmason.
Guðm. Paulson.
Á. Sædal.
Halldóra Sigurjónsson.
Séra Haraldur Sigmar.
Jóh. J. Stefánsson.
St. Þorsteinsson.
S. J. Wium.

**Yarbo, Sask.**

Valdemar G. Guðnason.

# Auglýsíngaskrá.

# Gerum Manitoba

**Að þeim stað, þar sem gott sé að vera.**

---

Hver einasti góður borgari **Manitoba** óskar eftir að **Fylkið** megi verða sá staður, þar sem gott sé að búa. Og eftir því sem þeim lærist betur að vinna í sameiningu að öllum framförum, eftir því njótum vér betur ávaxtanna af því verki.

Hér eru nokkrar bendingar, í hvaða átt vinna megi að framförum:

**Meiri framleiðsla:**

Fleira fólk til sveita. Meiri jarðyrkja. Betri varnir gegn illgresi. Meiri áburður á akrana. Fleiri kynbótagripi í hagana, svo að notum komi það fóður, er nú fer til ónýtis. Meira korn, kjöt, smjör, ull, egg, fleiri hross, svín og sauðfé á markað útlanda. Allir geri eitthvað til að bæta við þjóðarauðinn.

**Betri vörur.**

Að afurðir séu sem beztar að gæðum. Bæta kynstofn allra alidýra. Nota aðeins bezta útsæði í akra. Að rjóminn sé nýr og óskemdur, er fer til smjörgerðar. Ullin hrein og vel hirt. Egg varin skemdum.

**Bætt félagslíf:**

Meiri stund lögð á framfarir í vegagerð. Aflmeiri og framtakssamari búnaðarfélög; sumarnámsskeið fyrir konur og unglinga. Sveitafélög fyrir drengi og stúlkur. Meira gert til þess að laða hið yngra fólk að sveitunum. Betri kennarar. Betri skólahús. Fleiri nemendur við Búnaðarskóla Manitobafylkis. Vaxandi metnaður og menning[illegible] sveita.

---

Það er lífsskylda Manitobaborgara, hvers og eins, að leitast við að hefja land og lýð feti nær framfarahugsjóninni.

---

**LANDBÚNAÐAR-SKRIFSTOFA MANITOBAFYLKIS.**

**Hon. Geo. H. Malcolm,**

Innflutninga- og Landbúnaðarmálaráðherra.